# ÞRJÁR RITGJÖRÐIR:

1. UM HINA ÍSLENDSKU KAUPVERSLUN,
2. UM ALÞÍNG,
3. UM HUGVEKJU HRA. JOHNSENS,

kostaðar og út gjefnar

af

**17 ÍSLENDÍNGUM.**

---

**KAUPMANNAHÖFN.**

Prentaðar af J. D. Kvisti, bóka-prentara og nótna.

1841.

## FÁEÍNAR ATHUGASEMDIR UM VERSLUNAREFNI ÍSLENDÍNGA.

— — —

Íslandsförin fljóta
færri um síldar kór,
sem áður höfðu gnótt og gull
fært með heiðri heím, og gjört
húsin nægtafull.

Ísland.

Sumarið 1838 er eínhvur merkilegasti og eptirtektaverðasti kafli Íslands verslunarsögu, að minsta kosti sunnanlands. Fasta kaupverslanin *) hefir þar að níúngu ekki átt eíns góða daga, og vjer höfum jafnframt reínt, hvað affaragóð hún verður landinu, þegar so ber undir, og hvað ervitt er að koma saman hag landsins og kaupverslunarinnar, meðan henni er eíns varið og nú er. Hvurnig ætti, til að minda, kaupverslanin að gjeta orðið erviðari firir sunnlendíngafjórðúng, eður haganlegri firir suðurnesjakaupmenn, enn ef allt bæri að í eínu, að ferðirnar undir Dirhólaeí legðist niður; litlar eður eíngar vörur flittist til Eírarbakka; lausakaupmenn kjæmi aungvir

*) Orðin "föst kaupverslan" eru í þessarri ritgjörð alstaðar höfð um verslan þeírra manna við landsfólkið, sem hafa aðsetur erlendis og fasta sölumenn í kaupstöðum á Íslandi. Er það gjört til að greina þá verslun frá verslun borgara og *lausakaupmanna.*

til suðurlandsins; borgararnir*) hefði ekkjert í höndum, enn föstu kaupmennirnir hefði annaðhvurt litlar þarfavörur að bjóða við íslenska kaupeírinum, eður þeír væri so háðir boði og banni eínhvurs eíns þeírra, að þeír irði að leíka eptir hans vild, og enn bættist hjer við, að kaupeírir landsmanna væri að miklum hluta kominn í hendur kaupmanna og sumur burt úr landinu, áður mönnum væri gjört uppskátt, hve mikið þeír ætti að fá í staðinn, og í hvurjum aurum það mundi verða úti látið. Og, þó ólíklegt mætti þikja, fór eígi mjög fjarri, að kaupverslanin sunnanlands væri komin í þetta horf sumarið 1838; því ferðirnar til Dirhólaeíar lögðust niður, enn vöruflutníngarnir til Eírarbakka varla teljandi, so, þegar tekinn er til greína erviðleíkinn, sem er á því, að nálgast þarfir sínar úr Vestmanneíum, var sá eíni kostur firir mestan hluta Árnesssíslu og Rángárvalla og Skaptafellssíslu vestri, sem nú að undanförnu hefir nægast átt kaupverslan á þessum stöðum, að brjótast með kaupeíri sinn til suðurkaupstaðanna, Reíkjavíkur og Hafnarfjarðar. Enn þegar þángað kom, var, eíns og menn vita, so í garðinn búið, að borgararnir voru að kalla allir tómhendir, vegna þess lausakaupmenn brugðust þeím, enn margir hinna so illa út búnir að þarfavörum, að þeír fáir, sem birgari voru, gátu skamtað landsmönnum kaupin eíns og þeim var helst að skapi.

Það var firsta mæðan, sem menn áttu þá firir að verða, að eíngir voru flutningar til Dirhólaeíar. Landsmenn komust ekki, eíns og í nokkur undanfarin ár, hjá þeim kostnaði og firirhöfn, að verja þremur vikum eður mánuði af besta bjargræðistímanum um hásumarið, til að nálgast allar nauðsinjar sínar frá suðurnesjakaupstöðum. Það væri vinníngur að leggja niður, hvað hafa

*) "Borgarar" eru hjer kallaðir þeír kaupmenn, sem hafa aðsetur sitt í landinu, og taka vörur sínar hjá lausakaupmönnum.

þarf firir því, að flitja varníng á hestum, so mörgum hundruðum skiptir, eíns margar dagleíðir eíns og eru austan úr Skaptafellssíslu út ifir ár til Reíkjavíkur, ef tekið væri til greína leígan eptir hvurn hest, sem látinn er í slíka ferð, og daglaun og fæði firir hvurn mann, sem í hana fer, meðan burtu er verið; mundi þá gjefa að skilja, að eín eður tvær ferðir til Dirhólaeíar, sem úr Vestmanneíum gjeta tekist með litlum kostnaði, þegar sætt er haganlegu lagi, eru austursveítamönnum eínhvur notalegasti greíði og hlífa þeím við kostnaði, er skipta mundi þúsundum ríkisdala. Var þeím þess því meíri þörf það sumar, sem hestunum hafði heldur verið fækkað eptir það Dirhólaeíarferðirnar voru upp teknar og hinna erviðu suðurferða þurfti síður við. Það verður ekki metið, hvílíkan hag landsmenn höfðu af því, hvað nærgjætnislega og notalega Gísli kaupmaður Símonarson hægði þeím flutnínga með öllu móti.

Mönnum varð að því, að ekki var farið til Dirhólaeíar, því meíra meín og erviðisauki, af því so bar undir líka, að ekki tjáði að hverfa til Eírarbakka. Það þarf ekki annað, enn líta af uppdrætti landsins, hvað lángt er á milli Djúpavogs og Reíkjavíkur, til þess að gjeta rennt grun í, hvað bagalegt það sje firir mestan hluta sunnlendíngafjórðúngs, að ekkjert verður feíngið á Eírarbakka, því heldur sem eítthvurt mesta vatnsfallið á Íslandi og brattur fjallgarður er milli hans og Reíkjavíkur og hinna annarra suðurnesjakaupstaðanna. Illiti því margir að verða af lífsbjörg sinni og öðrum nauðsinjum, ef so bæri undir, að þeír ætti lífið undir því að ná til kaupstaða. Þó Vestmanneíar sjeu, eru flestir viðlíka illa farnir að flutníngskostnaðinum til, eíns og sjá má af því, hvað margir fara fram hjá þeím til suðurnesjakaupstaðanna, ef ekki verður staðar numið á Bakkanum.

Það var nú annað, sem menn mætti leíngi reka minni til, hvurnig kaupin gjörðust, þegar suður kom.

Landsmenn gjeta trautt gjört sjer meíri skaðakaup heldur enn þegar þeír til að minda sættast á að láta af hendi fiskinn sinn, þó ekki fái þeír hálfa aðra tunnu firir skippundið, og er það þó miklu skárra, enn að taka í staðinn brennivín og því um líkt. Enn, þegar ferðir birja til Reíkjavíkur, er so lángt komið sumri, að það verður flestum firir, að taka þeím kostum, sem boðnir eru, hvurt sem þeír þikja góðir eða illir, með því þaðan af verður ekki annað flúið.

Þar á ofan stoðaði ekki heldur að leíta firir sjer, og verslanin hefði aldreí orðið með þeím ókjörum, sem raunin varð á, ef ekki hefði bættst hjer við það sem var þessa verst: að kaupmenn voru fæstir færir um, að láta af hendi við menn allt það sem þeír með þurftu, og sumar helstu þarfavörurnar voru alls ekki fáanlegar á kauptíðinni, nema ef vera kunni hjá einum eða tveímur, og þó með mesta treínúngi. Voru það ekki nema eínn eða tveír af kaupmönnunum, sem höfðu, til hlítar, korn til sölu, meðan hæst stóðu ferðir, og að slíku áttu nægast að búa 6 eða 7 síslur í þetta sinn. Með þessu móti tókst nú að færa fram útlendu vörurnar, enn innlendu vörurnar niður. Nú, þó kornútlátin væri með slíkum ókjörum, þóttust menn samt góðu bættir, að þurfa ekki að fara með öllu kornlausir heím aptur. Verr eru menn farnir, ef so tekst til líka, að þeím verður ekki gjörð úrlausn um suma þá hluti, sem þeír gjeta alls ekki án verið; og þó mun hafa farið so firir allmörgum, sem komnir voru eptir viði eða steínkolum til suðurnesjakaupstaðanna, að þeír mætti fara ljetthlaðnir heím aptur, ef ekki med öllu tómhendir.

Enn þó sveítamenn þættist heldur illa haldnir af verslun sinni, er ætíð bót í máli firir þeím, að þeír þurfa ekki að eíga mjög líf sitt undir verslaninni; miklu verr eru sjávarbændur farnir, þegar so tekst til, sem

meíra eru háðir kaupmönnum, enn þó þessa verst kaupstaðarbúarnir, handiðnamenn og borgarar, sem nærri því eíngaungu eíga að búa að því, sem þeím flitst híngað með kaupmönnum. Þegar helstu nauðsinjar þeírra voru ófáanlegar hjá kaupmönnum, og loku var firir skotið að lausakaupmenn rjeði úr vandræðunum eíns og að undanförnu, voru þær tvær stjettirnar sviptar atvinnu, sem landinu eru ómissanlegar, og skilið eíga af landsmönnum alla aðstoð sem verður, að þeím mætti vagsa fiskur um hrigg.

*Knudtzon* stórkaupmanni var almennt gjefin sök á því, að verslanin varð í þetta sinn með mörgum hætti ónotalegri landsmönnum, enn að níúngu undanfarin ár; og ætla má það kaupskaparráðdeíld og dugnaði þessa manns — er hvað sem líður hefir hönd í verslaninni víðast um sunnlendíngafjórdúng —, að hann hafi átt hlut í nokkrum þeím atvikum, sem óhægðu oss verslanina í þetta sinn, þar sem hagurinn af því lendi mestallur hjá honum; enda var hann vel kominn að þeím hagsmunum, sem hann nant af því, að hann var um lestatímann birgari af þarfavörn, enn aðrir. Kaupmönnum er öll vorkunn, þó þeír efli gagn sitt eíns og þeír hafa dug og vit til, hvað sem oss líður. Þeír eíga sjálfir í vök að verjast, eínkum þegar árar firir þrím utanlands eíns og í það skipti, og þeír gjeta ekki farið að því, þó vjer gjöldum heímsku vorrar, og verðum undir í skiptunum, af því vjer kunnum ekki að fara með efni vor eíns og þeír kunna. Það tjáir ekki að gjefa þeim sök á því, sem verslunarlöguninni sjálfri *(Handels-Systemet)* er um að kjenna. Það er þeírra, að nota hana eíns og kostur er á; enn þeír meíga þá hins vegar ekki kippa sjer upp við, þó vjer að voru leíti berum oss að fara að vitkast smátt og smátt, og líta á mál vor með nokkurri skinsemi. So eru verslunarefnin áríðandi í hvurju landi sem er, að mál er komið, vjer förum að íhuga þau dálítið hjer

hjá oss, og leítast við að koma í þau einhvurju viti. Vjer höfum helst til leíngi horft á búðirnar og tekið ofan hattinn (margur hvur), ef oss er lofað að koma inn í þær. Vjer höfum helst til leíngi látið aðra hugsa og vinna firir oss. Vjer höfum helst til leíngi átt undir högg að sækja með hinar helstu nauðsinjar vorar, og fallið síðan eins og flugur firir húngri og harðrjetti. Væri það vel, ef úr þessu rjeðist nokkuð hjer eptir. Skal því hjer af framanskrifuðu dæmi tekið tilefni til nokkurra hugleíðínga um eðli, ásigkomulag og ávögstu hinnar föstu verslunar á landi hjer.

Það - er þá first af þessarri kaupverslan að seígja, að hún er hjer eíns og aðkomandi og gjetur ekki dreígið landsins taum — hún stefnir í alla aðra átt, og sá kaupmaðurinn, sem færir sjer hana best í hag, gjetur trauðlega hjá komist, að verða landi voru óhollur.

Það er vant að færa það föstu kaupverslaninni til afbötunar, að landið gjeti ekki komist af án hennar — að það gjeti ekki fætt sig sjálft, og það þarfnist so margs frá öðrum löndum, sem því gjeti ekki bættst með öðru móti; verslunarlögin eru öll sniðin til eptir þessum hugarburði: menn hafa alla jafna hugsað, að landið mundi bresta matvæli og aðra nauðsinjaflutnínga, ef þessarri föstu kaupverslan linnti, og hún hefir því orðið ímislegra hlunninda að njótandi, til þess lífið gjæti haldist í henni. Enn hjer er first athugandi, að reínsla annarra landa — t. a. m. Finnmerkur — sínir berlega, að ekki þarf slíku að kvíða. Og þó so ólíklega til tækist, að reínsla þessi brigðist á Íslandi, að nokkru leiti — því að öllu leíti gjetur hún ekkji brugðist — þá ber í öðru lagi á að líta, hvurt landið væri firir það öllu verr farið, enn það nú er.

Menn hlaupa ætíð first í kornið, þegar verið er að gilla þessa miklu utanlandskaupverslan, og sína, hvað ómissanleígir oss sjeu föstu kaupmennirnir, sem vjer

eígum vísa híngað á hvurju ári með kornflutníngana, er haldi í oss lífinu. Enn hjer gjetum vjer dável vísað þeím frá, og sagt: maðurinn lifir ekki af eíntómu brauði! Því so stendur vel á firir oss, að hjeðan úr landi flitst til jafnaðar meíri matvara enn inn í það; og er oss þá nær að slægjast eptir að eiga kaup hvurjir við aðra, enn að seílast í útlend matarkaup með allskonar ókjörum, það því heldur sem vjer Íslendíngar gjetum hjer vel keípt hvurjir við aðra, öllum til hagnaðar, þar sem eínn fjórðúngurinn hefir af mörgu því nægð, sem annan heldur skortir. Það er t. a. m. fiskur meíri hlutinn af því, sem sunnlendíngar gjeta af hendi látið við kaupmanninn. Mikið af kaupeíri norðlendínga er fólgið í sláturfjenaði og slíku, og ekki kjemur suðurnesjabændum annað betur, enn að fá kindur firir fiskinn sinn. Á líkan hátt mundi norðlendíngar láta sjer vel líka, ef þeír gjæti feíngið fisk firir nokkuð af skurðarfje sínu. Eíns er á því mikill munur, hvað smjörið er optast ódírara firir norðan enn siðra. Aptur fer fiðrið úr Vestmanneíum heldur óþarfan krók á sig suður til Danmerkur, með því opt verður að ráði, að flitja það þaðan aptur til norðlendíngafjórðúngs. Af þessu má ráða, hvað vel það kjæmi sjer, að menn hefði betri tök á innanlandsversluninni og flutníngunum úr eínum fjórðúngi í annan, til lands og sjávar.

So að menn láti sjer skiljast, að hjeðan fari meíri matvara, enn híngað kjemur, bið eg að þeír renni augunum til eptirfilgjandi skilríkja um þessi efni; veít eg ekki til að annað hafi verið hirt á prenti um matvælaflutnínga hjeðan og híngað, enn það sem hjer er til tínt, og er þá sjeð, að sama verður jafnan á blaðinu, og að það nemur reíndar ekki litlu, sem hjeðan fer meíra af matvælum enn híngað kjemur:

| | Út flutt matvara, sauðakjöt og nautakjöt, tólg, smjör og fiskur: | Að flutt matvara, rúgur og bigg, rúgmjöl og biggmjöl, baunir og bánkabigg, skipsbrauð og skonrok: | Meira burt flutt af matvöru enn að flutt: |
|---|---|---|---|
| Árið 1655 . . . . . . . . | 51,969 vættir árlega | 9,449 vættir árlega | 42,520 vættir árlega *) |
| 10 árin 1733—1742 . . . | 48,780 — — | 16,000 — — | 32,780 — — |
| 5 árin 1759—1763 . . . | 33,671 — — | 22,577 — — | 11,094 — — |
| 10 árin 1764—1773 . . . | 430,740 — — | 298,968 — — | 131,772 — — **) |
| 10 árin 1774—1783 . . . | 391,988 — — | 334,078 — — | 57,910 — — |

*) Erichsen: *Om Islands Opkomst* bls. 375.

**) *Pontoppidans Handels-Magazin for Island* I, 255 o. s. fr.

Þó má einginn taka so orð mín, eins og jeg amist við korninu. Enn úr því um íllt er að velja, er land vort ber ekki korn, og ímisleg vankvæði eru á því, að hafa aðra eíns nægð af því hjer, eíns og þar sem það sprettur, og kornkaupin verða oss ætíð útdráttarsöm, held eg vjer irðum að gjeta og gjetum dável komist af, þó ekki flittist híngað meíra enn helmíngur af þeírri kornvöru, sem híngað hefir verið flutt á seínni árum, ef vjer vildum sættast við það, sem vjer eígum sjálfir, kjötið og smjörið og fiskinn, sem firir kornið er látið, og hefðum elju á, að rækta maturtagarða vora þann tímann, sem vjer erum vanir að eiða til hinna erviðu kaupstaðaferða, og þirftum vjer þá ekki, að sækja jarðeplatunnuna til kaupmannsins firir 4 dali, eíns og nú er títt. Jeg bíst uefuilega við margur hugsi, að skaðlaust sje að láta fiskinn firir kornið, þegar hvurttveggja mætist. Enn jeg bið menn að láta það ekki villa sjónir firir sjer, og leggja vel niður, hvaða kostnað það kann að auka þeím víða hvar, er jafnvel hálfur mánuður eíðist af besta sumartímanum til að fara kaupstaðaferðirnar, og að aptur fer víða spilda úr slættinum til að heía firir hrossunum, sem stundum þarf að bæta við firir þessa sök. Ef þessi kostnaður er lagður ofan á kornkaupin, og líka hitt, sem menn gjætu áunnið sjer með því að stunda annað á meðan, má vera hallinn komi sumstaðar í ljós, þar sem álitin voru jafnaðarkaup í firstu.

Af þessu virðist mjer auðsætt, að komast mætti af með miklu minni siglíngar híngað til landsins, ef so ætti til að takast, þar sem fækka má so mörgum kornförmum. Enn sama er að seígja um saltfarmana, sem híngað eru fluttir; því að því slepptu, sem oss mætti enn takast sjálfum, að búa til salt handa oss, þá er mesti hlutinn af því fluttur híngað, til þess vjer gjetum saltað fiskinn; og mætti oss þá nægja þeím mun minna salt, sem minna irði flutt burt af fiskinum; enda virðist meíga

koma út fiskinum utanlands, þó ekki sie hann saltaður. Í Norveígi er meiri hægð á saltútvegum enn á Íslandi; þó var úr Björgvin í Norveígi flutt til annarra landa af hörðum fiski árin 1782 til 1786 250,609 skpp., enn af söltuðum að eíns 70,092 skpp., og árin 1822 til 1826 voru þaðan flutt af hörðum fiski 269,177 skpp., enn af söltudum fiski eín 53,731 skpp., og þó enn að auki 8,400 skpp. af hörðum fiski til innlendra staða. (Sjá *Maanedsskrift for Litteratur* VIII, 525). Má af því ráða, að Norðmönnum gángi út fiskurinn, þó ekki sje kostað til að salta hann. Eíns fóru hjeðan af landi í 21 ár, 1764 til 1784, 119,617 skpp. af hörðum fiskí, enn 39,984 skpp. af söltuðum. (Sjá *Forordning ang. den islandske Handel og Skibsfart* bls. 178). Enn hvað hinar tvennar nauðsinjavörurnar áhrærir, viðinn og steínkolin, sem eptir kornvörurnar og saltið þurfa mest rúmið í skipunum, og auka skipaferðirnar út híngað, þá eru steínkolin sem híngað koma ekki so margir skipsfarmar, enda urðu handiðnamennirnir á suðurnesjum varir þess í sumar, hvursu stundum er bætt úr þessum nauðsinjum vorum. Viðarkaupin hafa, so að öldum skiptir, laungum verið gjörð oss óbærileg, og stundum hefir trjáviðinn vantað með öllu, so að þetta hefir að kalla verið stöðugt efni til óánægju og vandræða, síðan vjer hættum sjálfir að eiga hlut í kaupverslan vorri. Forfeður vorir ljetu sjer eínna mest annt um, er þeír fóru utan, að nálgast húsavið frá Norveígi, og höfðu þeír þó meíri stuðníng af skógum landsins til húsagjörðar, enn síðan hefir kostur á verið. Bæir vorir og óhreínlætið, sem þeím er nægast að kjenna, hefir um margar aldir bakað oss álas kaupmanna, ekki síður enn annarra útlendínga. Enn jeg veít ekki hvurnig úr því á að rakna, meðan trjáviðarkaupin eru með þeím ókjörum, sem nú hefir verið um stund, þar sem timbur hefir víða ekki verið fáanlegt, og alstaðar annað tveggja, so íllt að varla væri til nokkurs nítt, eða með óheírilegu verði,

og margopt hvurttveggja undir eíns. Hefir meðal annars leitt af því, að kirkjur hafa þolað stórskjemmdir, vegna þess ekki hefir orðið við þær gjört, enn summm leígið við hruni, ef ekki hrunið algjörlega, og ekki orðið komið upp aptur firr enn bæði seínt og illa, og stundum eptir ár liðið. Og ef ekki hefði sendst rekaviður af sjónum, mundi liggja við borð, að ekki feíngist fjalir til að slá utan um þá sem deía, því síður að tekið verði hús nauðalítið, efnað til færikvía eður annars, er sveítabúnaðinn vanhagar um hvað mest. Þegar Norðmenn hafa komið híngað með viðarfarma, hafa kaupmenn laungum bolað aðra frá kaupunum, og sjálfir slægst til að ná í þau, bæði til að gjeta skamtað oss viðarkaupin eíns eptir og áður, og líka so það gjæti heitið so, að timbur væri fáanlegt hjá þeím. Enn ekki er að búast við, kaupmenn láti sig miklu skipta, þó það sje dírt og óútgeíngilegt; því það er þeím hagur, að sá varníngurinn treínist sem leíngst, sem þeír hafa minstan hag af að flitja híngað. Eíngu að síður eru líkindi til, að kaupmenn gjæti flutt híngað við, sjer að skaðlausu. Því aðkaupsverðið á timbrinu gjetur ekki verið feíkihátt í Norveígi, first Norðmönnum gjetur orðið að liði, að koma híngað með farma af eíntómum viði, og taka peníuga í staðinn; því þá gjetur ávinníngurinn ekki verið í öðru fólginn, enn því sem timbrið verður dírara þegar híngað kjemur, heldur enn aðkaupsverðið var í Norveígi; og af þessu á að gjöra út haffært skip, gjefa mönnum fæði og laun, og nokkuð ætti þó að vera afgángs firir það, sem haft er firir og lagt er í sölurnar. Og minnilegar eru í þessu tillögur fulltrúanna á firsta Hróarskjeldufundinum. Hin nauðsinjavaran, sem vjer þurfum úr öðrum löndum — járn, tjara, hampur, færi — er so lítil firirferðar, að ekki þarf marga skipsfarma af þesskonar til landsins árlega, so allir gjeti feíngið það eptir þörfum.

Nú er það sínt, að ekki þirfti eíns marga skipsfarma árlega, og komið hafa sum undanfarin ár; og þegar líka er að gjætt, hvað mikið af því, sem híngað er flutt af óþarfavöru, brennivíni og þessháttar, mætti missa sig líka, ætla eg að öllu saman töldu landið ekki fara mikils góðs á mis, eður vera öllu verr farið enn áður, þó miklu færri skipsfarmar kjæmi híngað til lands enn stundum að undanförnu, og þó að útlenska kaupverslanin hjer á landi, að so vögsnu máli, færðist ærið saman, ef so vildi til takast. Enn með því nú er búið að líta á, að þarfir vorar eru lángtum færri enn vjer hugsum, ef vjer notum land vort eíns og vera ber og förum rjett að ráði voru, þá er að skoða hitt, hvað vel kaupmenn hafa úr þeím bætt, þar sem þær eru meír enn hugarburður eínn. Og það er nú önnur röksemdin, sem firir laungu ætti að vera búin að kjenna oss, að halda föstu kaupmennina oss ekki mjög ómissanlega, að þeím hefir meðallagi vel tekist, að bæta úr þörfum vorum. Þeír bregðast laungum helst, þegar mest á liggur. Þeír hafa hvurki ætíð orðið oss að liði þegar á hefir leigið, nje heldur gjetað það. — Það er fullkunnugt af alþíngisbókunum og mörgum öðrum ritum *), hvursu kaupmenn hvað eptir annað skutu sjer undan skildum sínum, að flitja híngað þarfir landsins eíns og firir var mælt. Frá því firsta að kaupverslan útlendínga tókst hjer, hefir varla geíngið á öðru enn umkvörtunum og óánægju — stundum með það, að nauðsinjavörurnar vantaði, eínkum kornið — stundum, að þær væri skjemmdar og ónítar — stundum, að þær væri dírra seldar enn lög og samníngar voru til — stundum, að vogir og mælikjer væri rángt. Að þessar umkvartanir landsmanna hafa verið á góðum rökum biggðar, má sjá af því meðal annars, að kaupmenn urðu undir næstum í hvurju máli, sem borið var

*) Menn kinni sjer meðal annars Erichsen: *Om Islands Opkomst* frá bls. 75. til 93., og önnur rit, sem þar er til vísað.

undir konúngana eður stjórnarráðin, og embættismenn hjeðan úr landi hafa að minsta kosti átta sinnum orðið að gjöra ferð gagngjert úr landi, til þess að rjetta hluta landsins í skiptum við kaupmenn*). Trauðla harðnaði nokkurn tíma so í ári, að ekki minkaði flutníngar, af því minni var ábatavonin — að ekki væri nauðsinjavörurnar færðar fram, eður þess á leít farið; og því laginu sættu kaupmenn jafnan til að útvega sjer ímisleg hlunnindi, landinu til niðurdreps. Enn þegar sona fór fram, meðan með lögum var á skilið, bæði að þeír skildi flitja nægar þarfavörur til landsins, og með hvaða verði þær skildi selja, og að vörurnar værí góðar og óskjemmdar, og ekki þurfti annað enn hafa gjætur á, að ekki væri af því brugðið, þá má nærri gjeta, að hálfu síður hafi alls þessa gjætt verið, síðan kaupverslanin var látin laus, og lögin hættu að skilda menn til, að sjá landinu firir nauðsinjum þess, því síður að skipað væri til um söluna. Var kaupmönnum því hægra að koma sjer við með þetta, sem þeír hafa, þángað til í fáeín síðustu árin, nægast verið eínir, hvur þar sem hann hafði komíð sjer niður, og sjeð um það, að ríða ekki í bága hvur við annan. Firir lausakaupmönnum hafa fasta kaupmenn að mestu leíti gjetað farið sínu ráði fram; því bæði hafa mikils til of fáir þeírra komið hjer til lands, og líka er þeím erviðast að leggja þángað, sem mest er þörfin á þeím. Og á meðan borgararnir eru so óvíða, er það eínúngis um há-sumartímann, sem þeírra nítur við; og hafa sölumenn föstu kaupmannanna allan hinn tímann firir sjer — haustið, veturinn og einkum vorið, þegar mest fer að harðna — til að koma því út, sem þeír eíga undan sumrinu. Þar hefir líka raunin orðið á, að ekki hefir verið farið að því, hvað landinu væri ómissanlegt eður þarflegt, heldur fremur að hinu, hvað ábatamest gjæti orðið. Það verður

*) Sjá Ól. Stephensen: *Om den islandske Handelsförelse*, *Kh.* 1798, *S.* 22–34 og víðar.

hægt að koma tölu á þá verslunarstaðina kríngum Ísland, er allar helstu nauðsinjar fást árið um kríng og mörg ár í samfellu, og það gjefur að skilja, að helst fari að bresta, þegar menn fara mest að verða komnir upp á hjálpina og harðast er á milli manna — undir hvurt vor, og þegar hart fer að verða í ári. Á Eírarbakka hefir ekki í manna minni komið það ár, að ekki þriti flestallar nauðsinjar, og hafa þó hvurgi á landinu verið boðin önnur eíns kaup til jafnaðar*). Jeg bið menn að skoða aðra verslunarstaðina sunnanlands, og vita, hvurt ekki verður sama sagan. Eptirstöðvarnar, sem voru í Reíkjavík eptir lestirnar 1838, eru eítt með fleíra til marks hjer um; verður þó suðurlandskaupmönnum færra til afsöknuar enn víða annarstaðar; því ætíð er hægð á að koma híngað skipum nógu snemma sumars, og aungum þarf hjer að standa ótti af hafísnum.

Það er eítt fólgið í eðli þessarrar kaupverslunar, að hún gjetur ekki verið áreíðanleg firir landið. Hún er sjálf bísna stopul og brigðlind. Kaupmenn, sem eru utanlands, vita lítið hvað landinu líður. Þeír gjeta ekki skamtað því við hæfi, nje vitað so gjörla, þegar þeír fara að heiman frá sjer, hvurnig kaupin muni gjörast og hvað mikið ráð sje að hafa með sjer út híngað af hvurjum hlut; því slíkt er allt komið undir því,

*) Nefndin, sem kvödd var til að gjefa álit sitt um verslunarefni vor núna seínast, var, eíns og menn vita, mótfallin því að verslun væri leífð í Þorlákshöfn — taldi það hvurki alls kostar nauðsinlegt nje gagnlegt. Það er bágt að skilja í, á hvaða rökum nefndin hefir biggt þetta álit sitt, þar sem þó er kunnugt, að Eírarbakkaverslanin hefir varla nokkru sinni endst til, mánuði leíngur frá því skipið hefir komið, að láta af hendi þarfavöru, og aldreí nema að skornum skamti; að óþarfavaran hefir flogið út þó hún væri opt þriðjúngi dírari, enn í næstu kaupstöðunum; að menn hafa sættst við að bíða þar eptir afgreíðslunni, so að vikum skipti, heldur enn að þurfa að leggja suður ifir heíðina.

hvurnig árað hefir í landinu og hvurnig sjávarútveígirnir hafa heppnast (sem þeír vita ekki). Þegar þeír nú eru komnir híngað, soua upp á von og óvon, gjetur so farið eítt sumarið, að þreíngst hafi hjer um bjargræðisveguna, so þeír taki lítið í skipin aptur; að hjer komi mikil siglíng, so þeír verði að gjefa geíp firir íslensku vörurnar, eður þeím gángi lítið út af því er þeír komu með; þetta er nú góða verslunarárið Íslendínga. Næsta árið flitja kaupmenn lítið með sjer, er þeír þikjast eíga nóg firirliggjanda á Íslandi. Lausakaupmenn forðast eldinn, sem þeir brenndu sig á sumrinu áður, og fara nú hvurgi. Á Íslandi hafa bjargræðisveígirnir gjefist vel; landsmenn ausa í kaupmenn vörunum firir gamlar skuldir, ef ekki vill betur. Nú verður alls þrot á verslunarstöðunum; kaupmenn gjeta skapað verslunina eíns og þeím sínist, því þetta er árið þeírra, og þeír, sem komu, fara nú heím til sín klifjaðir. Eptir á kjemur voða vetur á Íslandi; sjávarútveígirnir bregðast; eínginn gjetur liðsinnt; kaupmenn gátu ekki við ráðið, þó þarfavörurnar bristi, því óárið þeírra var ní-geíngið um garð; Íslendíngar þurftu þeírra helst við, því óárið hjá þeím var birjað. Soua ríður kaupverslanin í bága við landið, meðan henni er þannig firir komið, og gjetur aldreí látið það eíga nóga tilflutnínga so vísa, að undir því sje eíganda og ekki kunni út af því að bera. Annað irði ofan á, ef vjer værum sjálfir færir um að nálgast nauðsinjar vorar. Þá væri kostur að haga burtflutníngum matvælanna á vorin, þegar skipið legði út, eptir því sem árað hefði veturinn aður; enda væri þá kostur að láta það koma með skipum á haustin, sem helst mundi þurfa til vetrarins.

Enn ber þess að gjæta, að ef einhvur brestur verður á flutníngunum híngað, meðan á statt er firir oss, eíns og nú er, erum vjer hálfu verr farnir, af því vjer höfum vanist á, að eíga so mikið undir versluninni, þar sem

tjónið irði miklu minna, þó hún brigðist, ef menn vissi firir fram, að þeír ætti þar mest traustið, sem þeír eru sjálfir. Þess vegna gjetur það undir eíns orðið so bagalegt, eins og nú er á statt, ef skipkoma bregðst algjörlega á eínhvurjum stað; því auk þess sem menn opt kunna að bíða siglingarinnar þar til er sá tími er liðinn, að farið verði á aðra staði, vantar opt, þegar sona óvænt tilvik ber að, hesta og áhöld, til þess að gjeta dreígist til næstu verslunarstaðanna. Væri það líka annað enn eíntómur hugarburður, að kornbirgðirnar væri meíri, sem híngað flitjast, enn matvælin, sem fara með skipunum aptur hjeðan úr landi, so að vjer þirftum að eiga líf vort undir kaupmönnum, þá liggur að vísu ekki annað firir, enn hjer verði hallæri í hvurt sinn og þeír bregðast; enn þegar þeír nú hafa brugðist og bregðast so opt, væri öllum þeím ofaukið í landið sem á þeím lifa. Hvurnig sem þessi mál eru skoðuð, verða þau lokin á, að valt sje að eíga mikið undir þessarri föstu kaupverslun. Enn áður enn eg læt í ljósi ætlan mína um það, hvursu verslunarefnunum mætti so firir koma, að landið eígi minna í hættu, og taki meíra í ávinníng, og gjeti nálgast sjálft so marga skipsfarma, sem það fær eígi án verið, eður með öðrum orðum: hvursu verslaninni verði hagað eptir eðli og þörfum landsins, er best að gjöra sjer betur ljóst, hvað holl þessi fasta kaupverslan sje velgeíngni landsins, iðnum, og framtakssemi og mentun, í samanburði við það, ef verslanin ætti hjer heíma, og því næst, hvursu verslan hjer í landi borgi það sem firir henni er haft. Vonar mig að því búnu, að geíngið verði úr skugga um, að hagurinn sem landið hefir af föstu versluninni, ef nokkur er, sje mikils til of dírt keíptur, og að landinu mundi eígi óhollara, að annað ráð væri þegar upp tekið.

Saga vor er búin að margsanna það, að kaupverslanin, eins og hún var í nærfelt 400 ár, frá því Íslendíngar hættu algjörlega að eiga með hana sjálfir undir lok 14. aldar, til þess hún nú seint á 18. öld var látin laus, hefir verið ein aðaluppsprettan til allrar þeirrar vesældar og hörmúnga, sem ifir oss hafa dunið á þessum umliðnu öldum, og, hvurt vjer tökum nokkurri viðreist hjeðan af, er undir því komið, hvurt kaupverslan vorri verður komið í það horf, sem hún á að vera í. Það er óskjemtilegt, að lesa um athafnir verslunarfjelaganna hjer í landi, og allt það gremjuefni, sem þau hafa gjefið landsmönnum. Ritin, sem komu í ljós undir lok leiguverslunarinnar, og aptur eptir það dagar hennar voru þrotnir, og kaupverslanin var (að nafninu) frjáls orðin, deilurnar sem hófust á næstu árunum firir aldamótin, eru til marks um það, hvað óvinsælt hjer hefir verið orðið ríki kaupmanna, og hvað þúngt mönnum hefir fundist að búa undir því. Enn þó það væri einhvur mesti velgjörníngur, sem Ísland hefir orðið firir, þegar kaupverslanin var látin laus við alla Dani, og margt fari síðan lögulegar enn áður, þá eldir þó enn eptir af sama illgresinu, sem þá var orðið so óþokkað; og er það því að kjenna, að eðli verslunarinnar er líkt, og stefna hennar öll hin sama. Hjer er raunar fjelagskaupverslan enn, þó ekki eigi það að heita so. Það er enn fólgið í eðli verslunarinnar, að kaupmenn taki sig saman til að draga einn taum, að þeir komi sjer saman um að spilla ekki kaupum hvurjir firir öðrum, og að gjefa sem minst firir íslensku vörurnar, þó mörgu sinni hafi farið því gagnstætt, og íslenski kaupeirirnn hafi verið borgaður um of, þegar samtökin hafa ekki gjetað haldist. Þessi viðleitni kjemur fram í öllum þeirra firirtækjum, þar sem ráðlegt er að láta bera á henni. — Flestar athafnir vorar til að verða betur sjálfbjarga hljóta að eiga þar óvini, sem kaupmenn þessir eru, í

þeli niðri ef ekki augljóslega; því þeir skilja, að eptir því sem oss vagsa efni og kunnátta, muni ríki þeírra fara minkanda. Eíga þeír því hægra, sem þeír ná flestir so vel saman í Kaupmannahöfn, þegar samtök þarf að hafa um kaupverslan og annað, og þeír eíga so hægt að bera kveínstafi sína fram firir stjórnarráðin og konúnginn, og að sitja um hvurt lag sem gjefst, til að hafa út eínhvur hlunnindi handa sjer, og gjöra sjer kaupverslunina á Íslandi hægri og arðsamari. Hagur þeírra knír þá alla jafnt til að róa að því öllum árum, að sem minnstar verði siglíngar til landsins, so að sem fæstir verði til að hlaupa í kapp við þá, og að landsmenn sjen sem mest upp á þá komnir, og ekki verði annarra leítað — so þeir gjeti hert við þá kaupin, og sitji eínir firir sem mestu af kaupeíri þeírra. — Sona miðar allt til þess, að fjelagskaupverslanin komist aptur á, sem landinu hefir verið so ófarsæl. Enn ef þetta tekst ekki, þá verður að grípa til hins, að koma út við Íslendínga sem mestu af óþarfaeírinum, sem ábatamest er að selja. Geíngur hann best út þegar best lætur í ári; því þá hafa Íslendíngar mest að láta af hendi, og eru til þess viljugastir, er þeír þikjast gjeta án þess verið, og þeím þikjir nógur tími að fara að búast við hörðu árunum. Af þessu verða góðu árin stundum landinu ekki affarabetri enn hin hörðu, og kaupverslanin á með þessum hætti mikinn hlut í því, að so litlar verða framfarirnar.

Það verður íllt að verja, að kaupverslanin, að minsta kosti samstaðar sunnanlands, hafi með köflum verið líkari mángi enn verslan. Má þess first gjeta, hvað treígir kaupmenn stundum eru til að seígja upp verðlagið, þar sem menn fá opt ekki að vita það, nema undan og ofan af, firr enn um nýár, að vörunum er eitt; enn frágángurinn á sumum þessum nýársreíkníngum er þá aptur eptirtektaverður, þar sem útlendi varníngurinn er með eínu verðinu eínn daginn og öðru hinn, enda í sama reíkn-

íngnum — að ekki sje á það minnst, hvað ólík mönnum gjörast kaupin, þó báðir hafi átt skipti við sama kaupmanninn, er sumir eru látnir hafa nokkra uppbót á vörum sínum undir árslokin, enn sumir eínga. Sumum er þegar á kauptíðinni laumað nokkrum spesíum í vasann, sem aðrir eíga ekki að vita af,, enda er þeirra ekki gjetið í reíkníngunum. Sá kjemst best áfram, sem flestum brögðum beítir til að ná í vörurnar. Stundum eru menn bundnir við borð að koma aptur, ef so stendur á, að eítthvað er látið af hendi við þá, sem þeír gángast firir, eður þeím liggur á, og ekki er til annarstaðar í þann svipinn; stundum með því að þeím er lánaður allur óþarfi, sem þá lángar í, og mestu tekur verðinu í reíkníngnum. Margur búandi loðir með því móti við sömu verslunina ár eptir ár, af því hann á allt af skuldir að gjalda, og verður að láta í þær það sem hann hefir, enn taka allt að láni, sem hann þarf með í hvurt sinn. Þetta er nú eín aðferðin, sem hafa verður í landi hjer við hina föstu kaupverslan. — Öllum mun enn í minni vörudala reíkníngurinn, þar sem spesían gilti hjá eínum 4 dali, öðrum 3, hinum þriðja 2 dali 48 skk., eíns og líka peníngarnir voru teknir verr, enn þeir voru látnir, smærri peníngarnir teknir verr enn þeír stærri, af því lausakaupin — brennivínspelarnir og þessháttar — lúkast helst með smærri peníngunum; (sona var stundum eítt ríksort tekið firir þrjú mörk, þar sem 5 ríksortin voru metin jöfn þremur dölum eða spesíu). Enn ekki irði skjemmri sagan, ef fara ætti að skíra frá því, hvurnig spesían fór að síga niður aptur, árið sem tilskipanin um peníngaverðið birtist, þar til hún komst niður í 2 dali; að ógleimdu því, hvurnig farið er að skamta mönnum úr hnefa nauðsinjavörurnar, þar sem þeír verða að vinna það til að fá eítthvað af þeím, að taka glíngur og óþarfa firir þriðjúnginn — stundum firir helmínginn eða meira — af því sem inn var látið; og er þetta nú í reíndinni hið

sama, eíns og að setja kornið eða aðrar nauðsinjar manna so miklu dírara, þegar hitt sem út er tekið, verður þeím að litlu eða aungu gagni, og stundum til meíra skaða enn gagns. Með því móti safnast skuldirnar í kaupstöðunum hvað helst, að bóndinn flær heímilið, til þess að gjeta lagt so mikið inn til kaupmannsins, að þessi helmíngurinn, eða hvað það nú er, sem hann hefir von um að sjer verði borgaður með þarfavöru, verði so drjúgur, að hann gjeti feíngið allar þarfir sínar eigi að síður, þó hinn hlutinn fari firir óþarfa. Þannig fara menn að verða skuldugir; og so gífurlegar sem skuldir bænda í kaupstöðum eru orðnar, væri þær þó margfalt minni enn aungvar, ef ekki væri keípt annað enn það, sem ekki verður án verið; og jeg vil lofa öðrum að leggja niður, hvað mikill hluti þeírra hefir dreígist saman með þeím neíðarkaupum, sem mönnum eru gjörð að taka óþarfa, er þeír fá ekki þarfir sínar. Bændur eíga þá mestum ókjörnm að sæta af verslaninni, þegar nauðsinjarnar annaðhvurt alls ekki fást, eður slíkt er látið að skornum skamti, meðan þó allt af er haldið opnum búðunum, og glíngrið rennur út á hvurjum deígi, og er hvur dagur, sem hafður er til slíkrar verslunar, næsta útdráttarsamur landi vorn, meðan það staðnæmist ekki í landinu, sem þessa daga fer inn í búðirnar. Þarf opt marga daga til að gjeta losast við það, sem þá er út tekið.

Jeg hefi drepið á eínstöku dæmi, til þess skilist gjeti, hvað holl þessi kaupverslan er firir velgeíngni lands vors *). Ávegstirnir hafa farið eptir því sem sáð er, og mjer þikir því heldur skilt að tefja nokkuð við

*) Þetta er ekki sagt til ámælis þeím, sem fara með verslunina; því það gjefur að skilja, eíns og líka kunnugt er, að í þessarri stjett, eíns og hvurri annarri, sjeu margir vænir og vandaðir menn; enn menn verða að beíta öllum þessum brögðum, þegar so ber undir, til að gjeta komist af. Það er, þegar betur er farið að skoða, eínn neíðarkosturinn, sem leíðir af eðli hinnar föstu verslunar.

þetta mál, sem það lítur so út, eíns og landið sje orðið auðugt af kaupverslan sinni, og landsmenn fari smátt og smátt að verða þeím efnum búnir, að þeír gjeti farið að ráðast í eítthvað sem táp er í, so sem að hafa sjállir hafskipa útvegn. Því er miður, að annað verður á blaðinu, þegar farið er að skignast um betur. Mjer er til efs, velgeíngni landsins hafi til stórra muna í nokkru farið fram, enda þó til væri tekin hin síðustu 20 ár, sem til jafnaðar hafa verið betri enn í meðallagi, og vera meígi, kaupverslanin hafi á þeím orðið meíri og álitlegri, enn nokkurn tíma að undanförnu. — Til þess að gjeta fært til þess nægileg rök, ætti first og fremst að bera saman búnaðarskírslur þessarra ára, og við þær aptur mannfjölgunina, so að sjeð írði, hvunær mestur var bústofninn í samanburði við mannaflann. Enn til þess hefi eg í þetta sinn hvurki nægileg skírteíni, nje tómstundir. — Enn hafi nú bústofninn annaðhvurt ekki farið batnandi, meðan eg þó annars vegar þikist vita firir víst, að landið gjeti borið lángtum fleíra fólk enn ennþá er hjer, eður ef ávagstarins sjer eíngan stað, þó að bústofninn sje orðinn betri, þar sem landið þó jafnan á að sjer að græða í góðu árunum, — þá er að leíta röksemda, hvursu þessu víkji við, og mun þá — spái eg — ljóst verða, að þessi kaupverslan vor, meðal annars fleíra, hafi ekki ríľkað stórum fjárhag landsins, ef að það varla heldur við, þegar best lætur í ári. Gróðinn mun ekki meíri, ef nokkur er, heldur enn likindi eru til eptir so gott árferði; enn reínist hann minni, er uggauda um, að kaupverslanin eígi nokkurn hlut í því, og það skorti á að hún hafi auðgað landið, þar sem hún miklu fremur hafi eitt aflanum firir því. — Því verður ekki móti mælt, að menn hafa á seínni árum átt betri daga enn að undanförnu, og haft að búa við fleíra háttar sælgjæti, því góða árferðið hefir aukið allabrögðin, og kaupverslanin hefir látið mönnum kost á, að eíða þeím í þægilegum

mat eða drikk. Jeg ann mönnum vel að eíga gott, ef þeír eru vel, og með erviði og ástundan, að því komnir, ef það er sjálfra þeirra eígu og afli, sem þeir eíða, og þeir eru first búnir að búa so um sig, að þeír verði aldreí upp á aðra komnir, og að hörðu árin grandi þeim aldreí. Enn mjer er spurn, hvað margir sjeu efnaðri orðnir og hvað mörgum hafi aukist færleíkur til að taka straungu árunum. Efnin hafa eflaust ríkað miklu minna, enn faung hafa verið á, og rannar furðanlega lítið. Ef þau hafa ríkað nokkuð, mun minst af því að eígna þessarri föstu kaupverslan; hún miðar heldur til þess að flitja fje hjeðan enn til að flitja það híngað. Það sem helst sínist lísa nokkrum efna auka, eíns og það, að þiljubátar eru nú fleíri enn að undanförnu og að húsum hefir fjölgað í kaupstöðum, er allt að kalla eígu kaupmanna; skipa útveígir vorir og áhöld er líkt og verið hefir, og eíngar verksmiðjur á stofn settar; það sem bænda jarðeignir hafa fjölgað, er nokkrar þjóðeígnir hafa seldar verið, munar so litlu, að vart er teljanda. Sama er að seígja um það, þó bæagjerð og húsbúnaði til sveíta hafi farið fram í eínhvurju. Enn þó verð hafi aukist á fasteígnum og fjenaði, gjeta verið til þess aðrar orsakir, enn að peníngar sjeu miklir í landinu. Tel eg first til þess, að síðan peníngar urðu fáanleígir hjá verslunarmönnum, eíns og hvur hafði vöru firir að láta, hættu menn að loða á peníngunum, og þeír komu í gáng sem til voru; mönnum lærðist, að betra væri, að hafa af þeím eínhvurn arð, enn aungvan, og kjepptust því við, að koma þeim í jarðir, þar eð so ervitt er hjer í landi að hafa ávögst fjár síns með öðru móti. Að ekki sje óhult, að dæma um peníngaeígn landsins af verði jarða eður fjenaðar, má ráða af því, að það hvurttveggja fer enn hækkanda, þó allir viti, að í síðustu 3 ár hafi peníngum fækkað stórlega í landinu. — Útlendíngar hafa leíngi fundið Íslendíngum það til ámælis, að þeír ljeti peníngana

liggja á kistubotninum arðlausa, enn tímdi hvurki nje þirði að verja þeim til gagns sjer nje ánægju; enn álit þeírra um þetta er viðlíka djúpsært og merkilegt, eins og um mörg önnur efni lands vors. Það var ekki of ráðlegt að kasta þeím út, meðan kaupmenn sátu mönnum í ljósi firir því að gjeta feíngið þá aptur, þó þeim lægi á. Enn síðan kaupmenn sjálfir hættu að vera þess valdir, að menn hjeldi í þá, er sannast að seígja, að þeír hættu að verða fastir í hendi, og menn fóru að tíma að verja þeím til ánægju sjer. Peníngarnir eru farnir aptur, og meír enn farnir, og komnir til kaupmanna, enn vjer aungu bættari. Mjer er til efs, að peníngar hafi í annað sinn að nýúngu verið öllu minni firir liggjandi í landinu enn nú. Þá var Ísland nokkru auðgara að peníngum til að minda undir það seðlarnir fjellu, þó bæði væri fasteígnir og fjenaður í hálfu og þrefalt lægra verði þá enn nú, og þó minna væri tekið firir það sem látið var í kaupstaðinn; enn mönnum búnaðist þá betur, af því þarfirnar voru færri, og menn höfðu betra lag á að treína sjer. Þeírri reglunni er nú brugðið, sem góðir búmenn höfðu þá, að vera aldreí so á veígi staddir, að ekki ætti þeír so sem 200 dali firir liggjandi, ef þeír kinni að verda firir felli eður eínhvurju snögglegu óhappi. Nú á eínginn jarðarverð í handraðanum so að heílum sísluni skiptir. Ef kaupmenn allt í einu hætti að flitja híngað peninga og lána þá, mundi gjefa á að líta, að fasteígnirnar færi að lækka líka, til marks um að það eru ekki peníngarnir, sem í landinu eru, sem hækka soua verð þeírra, heldur eínúngis kaupverslanin nú sem stendur. Peníngarnir eru ekki leíngur að fara enn þeír eru að koma; það fer til kaupmanna aptur eítt árið, sem tekið er hjá þeím annað; ekkjert stendur við í landinu; og það ætla eg þessir tímar hafi fram ifir alla aðra tíma að undanförnu, að peníngarnir sem eru í landinu, hrökkvi ekki firir — jeg held óhætt að seígja — tíunda hlut-

anum af kaupstaðarskuldum á sumum stöðum, þar sem, að því sem mælt er, til eru þeir verslunarstaðir, er 2 eður 3 verslunarmenn eíga hjá landsmönnum ekki minna enn 100,000 dala, sem búið er að taka firir sig fram af útlendum kaupeíri.

Í slíku koma nú fram ávegstir föstu verslunarinnar firir velgeíngni landsins; það eíðir firir sig fram lángtum meíra, enn það á í vændum að gjeta aflað í heíla öld; eður ætli eínni sislu til að minda þætti ekki nógu þúngur kostur, ef hún ætti ofan á önnur útgjöld að greíða 1000 dali árlega, til að lúka gamlar skuldir? Þesskonar eíðslu kalla eg trautt frjálsa; menn taka lánið meðan þeir fá það, hvað sem borguninni líður; og ef farið er að gjæta að, mun optast sú raun á verða, að hjá öllum þessum skuldum hefði mátt komast, ef ekki hefði verið tekið annað enn brín þörf var á; þessi háttsemi vor er því hraparlegri, sem hún er ávögstur góðu áranna og kaupverslanarinnar, þegar hún var oss allra best — eða að minsta kosti leít út til að vera það. Enn hægt er að skilja í, hvað þessu veldur, meðan öðrummeígin er ófremsíni vor — eljuleísi við búskapinn — kunnáttuleísið að haga honum eíns og vera ber, og tímuleísið að kosta nokkru til jarðirkjunnar; enn hinnmmeígin erviðleikarnir á því, að koma sjer firir með efni sín og bjargræðis-útvegn, og kaupverslanin eíns og henni hefir nú líst verið.

Þegar nú með þessu móti er á allar lundir torvelt firir bændur að hafa arð fjár síns, þó eítthvað verði afgángs nauðsinjum þeírra, þá verður það af ráðið sem síst skildi, enn það er nú að eíða á hvurju ári því sem aflast, og láta aldreí safnast neítt. Með því móti venjast menn í góðu árunum á margs háttar gjæði og nægtir, skapa sjer margar þarfir og koma sjer á margt, er þeir gjeta eígi látið af þaðan af. Góðu árin eru með þessum hætti látin skamta gánginn, og þegar fer að harðna í

ári, halda menn sömu háttunum, sem orðnir eru að landsvenju, so örðugt er af að bregða. Þegar nú verður minna til að fara með í kaupstaðinn, og heimilisnauðsinjarnar undir eíns fara vagsandi, og verða líka jafnframt optast dírari, enn menn vilja þó tolla í tíðskunni og ræmast eptir öðru eíns af viðhafnarvörum og sælgjæti, eíns og að undanförnu — so að eíns miklu er eítt meðan miklu minna aflast, — þá gjefur að skilja, að koma muni að því, að það fari að gánga undan, sem þeír áttu inni eða höfðu loðað á frá góðu árunum, ef nokkuð var, og að skuldirnar hrúgist nú ifir höfuð þeim, þar til ekki verður leígur undir þeim risið. Sona fer nú firir eínstöku mönnum; sona fer firir sveítum og síslum; og þegar góðu árin koma þessum rekspöl á, er ekki við góðu að búast þegar harðna tekur, afla útveígirnir erviðast og kaupmenn taka að leggjast hjeðan. Eíns og þess er ekki von, að sá, sem ekkjert hefst að meðan sumarið endist, komist af veturinn á eptir, eíns er ekki heldur við því að búast, að þeim farnist vel, hvurt sem hann á mikið undir sjer eða lítið, sem ekki rær að því öllum árum, að hann í hvurju meðalári, því heldur ef betra er, hafi nokkuð afgángs, sem hann gjeti búið að þegar harðnar. Og þó það að nokkru leíti sje að kjenna óframsíni vorri, að þetta gleímist so mörgum, þá er þó kaupverslanin ekki síður völd að því, þar sem menn fá ekki þarfir sínar nema að skornum skamti, og freístast so til að kaupa glíngrið, af því hvað því er haldið að þeím, og sökkva sjer niður í skuldirnar, af því hvað hemjulaust þeím er gjörð hægð á að fá lánið. Enn meðan þessu fer fram í landinu, er eíngin viðreísnar von á högum vorum, nje að ánauðinni linni, og vjer gjetum orðið sjálfbjarga.

Af þessu má nokkuð skilja hvað þörf fasta kaupverslanin sje velmeígun lands vors, og þegar eíngin eru efnin, verður i ekkjert ráðist sem manntak er í; enn þó

að þau væri nokkur, ríður hún enn með öðrum hætti so í bága við hag landsins, að litlu eður aungu gjetur að heldur orðið ágeingt, og er nú á að líta, hvað þörf hún sje bjargræðisvegum vorum og aflabrögðum sem nokkurt táp er í, handiðnum og öðrum vinnubrögðum. Tóvinna Íslendínga hefir leíngi verið útgjeíngileg. Vaðmálin þeirra voru helsti kaupeíririnn á fornöldum, og nú í margar aldir hafa menn verið að rembast við öllum stundum, að vinna ullina áður hún væri feíngin kaupmanninum, og hleípa fram verði hennar, með því að koma henni í sölnvetlínga, sokka og peísur; enn verslunarsagan lísir því best, hvað vel kaupmenn hafa stutt þessar iðnir, síðan kaupverslanin fór frá oss. Streíngilegt bann og sektir hefir verið lagt við það, að eíga kaup við Hollendínga, sem allt af fíkjast eptir þesskonar varníngi. Og nú er búið að fella hann so, að varla er meír enn borgnð ullin, sem til hans fer; liggur við sjálft vjer eígum að sviptast þessarri atvinnu gjörsamlega. Er það því gremjulegra, sem þessi vinna mætti vera landinu til mikils framdráttar, því heldur sem ekki þarf að slökkva niður miklu hennar vegna; því til hennar er varið þeím tímanum, er ekki verður annað stundað, og af því leíðir þá aptur, að margur maður gjetur ekkjert að hafst, ef að henni hættir. — Það er óskiljanlegt, að ekki meígi koma út ullarnærfatnaði eða prjónlesi, þar sem það þó er í afarverði víða utanlands. Enn ef því skildi vera um að kjenna, að vinnunni eða lögnninni væri í eínhvurju áfátt, þá mundi menn skjótt leíta því lagfæríngar, ef kaupmenn ljeti sjer annara um, að gjöra mun á varníngnum eptir gjæðum. Enn ef oss á ekki að tjónkast, að vinna ullina, áður hún er látin fara út úr landinu, þá ætti menn þó að leíta bragða til, að fá þeím eítthvað að starfa, sem firir þá sök hafa ekkjert að dutla við, og þætti mjer eíga að flitja oss hör í staðinn, og freísta, hvurt oss þá ekki tækist að vinna hann í ljerept

handa oss, so vjer kjæmumst hjá, að kaupa þau til húin, og mætti með því hallinn rjettast nokkuð, sem vjer verðum firir, meðan ullin fer úr landinu eíns og hún er tekin af fjenaðinum, nema ef hún kann að vera þveígin, þó líka sumstaðar þikji af því bera; enn verslaninni er það líka að kjenna, að ullin er ekki betur vönduð, þar sem jafnt er gjefið firir hana, hvurnig sem hún er af hendi látin. Eínnig er verslaninni almennt gjefin sök á því, hvað sveítabúnaðinum hefir farið hnignandi *), er sjávaraflinn var jafnan hafður í firirrúmi, so að mannaflinn þirptist til fiskiveranna og verslunarstaðanna, enn sveítabílin lögðust í eíði. — Allir vita, hvurnig fór firir verksmiðjunum, sem á stofn voru settar í Reíkjavík, og hvurjir að því áttu mestan hlut; og tranðlega reíðir neínn firirtæki vel af, sem nokkuð kveður að, meðan kaupverslanin er í því horfi, sem hún er nú í. Þau strauda öll á sama skjerinu, meðan landið gjetur ekki sjálft nálgast þarfir sínar, og allt verður að sækja til útlendra kaupmanna.

Landið hefir ekki enn náð þeím þroska, að hvað eína, sem nokkurt manntak er í, sje ekki bundið þeím erviðleíkum og vankvæðum, sem ekki verður ifir stigið, þar sem fátæktin er á eínn veíginn, hinummeígin skortur eða óhægð með allt sem til þarf að taka, enn samneíti so lítið manna í milli, og handiðnamenn og borgara vantar og öll þau hlunnindi, sem stæði af kaupverslaninni, ef hún væri í þeírra höndum eínna, sem indi því að eíga hólfestu hjer í landi. Kaupverslanin afmarkar aflaútvegunna; þegar búið er að stuðla til þess, að menn teígist úr sveítinni að sjónum, er aptur sjávargaguinu spillt á margan hátt, eínkum með því, að fiskur verður ekki hertur, heldur er hann feínginn kaupmanninum hlautur, enn verkunin, sem hleípir so mikið fram verðinu

*) Sjá meðal annars Lærdómslistafjelagsrita VIII. bls. 134 og bls. 126—29 og víðar.

á fiskinum, geíngur undan útróðramönnunum, so húðsetumennirnir gjeti við haldist, sem valda landinu so margra meína, enn eru eínúngis vegna verslunarinnar til orðnir.

Kaupmenn búa so um, að þeír sitji firir öllu sem nokkur ábatavon er að. Landsmenn komast þá hvurgi að. Ef eínhvur innlendur vildi ráðast í annað eíns, mundi allt erviðar fara; honum irði first miklu kostnaðarsamari allir útvegir sem hafa þarf, meðan verið er að efna til þessa, þar sem hann annaðhvurt hliti að stofna gagngjört til þess ferð úr landi, eða eíga undir hvað honum irði úr, að fela slíkt öðrum á hendur, og tolla þó firir firirhöfnina; þá kjemur flutníngskostnaðurinn, sem eíga verður við kaupmanninn, og enn þarf optast að fá til mann, sem kann það er gjöra á, og gjetur veítt því forstöðu, og honum verður nú að borga ferðakostnað, fæði og laun, á meðan hann er í þjónustunni. Húsin sem konúngur hefur látið gjera hjer í landi, eru til marks um það, hvað hollt það muni vera firir þá, sem lítið hafa beín í hendi, að ráðast í það sem nokkuð kveður að, meðan sona er á statt, þar sem það, sem við firsta álit ekki virðist nema lítið handarvik, er fljótt væri til enda kljáð, teígist so í meðförunum, að það liggur við, að því leíngra verði til endans, sem leíngur hefir verið haldið áfram, og meíra er búið til að kosta. Enn takist það nú, að koma því af og í gáng, sem birjað var á, hefjast önnur vandræðin, þegar fara á að hafa gánginn á því, og nota það so arður verði að; riði það í bága við eínhvurn hag kaupmanna, mun því trautt lángrar æfi auðið verða. Menn gjeta ekki búið sig so út að öllu, sem á kann að þurfa að halda, að ekki vanti öðruhvurju hitt eða þetta; kaupmenn gjeta þá ekki úr því ráðið, þegar mest á liggur, so að gánguriun fer af, eða ef þeír gjeta það, hugsast þeím að hafa hag, þegar færi gjefur, og gjöra mönnum annaðhvurt kaupin so dír, að varla er aðgeíngilegt, eða látnir eru filgja eínhvurjir þeír afarkostir,

sem mönnum hættir til að gjöra þeím, sem annaðhvurt eru komnir upp á þá, eða orðnir eru þeím skuldugir, so sem: að þeír sjeu látnir sitja firir aflaunm, fái hlut í ávinníngnum og annað því líkt. Öll þessi atvik hera þá að liktum ávögstinu ofurliða, ef nokkur var, so að firirtækið hlítur að kollvarpast. Það mætti virðast, kaupmenn ætti miklar þakkir að oss firir það þeír hafa komið á þiljubátaveíðunum hjá oss á seínni árum, og væri það að vísu so, ef ávinníngurinn rinni inn hjá oss; enn hjer er öðru máli að gjegna. Innlendir eíga enn ekki víða hlut í þeím, þegar vel er skoðað; kaupmenn hafa, eíns og enn er komið, ráð ifir þeím flestum, og hjá þeím rennur inn hagurinn, meðan so fer að; koma þær á meðan landinu að litlu haldi, og eru því til ímislegs óhagnaðar. Hafa því sumir menn, sem mark er að, verið mótfallnir þessum bátaútvegum, er þeír, til að gjeta, hafa helst litið á ávögstu þeírra, sem enn eru sjenir, meðan kaupmenn halda á þeím eínir; enn annað irði á blaðinu, ef landsmenn ætti þá, og kjæmi þeim út, eíns og róðraskipum sínum, á hvurri vertíð. Þiljubátarnir þurfa þess við eíns og kaupverslanin, að innlendir taki að sjer stjórnina, þá munu hvurttveggja komast í það horf, sem landinu er hagaulegt. Enn erviðir verða innlendum þiljubátaútvegirnir, sem annað, enn þá. Þess er óvíða kostur hjer á landi, að biggja þá; því meðan ekki fæst víða í verslunarstöðunum árarefni til róðrabáts, þó aldreí so mikið liggi við, mundi ervitt að fá hjer allt sem til þess þirfti, að koma upp þiljubát, so hann irði sjófær, og er þá sá eínn vegurinn til, að fá kaupmenn til að kaupa þá í Norveígi og koma þeím út híngað, og mundi það verða ærið útdráttarsamt um það lokið er. Enn þó þetta sje af, er ekki öllu lokið, þegar á að fara að koma þeím út hjerna. Ef mikil ávinníngs von er að útgjerðinni, eru kaupmenn, sem von er, komnir þar á undan, og halda úti so mörgum þiljubátum, sem þeír

gjeta út komið; eru þá hvurjir öðrum til baga og órímis, þeír og landsmenn, er hvurutveggji þurfa að sæta lagi að ná í fólkið. Verða kaupmenn jafnan hlutskarpari, er so margir þurfa að eíga við þá skipti, og eru þeír látnir sitja firir bestu mönnunum, enn hinir verða á hakanum, so þeím heppnast verr; enda eru þeír í so mörgu komnir upp á kaupmenn, þar sem kaupmenn eíga lítið undir hvurjum hinna.

Sona verða fastakaupmenn, sem hafa bú sitt utanlands, með margvíslegum hætti til hnekkis búnaði og bjargræðisútvegum landsins, vinnubrögðum og atorku til lands og sjávar, af því þeír verða að draga annan taum, til að gjeta stundað sinn hag; enn eíns eru þeír bagaleígir borgurum og handiðnamönnum og því, að verslunarstaðirnir komist í það horf, sem þeír eíga í að komast, og þeír væri komnir í, ef að kaupverslanin hefði hjeðan upptök sín. Það varð seínast sumarið 1838 raunin á því í Reikjavík, hvað handiðnamennirnir eíga ervitt uppdráttar, er þar vantaði járnið, steínkolin og timbrið. Viðlíka voru borgararnir farnir, er flestir þeírra voru tómhendir af öllu; því þó þeím sje gjefin sök á því, að þeír hafi ekki verið nógu framsínir til að sjá sjer firir aðflutníngum, og eíga vísa híngað lausakaupmenn, sem líf þeírra er undir komið, þá er þó líka á hitt að líta, að ervitt var að giska á að óreíndu, að so mundi fara verslanin, eíns og síðan bar raun á; enda verður ekki búið so um hjer í landi, að ekki gjeti haggast utanlands, meðan þeír eru þar öðrummeígin, sem hagur er að því, að lausakaupmenn komi híngað sem fæstir, og borgarar hafi sem minst í höndum; og kaupstaðir hjer á landi, sem eru so afskjekktir og hafa so lítið samneíti við aðrar þjóðir, enn þurfa þó so margs með úr öðrum löndum, gjeta trauðlega bjargast og enn síður náð þroska, nema því að eíns, að þeír eígi ekki allt undir öðrum, og gjeti sjálfir haft nokkra viðburði, til að ná því að sjer,

sem þeír við þurfa. Enn ekki mun föstu kaupverslaninni vera áráungur að slíku, og þess vegna verður hún að leggja út allar árar til að aptra því. Fastakaupmenn og borgarar ríða þannig í bága hvurjir við aðra. Fastakaupmönnum er ekki viðværilegt, þegar borgararnir eru húnir að ná sjer fótfestu og so er um búið, að ekki vanti þá aðflutníngana. Það mætti telja bísna mörg dæmi þess, hvursu fasta kaupverslanin leggur út allar árar til að steípa borgurunum — hvað leíngi þeír hafa, til að minda, borið sig með orði og verki að tálma ferðum lausakaupmanna híngað, og er þá sjeð, að borgurunum gjetur ekki verið líft, meðan þeír eíga eíngi skip sjálfir.

Sona verður fasta kaupverslanin líka, eptir eðli sínu, óvinveitt því, að kaupstaðirnir rjetti við, að því slepptu, sem það vantar allt, sem kaupstöðunum er til stirktar og prídi, meðan allir kaupmennirnir og skipin eru utanlands, so þó híngað komi fjöldi skipa á ári hvurju, hefir enn varla verið lögð so mikil rækt við landið, að tekið hafi verið hendi til að búa hjer til vetrarlegu handa skipi, eða uppsátur.

Mörgum mætti um allt þetta fleirum orðum fara, og eru hjer að eíns til færð fáeín dæmi til marks um það, að fasta kaupverslanin sje oss ekki ómissanleg, og að vallt sje undir því eða eíga, að hún bæti úr öllum þörfum vorum, nje heldur sje hún vinveitt efnum vorum, búnaði, handiðnum, aflabrögðum, og hinni innlendu kaupverslan, að jeg sleppi þjóðerni voru og máli, sem oss verður að taka sárast til. Alla þá annmarka, sem hjer hefir verið vikið á, leíðir af eðli kaupverslunarinnar, og ef ekki briddir á þeím, er því jafnan um að kjenna, að hún vegna eínhvurra kríngumstæðna gjetur ekki notið sín algjörlega, eða leitt í ljós þá ávögstu, sem hún hefir í sjer fólgna. Enn áður enn eg vík frá þessu máli, bæti eg hjer við eínni athugasemd, er sínir með enn öðrum hætti, hveð meínleg þessi kaupverslan sje

framtaksemi vorri; því þó að ekkjert bristi á það, sem til verður ætlast af þessarri kaupverslan eptir eðli hennar og ákvörðun — þó hún væri so góð, sem henni nokkurn tíma er unnt að vera, rjeði úr öllum þörfum vorum og legði oss allt í hendur, sem vjer þurfum, og með þeím kjörum, sem vjer værum vel af sæmdir, — þá kjæmi hún þó allt af því illu til leíðar, að vjer kjæmumst aldreí sjálfir til menníngar; vjer eíddum tímanum í deíf'ð og aðgjörðaleísi, rjeðumst í ekkjert sjálfir, værum allt af börn, og ljetum aðra hugsa, tala og vinna firir oss, nitum annarra erviðis og atorku, enn værum þá líka allt af annarra undirlægjur. Því að eíns ber jörðin ekki ávögstinn sjálfkrafa, að manninum mun vera ætlað að hafa firir því, að afla hans; manninum irði lítilla framfara auðið, ef ekki væri neíðin allt af að reka á eptir; og einginn sem farinn er að hugsa nokkuð, gjetur því óskað eptir því, að þurfa ekki að reína neitt á sig, ef af því leíðir, að honum fer ekkjert fram; honum þikir til vinnanda, að kaupa framförina með firirhöfn, og láta neíðina reka á eptir sjer, ef hann kjemur sjer ekki áfram annars kostar. Það kjemur aungum vel, þegar allt er vel athugað, að þeím sje gjört ofhægt firir; og ef Íslendíngum hefði aldreí verið komið á, að fá heím til sín þarfir sínar, án þess þeir hefðist sjálfir neítt að, mundi neíðin hafa kjennt þeím og knúð þá til, að halda áfram siglíngum til annarra landa, eíns og hún hafði kjennt þeím að birja á þeím — og ef hætt væri að flitja þeím nauðsinjar sínar, mundi þeím skjótt lærast aptur, að fara so með ráð sitt, eíns og þeír fóru með það, þegar eíns stóð á firir þeím á umliðnu öldunum, og þeír tækji það í ávinning firir firirhöfn sína, að þeír jikist so að efunum og kunnáttu, að þeír irði brátt sjálfbjarga og stæði að sínu leiti ekki á baki annarra.

Búast má nú við, mörgum virðist hinni föstu kaupverslun vera hjer niðrað um of, þar sem sumt sem henni er talið til ógildis, sje því að kjenna, að vjer kunnum ekki að brúka hana — sumt aptur sjeu annmarkar, sem loði við alla kaupverslun. Enn hafi menn nú ekki tök á, að brúka so einhvurn hlut, hvað góður sem hann vera kinni, að þeím sje skaðlaust, þá er auðsjeð, að slikir hlutir eru þeím ekki hentugir; enda er þá eína ráðið, að hafna þeím algjörlega, þegar fullsjeð er, að so er ervitt með að fara, að meíra muni jafnan íllt af standa, heldur enn gott. Enn þó að margt, sem hjer hefir verið fundið að hinni föstu kaupverslan, loði við alla kaupverslan, eíns og, til að minda, að þeír sem versla, verði að líta á hag sinn eíns og aðrir, sem ekki er tiltökumál, þá er á það að líta, að það verður einmitt til ófarnaður landi voru, þar sem hin fasta kaupverslan á hlut að, af því hún er útlend, sem ekki væri það, eða að minsta kosti ekki eíns, ef verslanin væri innlend. Það sem til að minda bændurnir reíta af sjer, til að gjeta keipt óþarfann, eflir kaupverslanina, og er minni óhagur, ef kaupverslanin er innlend; því það kann að renna inn hjá þeím, sem betur kann með að fara, og bera því meíri ávögst eptir á; það er þá eíns og hvur önnur viðskipti landsmanna á milli, þar sem annar skiptir sjer í hag, hinn í óhag, enn allt tollir þó í landinu. Enn þá verður allt öðru máli að gjegna, þegar það, sem bóndinn tollar kaupmanninum, rennur út úr landinu jafnóðum, og þar eru ekki eptir nema skuldir, skortur og örbirgð, so ekki verður ráðist í neítt. Sona verður það margt að illu, þar sem útlenda kaupverslanin á hlut að, sem vel mætti við una, ef kaupverslanin værí innlend; enn auk þess eru so margir ókostirnir, sem útlendu kaupverslaninni eru samfara, sem innlenda kaupverslanin væri algjörlega laus við, og að framan er á vikið; og því hefir hún verið so hraparlega vanbrúkuð, að so ervitt er að brúka hana.

Það irði hjer of lángt mál að fara að telja upp alla þá kosti, sem innlend kaupverslan hefir fram ifir útlenda. Þegar búið er að lísa annmörkum hinnar útlendu föstu verslunar og draga þá frá, væri hitt ekki annað enn að lísa kostum kaupverslunarinnar firir hvurt land sem er, þar sem hún fer fram eíns og vera á, og landið er sjálft fært um að versla því til annarra þjóða, sem það hefir afgángs þörfum sínum, þegar búið er að bæta það so innanlands, að það taki sem mestu verði. Er sá firstur kosturinn, að kaupverslanin irði þá lögnð eptir landsins högum; innlendu kaupmennirnir þirfti ekki að láta knúgast til að auka verslun sína meír enn góðu hófi gjegndi, sem hinir komast ekki hjá annað veífið. Þeír væri hjer jafnan, vissi hvað landið þirfti í hvurt sinn, og hvað mikið það gjæti misst sjer að bagalausu, og þeím væri eíngium hagur í, nje heldur nauðsin á, að slægjast eptir meíra, eða þreíngja mönnum til að sökkva sjer í botnlausir skuldir firir tóman óþarfa. Innlenda kaupverslanin kjæmist aldreí í þau vandræði, sem gjörir útlendu kaupmönnunum með köflum verslunina á landi hjer so erviða, að, þegar mikil sigling er hjer til lands, verða þeir stundum að fara með hálf skipin heím til sín aptur. Innlendi kaupmaðurinn færi ekki á stað með skipið sitt, firr enn hann hefði nóg til að láta í það, og honum lægi ekki á að flíta sjer, þar sem hann ætti að fara að heíman, og gjæti í makindum gjört skipið sitt út til fiskiveíða sumar og vetur, þegar hann hefði ekki feíngið nógar vörur að fara með, eða hann gjæti komið vöru sinni í skip hjá öðrum. Ef verslunin er innlend, er og ekki eíns hætt við eínvaldsverslun; því kaupmönnum er ærnum mun erviðara, þegar þeír væri hjer, að fækka híngað skipaferðum frá öðrum löndum, og að ná saman og koma sjer saman um, hvur kaup gjöra skuli landsmönnum — enn það er firir þá, sem eru búfastir í Danmörku, að hittast í kaupstofunni í Kaupmannahöfn;

enda legði þeír minna í sölurnar, þirfti minna sjer til viðurværis, og ætti minna í hættu, hvurnig sem fara kinni. Enn þó mönnum irði eíns firir því öðru hvurju gjörð ímisleg neíðarkaup, og margvíslegu mángi irði við komið, lendi þó allt í landinu, og kaupmenn öðlaðist því meíri krapt til að draga inn í landið það sem það þarfnast, þar sem nú dregst allt út úr því. Kaupstaðarskuldirnar irði þá ekki eíns til niðurdreps allri landsins farsæld. Allir lifernishættir irði samboðnir eðli land ins og kröptum, og þá irði kaupverslanin first landinu að þeím notum, sem vera á.

Eíns irði innlenda kaupverslanin holl öllum bjargræðisvegum vorum og handiðunum. Þegar kaupmenn vorir ætti nægast að sitja að því, sem í landinu aflast, og eínn gjæti ekki orðið öðrum til eíns mikilla óhægginda — þar sem minst irði komið undir kauptíðinni eínni, og meíra undir því, hvur fremstur er að aðdráttum og framkvæmd, þegar til leíngdar leíkur við — þá verður þeím það hagurinn mestur, að hjer aflist sem mest, og að það verði sem útgeíngilegast og taki sem mestu verði; og þeír gjeta í tómi leítað til þess allra bragða. Með því móti hafa sölumenn kaupmanna ætíð orðið drjúgastir og geíngið best fram í því, að efla margskonar nitsamleg aflabrögð, er vit þeírra, kraptar og framkvæmd er meíra enn vort, og ef þeír irði ekki jafnframt að draga taum útlendu kaupverslunarinnar, og væri optast stokknir hjeðan með öllum aflanum firr enn við er litið, hefði margir þeírra verið landinu þörfustu menn — eíns og dæmi eru til um nokkra innlenda sölumenn eða aðra þá, sem orðnir eru so elskir að oss, að þá físir ekki burt hjeðan, er sumir eru búnir að vera hjer leíngi, gagnleígir mörgum. Hafa þessir menn, ef til vill, verið besti ávögsturinn, sem vjer höfum haft af kaupverslaninni; enn þetta er þá og líka áþreífanlegt dæmi þess, hvað hún gjæti verið landi voru, ef hún væri hjer við

loðandi. Enn eíns og innlenda kaupverslanin hliti sjálfkrafa að efla allskonar aflabrögð og handiðnir, og þá gjæfi á að líta, hvað hjer mætti afla, þegar kröptum landsins væri til þess varið, so er og auðskilið, að hún efldi hjá oss alls háttar framtakssemi, þar sem á slíku þirfti að halda, þegar vjer hlitum að fara að eíga allt undir atorku sjálfra vor. Þá irði first kaupstöðum vorum viðrjettíngar auðið, og vjer færum að gjeta sagt af þeím líferníshráttum, framfara auka, mentun, hægð og ánægjum, sem vjer höfum híngað til orðið að fara á mis við, til so mikils baga mentunar framförum vorum. Það irði að sjá einhvurja staðina, ef að allir þeir menn, sem fram fleíta lífinu á hinni íslensku kaupverslun, öll þau skip, sem híngað koma á hvurju ári, allur sá mannafli og útbúnaður, sem þarf til að koma þeím út, ætti hjer heíma; þá feíngi og handiðnamanna stjettirnar hjer viðnám, er þeírra irði ekki leíngur án verið; verslunin margfaldaðist þá eíns og aflabrögðin.

Það má nærri gjeta, að oss bættist með slíku móti bjargræðisvegur handa ærið mörgum manni, so það irði ekki þegar að vandræðum, þó fólkinu fjölgaði nokkuð; enn landið, og einkum kaupstaðirnir, færi þá og að bera þess menjar, að fleíri væri orðnar hendurnar; því bæði þirfti að taka fleíri handarvik, sem kaupverslanin og líferníshættirnir þá með þirfti, og líka hefði menn þá nokkurn stirk í höndum til að kosta til þess, sem gjöra þirfti, að því ógleímdu, hvað mentun vorri og kunnáttu hliti að fara fram, þegar so margt fleira væri haft firir stafni, og á so miklu meira viti þirfti að halda, og færi væri aptur, eíns og í firndinni, á því að vitja annarra landa, og kinna sjer háttu annarra þjóða.

Ef að þessu öllu væri þannig í lag komið, væri landsins högum so miklu betur komið, og vjer værum so miklu bættari enn að undanförnu, að vjer ættum nógu happi að hrósa, þó ekki færi kaupverslanin að öðru

leíti batnandi, úr því sem nú er, eða þó ekki feíngist meíra af útlendum varníngi firir jafnmikið af hinum innlenda, heldur enn nú er kostur að fá. Enn þó ólærðir hvurki meígi dirfast að hnísast í, nje þeím muni gjefið að skilja, kaupverslunarinnar leíndardóma, þá virðast þó líkindi til, að sú verslunaraðferðin, sem minst leggur í sölurnar, gjæti gjefið best kaupin, og innlendir kaupmenn gjæti að þessu leíti gjört oss betri kaup, enn föstu kaupmennirnir útlendu; því þegar kaupmenn sæti hjer, er auðráðið, að þeír gjæti staðið í því öllu sjálfir, sem sölumenn þeírra nú hafa að gjegna, og allur ávinníngurinn, sem þeir hafa, rinni þá inn hjá sjálfum kaupmanninum; enn þá er nú á hitt að líta, hvurt það mundi þurfa að tolla eíns mikið erindrekanum, sem kaupmaðurinn irði að hafa, eptir það kaupmaðurinn er búinn að taka sjer hjer bólfestu, eíns og hann kostar til veru sinnar utanlands, ásamt allra þeírra, sem honum eru áhángandi, þegar hitt er af ráðið, að hafa þar aðsetur; enda kinni hjer að meíga koma ímsum sparnaði við, sem þar irði erviðara — að ógleímdum þeím stuðníngi, er verslanin gjæti haft af þeím bjargræðisútvegum, sem nú draga mörgum sölumanni so drjúgt, enn þá rínni inn hjá kaupmanninum. Enn það sem erindrekinn kinni að verða óhollari utanlands, heldur enn ef kaupmaðurinn verði þar fje sínu sjálfur, þá mundi það koma í líkum stað niður, þar sem kaupmaðurinn verður að hafa erindreka hvurt sem er, þá hjer ef ekki þar, ef hann nægir ekki sjálfur til að vera á báðum stöðunum. So gjetur verslanin að líkindum orðið kostnaðarminst, að sá, sem skip á í förum, fari með því sjálfur á sumrum, að minsta kosti öðru hvurju, og versli þá kaupeíri sínum, og kaupi það, sem hann þarf að hafa heím með sjer, eða að minsta kosti að mesta hlutanum, enn fari þá heímleiðis, þegar dregur undir haustið. Þetta er nú lausakaupverslanin, og firir þá sök gjeta lausakaupmenn gjefið betri kaup,

enn aðrir, og bjargast þó eíns vel. Enn álíka og þeír — sem hjer flitja á sumrum verslun sína úr öðrum löndum og leíta firir sjer, hvar best gángi að koma út kaupeíri sínum, enn hverfa heím til sín að hausti — eru lausakaupmenn hjer í landi, so væru og þeír, sem hjeðan færi með skipsfarma í líkum erindagjörðum, lausakaupmenn þar sem þeír kjæmi við utanlands. Þetta er eínfaldasta og náttúrlegasta verslunaraðferðin. Enn sje nú öðruvís með farið, eru tveír kostir, sá annar að hafa erindreka á hvurjum stað, þar sem skipið á við að koma, og að hann versli firir kaupmanninn, og kaupi að aptur þarfir hans móti þókunn, eíns og þeím semur um; sá er hinn, eíns og föstu kaupmennirnir gjöra, að hafa fastan fót á báðum helstu stöðum, sem verslunin eínkum er við riðin, enn hafa þar sem kaupmaðurinn gjetur ekki verið sjálfur, eða að minsta kosti ekki til jafnaðar, ekki að eins erindreka, heldur og þar á ofan hús og áhöld, stundum so að feíkna miklu verði nemur. Það hljóta eínhvurjar staklegar kríngumstæður að vera að því, ef þessi verslunaraðferðin á að gjeta farið jöfnum fetum með hinum tveímur, þar sem kaupmaðurinn leggur sem mest í sölurnar, og verður eínhvurstaðar að ná ávegsti þess fjár, sem í þessum húsum og áhöldum er fólgið, og hann verður til að kosta um fram hinar, og það verður að líkindum að kóma fram í því, að hann færi fram vörur sínar í samanburði við þá, sem minni hafa kostnaðinn. Menn kjinni hjer af vilja gjöra þá áliktun, að ef því væri þannig háttað, að innlendum mætti veíta hægar kaupverslanin hjer, mætti það og takast þeím, að steípa föstu verslaninni útlendínga; enn bæði eíga hinir utlendu hægra aðstöðu, eíns og nú stendur, þar sem þeír eru búnir að koma sjer firir, líka veitir þeím hægra — meðan hagur þeírra er undir slíku kominn — að erviða verslun hinna utanlands, nema þeír taki það ráð, að fara þángað líka. Enn föstu verslaninni mundi skjótt lokið,

ef ekki ætti hún firir slíkri náð að verða af löggjöfinni, sem nú á hún. Rauuin sínir og hjer í landi, að föstu kaupmönnunum stendur heígur af lausaverslnninni, og öll böndin sem lögð eru á kaupverslun vora, miða til þess að halda við föstu verslanini.

Það þikir aungum tiltökumál hjá oss, þó að sá, sem setur saman og fer að búa með litlum efnum, eígi ervitt uppdráttar. Hjer hagar ekki so til, að undir eíns verði mikið upp tekið; hjer þarf alstaðar erviðis og atorkusemi við — alstaðar nægjusemi og sparsemi, ef vel á að fara. Fátækt landsíns verður að skamta leíkinn; eptir henni verður að haga öllu sem menn ráðast í. Og þegar þessu er vikið til kaupverslunarinnar, væri það rannar eíngin furða, þó menn — sem birjuðu verslan með litlu, eða fórn úr bændastjettinni til að verða kaupmenn — ekki verði þegar flugríkir. Rannin hefir opt eígi að síður einmitt önnur á orðið; því þó einstöku kaupmönnum hafi viljað þau óhöpp til, að þeír kjæmist á knje, sem í öllum bjargræðisvegum og á meðal allra stjetta vill til nokkrum, sjálfrátt eður ósjálfrátt, þá hafa flestir þeír meðal innlendra, sem horið hafa áræði til að leggja út í að hefja kaupverslan í landi hjer, og taka að láni fje til þess — sem eínsætt er firir þá, sem aldir eru upp við íslensku fátæktina, þar sem so lítið fjenast — þó grætt so á versluninni, og safnað þeím eígum, að það rannar gjegnir allri furðu, þegar á það er litið, hvað öðrum græðist hjer lítið, og hvað litlar eru eígur þeírra, sem hjer í landi eru kallaðir hvað ríkastir. — Menn virði firir sjer þá Bjarna Sigurðarson og Gísla Símonarson — að jeg að eíns nefni þá sem dauðir eru, og sjeð er hvurnig skilist hafa við, þó eg ætli að nokkrir sem enn lifa, gjæti sannað þetta líka — og síni mjer, hvurt nokkrir hafa grætt annað eíns í Íslandi eíns og þessir menn, nema, ef til vill, þeírra líkar, aðrir kaupmenn. — Vel mætti og telja hjer til kaupstjóra Guðmund Scheving;

því þó hann ljeti nokkru minna eptir sig, enn þessir tveír, þá hefir hann hitt fram ifir flesta (ef ekki alla) aðra, sem mestu varðar, að hann hefir gjefið so mikils umvarðanda dæmi þess, að menn gjeti flutt kaupverslun á landi hjer, án þess að ílendast utanlands — að hann hefir gjört fleíri tilraunirnar, til að koma hjer í gáng innlendu verslaninni, enn ef til vill nokkur annar — rímkað bjargræðis útvegu vora — hjálpast við innlenda til skipa útgjörða sinna, kjennt þeím til þess, og látið þá sitja firir bjargræðinu, og sjeð með því móti fjölda manna firir atvinnu; enn það er kunnugt, hvað dírar slíkar tilraunir verða mörgum framan af, á meðan reínslan er ekki búin að kjenna í nokkurn tíma, hvað tiltækilegast sje og best gjefist; þessvegna eru þær og sá fjársjóður, þá er þær eru feíngnar, sem eínginn skildi lítilsvirða, því heldur sem öllum stendur til boða að stiðjast þar við. Þar að auki ber kunnugum mönnum saman um, að Flateí muni leíngst bera þess menjar, hvur maður þar hafi á haldið nú í nokkur ár; og er þá bæði von, að minna safnist, þegar ágóðanum er varið til mannadóms firirtækja, enda njóta þeír, sem á eptir koma, og landið ávagstanna, mann eptir mann, so að þaðan af þarf minna til að kosta; og er þá sjóður niður lagður í landinu, sem ber ávögstu þaðan af, og má það sona af eíns manns dæmi, sem og eínstöku dæmum annarra innlendra kaupmanna, ráða, hvað fljótt landinu irði auðið viðreístar, ef allir gjerði sjer það að skildu, að draga að því. Enn hafði kaupstjóri Scheving það fram ifir hina, að hann skildi hjer eptir allar eígur sínar, konu og börn, þó ekki irði honum sjálfum auðið að taka hjer hvíld eptir so þarflegar iðnir *).

---

*) Margt af því, sem hjer er sagt um Guðmund Scheving, á eínnig við um Ólaf riddara Thorlacíus, sem firrum var kaupmaður vestanlands.

Enn þó það reíndist so, sem að vísu ekki er, að innlendum kaupmönnum græddist litið á kaupverslaninni first um sinn, þegar þeír hafa lítið að birja með, og verja heldur gróðanum til að færa í lag kríngum sig — leíta fleíri bragða til að koma á níum bjargræðisvegum og hjálpa innbúum landsins með ímsu móti, þá er öðru máli að gjegna með útlendu kaupmennina, eða þá sem búsettir eru orðnir utanlands, sem þaðan af eru vanir að leíða allt þvílíkt hjá sjer optast nær. Líka verður sú raunin á, að varla nokkrum lausakaupmanni hafi fatlast, enn sumir þeírra færast með ári hvurju meíra í fáng; má þar af sjá, að þeim hafi heldur vagsið fiskur um hrigg, og er þetta því heldur eptirtektavert, þar sem þeír haga verslun sinni eíns og vera á, meðan landið þarf útlendra kaupmanna við, hvurt sem er, og föstu kaupmennirnir, sem sitja firir þeím á hvurjum stað, ríða illa í bága við þá mörgu sinni. Margir kaupmenn hafa staðið í bestu skilum ár eptir ár, síðan þeír hófu hjer verslan, og fest fót sinn með ári hvurju víðar og víðar, enda þó fleíri kaupmenn irði um verslunina á sömu stöðunum, bæði lausir og fastir; og lítur so út, að ekki standi slíkir kaupmenn á so völtum fótum, þó látið sje illa ifir íslensku kaupverslaninni.

Það er og kunnugt af verslunarsögu vorri, að það hefir ekki verið ábatalaust að fara híngað kaupferðir. Enskir og Þískir, sem áttu híngað ferðir á 15. og 16. öld, guldu jafnan tolla eptir versluninni. Hamborgarmenn ljetu ekki látum að fá verslunina aptur, eptir það hún var geíngin undan þeím 1602, og buðu Kristjáni konúngi fjórða 500,000 dala*), til þess hann sleppti við þá landinu, og runnu á hann tvær grímur, þó það færist firir. Verslunarfjelögin tolluðu konúnginum firir eínkaleífið að versla, með sínum hætti í hvurt sinn, eíns og um var

*) *Handels Magazin f. Isl.* I, 218.

samið. Undir lok 17. aldar finnst þess gjetið, að konúngstekjurnar af landi hjer hafi verið eitt árið 50,000 dalir*), þegar allt var saman komið: eptirgjald eptir kaupverslan, eptirgjald konúngsjarðanna og síslugjöldin. Framan af 18. öldinni var í nærfelt 30 ár, 1706—1733, goldið eptir kaupverslanina 20,000 dalir á ári og stundum liðuglega**), þá aptur næstu 10 ár 8000 dalir, og enn árin 1744—1758 16,000, meðan hörmángararnir hölfðu verslanina, sællar minníngar. Þá tók konúngur við verslaninni næstu árin. Seínasta verslunarfjelagið galt eptir 7000 dali. Má af þessu ráða, að ekki hefir kaupverslanin þá verið arðlaus hjer á landi, er nógir urðu til að bjóða í hana, og höfðu nógan ábatann samt, þó sona mikið irði að gjalda eptir; því þó menn vildi seígja, að þá hafi ekki verið boðið slíkt geíp við íslenska varníngunum, eíns og nú, þá er bæði það, að kaupin á summum nauðsinjavarníngi voru betri, enn kaupmenn gjöra oss, að minsta kosti stundum, so sem til að minda á hvurutveggju því, sem oss varðar mestu, timbrinu og korninu, eíns og sjá má af kaupverðsskránum frá árunum 1702 og 1776, enda er ósjeð, hvurnig kaup og sala hefir gjörst utanlands. Í 21 ár, undir það kaupverslanin var látin laus, 1764—1784, hafði firir allar þær vörur, sem fluttust hjeðan, feíngist utanlands 4,665,000 dala, enn allar þær vörur, sem hafðar voru út híngað á sama tíma, höfðu verið að keíptar utanlands með 2,560,000 dala, og þegar við það var bætt 840,710 dala flutníngskostnaði og skipa ábirgð *(Fragt og Assurance)*, og þar að auki 10 af hvurju hundraði firir kaupverslunarkostnaðinn — þar á meðal teljast eínkum laun allra þeírra, sem að versluninni stóðu***), og annað þvílíkt — skildi þó verða um fram

*) *Islands Opkomst*, bls. 106.

**) Samastaðar og *O. Stephensen om d. isl. Handelsförelse*, bls. 18. Eptirmæli 18. aldar, bls. 560.

***) Ávinníngur allra sölumannanna er þá hjer ekki með talinn;

meíra enn eín milíón í 21 ár (það er so sem 50,000 dalu á ári, eða 80,000 dala eptir peníngaverði nú), sem tekið var í ávögst af því fje, sem í versluninni var fólgið, eða 27 af hvurjum 100 *).

Þegar verslanin var látin laus, var það sem henni til heírði, af húsum og innstæðu, metið firir . . . . . 105,611 dali
og vöru eptirstöðvar . . . . . . 215,425 —

alls 321,036 dali**).

Þó eg gjeri, að þetta drægist nú að því, að vera hálfu meíra, eða, eptir peníngamati sem nú tíðkast, so sem 1,000,000 dala***), þirfti þó ekki nema 12 eður

enn að hana hafi verið ekki alllítill, og að þeím hafi verið kunnugt, að menn mundi gjeta orðið skaðlausir af verslun hjer, má meðal annars ráða af því, hvað margir þeírra varu færir um og fúsir á, að birja sjálfir verslun, þegar kóngsverslaninni lauk.

*) *Forordning ang. d. isl. Handel og Skf.*, bls. 138—39. Eg vil gjeta þess hjer, ef það skildi reínast sannleíknum nær, þó eg ekki þori að trúa til þess sjálfum mjer, að þeím hafi so stórlega ifir sjest, er sömdu reíkníng þenna — þar sem hann er gjefinn út að opinberri tilhlutan, þeím til leíðarvísis, sem kinni ætla að birja verslun hjer, þegar kaupverslanin var laus látin, — að gleímst hafi, að bæta við að keíptu vörurnar 416,893 dölum, eður taka til greína allan flutníngskostnaðinn og skipa ábirgðina firstu tíu árin, þar sem þeír 840,710 dalir, sem í þessu skini er við bætt, virðast einúngis vera flutníngskostnaður og skipa ábirgð seínni 11 árin, 1774—1784, eíns og sjá má af töflunni, sem stendur firir neðan á sömu blaðsíðunni; enn af því ætti að leíða, að þegar það geíngi frá ágóðanum, irði af rúmri milíón ekki eptir fullir 600,000 dalir, so að hann mínkaði nærri því að helmíngi.

**) Samastaðar, bls. 198. *O. Stephensen, isl. Handelsf.*, bls. 43.

***) Ef af hvurjum 100 væri enn þá teknir 27 í ávinníng, eíns og til var talið (að því sem áður er sagt) árin undir það kaupverslanin var látin laus, ætti af 1,000,000 dala ávinníngurinn á ári að vera 270,000 dala, sem kaupmenn hefði

13 ár til þess að öll verslunaráhöldin, sem eru í landi hjer, bæði hús og varníngur, væri orðið eígn landsins, ef slíkur ágóði verslunarinnar rinni inni það. Má af þessu ráða, að ekki væri landinu leíngi að vagsa fiskur um hrigg, þegar kaupverslanin geíngi vel, ef það feíngi að njóta þess, er það aflar, og mætti þó enn sjá þetta betur, ef betur væri haldið á því, sem það hefir nú, eíns og síðar skal sínt verða *).

Enn þó menn nú bæði láti sjer skiljast, hvað óholl fasta verslanin sje landinu, og hvað fljótt það gæti aukist so að efnum, að það gæti birjað á að eíga og fara með verslun sína, ef ágóði verslunarinnar rinni inn í það, — og þó geíngið verði úr skugga um, að þá muni allt betur fara: þá er nú vant að vera annað að vilja og girnast, og annað að gjeta framkvæmt og komið því í verk, sem menn sjá að þeím hagar; og kjemur það firir lítið, að sína mönnum annmarkana á því sem er, og

eíns við að stiðjast, eptir það allur annar kostnaður er frá geínginu; og þó hann irði margfalt minni (sem því heldur kinni meíga búast við, sem fleíri eru um verslunina og kaupin gjörast betri innlendum), ágóðinn, sem, að öllum kostnaði frá geíngnum, rinni þar inn í landið, sem kaupverslanin er, verður það ekki metið sem Ísland fer á mis við, meðan hún er utanlands, auk þess sem mesti hlutinn af hinum ágóðanum eiddist þá hjer, eða væri hjer brúkaður að mestu leíti; að þessu leíti er það og, að Danmörk, enda þó tollurinn hafi enn verið upp gjefinn, hefir nú eínnig þann ávinníng af Íslandi, sem ríflega mundi jafnast við það, sem galdið var eptir verslunina á næstliðinni öld, þegar það komst sem hæst, og að Ísland mun ekki, þegar allt er vel skoðað, Danmörku til so mikilla þíngsla, sem almennt er ætlað.

*) Irði hjer að auki sú raun á, að verslun sú, sem hjer tíðkast nú, verði kaupmönnum andstreímislegri með ári hvurju, er það enn röksemd, sem mælir með því, að láta af henni og koma á verslunarefnin eínhvurri annarri lögun.

koma inn hjá þeím óánægju með það, ef ekki er vinníngur að koma því í betra horf, og so að menn sjeu bættari. Enn það er nú heppnin meíri, að hjer er vegurinn ekki nærri eíns lángur, eíns og víða annarstaðar, frá því sem menn sjá að vera á til þess að því verði í verk komið, eða frá óskinni til þess að hún gjeti rættst. Verslunarannmarka vorra skildi hjer aldreí hafa minnst verið, ef eg væri ekki sannfærður um, að nokkuð af þeím stæði af mönnunum og þeírri meðferð, sem hjá oss hefir verið höfð á þessum efnum.

Þegar vjer Íslendingar rennum augum til, hvursu að verslan feðra vorra hófst og blómgaðist eíns og grasið á jörðunni, rjett so að kalla án þess menn væri vitandi um það, og að á meðan varð ekki vart við neínar þær hættur, neína þá meínbugi, sem menn síðan — jeg veít ekki hvurs vegna — hafa jafnan verið að kvíða firir og allt af að reísa skorður við, þó aldreí síðan hafi orðið við spirnt að fullu: má oss furða, að verslunin skuli, firir umfjatlan manna, hafa komist í það horf, sem nú er hún í, og hvursu menn gjeta haft það álit á þessum efnum, sem nú-er almennt. Það er orðið rótgróið í hugum manna (*fix Idee*) hjer í landi, mann eptir mann að kalla, að landið eígi allt líf sitt undir flutníngunum frá öðrum löndum, og það gjeti ekki átt þess vísar vonir, að það bresti ekki, nema með hinni föstu kaupverslan, og að þaðan eígi innlenda verslanin að spretta. Verslunarfrelsi vort hefir á seínustu öldum leíngst af ekki verið nema eínber hugarburður, og þetta er nú leíndardómurinn, sem því hefur ollað, að landinn hefir ekki tekjist að eíga hlut í verslan sinni. Meðan löggjöfin miðar öll til þess, að halda við föstu kaupverslaninni, er hún innlendu kaupverslaninni til öptrunar, þar eð hvur þeírra spirnir við annarri, og þeím verður ekki saman komið. Jeg skil ekki í, hvurnig menn hafa komist á þá trú, að hjer þirfti að leita annarra bragða við, enn annar-

staðar, og að Ísland væri verr farið með verslunarfrelsi, og ætti meíra undir verslan, enn önnur lönd, þar sem einmitt liggur í augum uppi, að þessu muni heldur vera gagnstætt háttað; því afskjekktara sem eitthvurt land er, því síður gjetur það átt líf sitt undir útlendri verslan; það gjetur því síður átt líf sitt undir öðrum löndum, sem erviðara er að ná til þeirra.

Þeír, sem tóku saman firir Ísland bænarskrána til konúngsins undir aldamótin, höfðu rjett að mæla, að beíðast meíra verslunarfrelsis, er þeír færðu til, að útlenda verslanin væri ófrjáls, að hún gæti ekki bætt úr landsins þörfum, og væri ekki holl firir velgeíngni þess, og þessi lísíng loðir við hana að sumu leíti so leíngi, sem hún er til, eíns og þessi bænarskrá og allt sem þar út af spannst af hálfu Íslendinga, verður að tilefninu og efninu til — sem hún er sprottin af: afskiptasemi um almenníngs hagi og ljósri þekkíngu á nauðsinjum ættjarðar vorrar og aumörkum hinnar föstu verslunar — eítthvurt eptirtektaverðasta rit, sem skráð er Íslandi viðvíkjandi, og er allt það mál firir dómi sögu vorrar þeím til miklu meíri virðingar, sem að því voru upphafsmenn, enn sumpruruar, sem fljótræðisfrágángurinn hlaut að baka þeím, eru þeím til hneísu. Þeím, sem seínna rita um þetta, þegar búið er að velta því firir sjer á fleíri vega, mun takast að leíða það betur í ljós, hvurt nokkurn tíma gjeti tekist þessu landi, að fara sjálft með verslun sína, með þeím verslunarlögum, sem hjer voru í gildi frá 1792 þar til 1816. Helsta frjálsræðið, sem með tilskipaninni um hina íslensku kaupverslun og skipaferðir var veítt innlendum, eður gat komið þeím að haldi, var í því fólgið, að tilskipan þessi lagði eíngin bönd á kaupverslun innanlands, og gjörði verslunarmönnum kost á, að taka sjer bólfestu, hvar sem þeím litist. Og hinir góðu ávegstir þessa frelsis komu þegar í ljós; einstöku bændur gjörðust þá

borgarar, er þeír þurftu ekki firir það að bregða búi sínu, og ágóðinn nam staðar í landinu, og flutníngar, sem landsmönnum verða so tafsíngssamir, urðu þeím hægir; kaupverslanin varð jafnari um landið, gagnlegum borgurum fjölgaði. Þetta frelsi var annar aðalmáttarstólpinn undir verslan feðra vorra; og þó að vísu böndin væri óþirmileg, sem lögð voru á hina útlendu kaupverslan vora, þar sem verslunarmönnum Íslands var firirmunað, að eíga nokkur kaup við aðra enn Dani, nema þeír væri í samhandi við eitthvurt verslunarfjelag í Danmörku, og vörur þeírra urðu first að gjera sjer krók þángað, — er olli því aptur, að kaupverslanin hlaut að dragast burt úr landinu og til Danmerkur, og hjerlendum kaupmönnum erviðuðust so útvegurnar, að þeír gátu ekki átt viðnám í landinu, og máttu ekki sæta því laginu sem best kunni að verða, eða þeím kaupunum sem mestur væri ábatinn að, — þá hefði þó eigi að síður verslan loðað hjer við, ef þetta frelsi á innlendu verslaninni hefði haldist, þar sem Íslendíngum enn var innan handar að koma so ár sinni firir borð, að þeír ætti vísa híngað lausakaupmenn. Enn það hjelst ekki nema 4 ár. Kaupmenn risu þá upp *). Auglísíngin af 1. júní 1792 kom í ljós og önnur af 23. apríl 1793, og þaðan af skildu allir, sem verslun vildu hafa í landi hjer, skildir að taka sjer bólfestu í verslunarstöðunum, er ánafnaðir voru eíns og síðan hefir haldist. Borgurunum fækkaði undir eíns og þessi boðorð voru út gjefin, og innlendri verslan verður trautt komið á, meðan ekki er rímkað um þetta. Þegar so var komið, að öll verslan í landi hjer var bundin við fáeína staði, þar sem enda var erviðast að komast af, þegar þó lifa varð nægast af því, sem landinu er til gjæða, og menn gátu ekki sjálfir náð til sín úr Danmörku þörfum sínum, enn öll verslan, sem

*) *Islands alm. Ansögn.* bls. 11 - 12, sb. *Nödværge* bls. 21 og 76—77.

hafa þurfti við aðrar þjóðir, var bundin við lönd danakonúngs eínúngis — gjeta allir skilið, sem nokkurt skinbragð bera á þessa hluti, að verslanin irði að lenda í Danmörku, eins og raunin varð á, og Ísland irði gjörsamlega að fara á mis við ágóðann af henni. Að vísu var með tilskipaninni af 1816 kaupmönnum leíft að fara með kaupeíri sinn hjeðan hvurt til landa sem þeím litist, og þeím var ekki leíngur gjört að skildu að krækja first til Danmerkur eða taka þaðan allar nauðsinjar sínar, og aptur með opnu brjefi af 28. desember 1836 var afgjaldið sett niður liðuglega til helmínga af þeím vörum, sem farið er með hjeðan til annarra ríkja, og lausakaupmönnum gjört hægra firir að hafa hjer verslun, er þeír þirfti ekki framar að tefja sig á, að koma við í kaupstöðunum undir eíns og þeír kæmi við land, til að sína leíðarbrjef sín áður þeír tæki að versla; enn þó var í hvurttveggja þetta skipti sú ákvörðunin látin óhöggnuð, sem bagalegust var verslun landsmanna, að borgararnir mætti ekki vera annarstaðar enn í hinum ákveðnu verslunarstöðum, og, á meðan því fer fram, lendir allt í sama horfinu og verið hefir.

Jeg veít að vísu, að *Kyhn* og hans líkum hefir þótt verslan vor nógu frjáls *), þar sem ekki væri á henni meír enn þessi tvö böndin, að b o r g a r a r n i r  h l i t i  a ð  h a f a  a ð s e t u r  í  k a u p s t ö ð u m, og að  þ e i r  m æ t t i  e k k i  e í g a  k a u p  v i ð  ö n n u r  l ö n d  e n n  d a n a k o n ú n g s; og þeír telja það nauðsinlegt, kaupversluninni til stirktar, að öllum sje meínuð verslan, nema þeím, er hafi aðsetur í kaupstöðunum. Enn böndin þurfa raunar ekki so mörg, til þess menn gjeti ekki hreíft sig, ef þau eru ónotalega lögð á; og sá fer ekki laus, sem diggilega er bundinn á höndum og fótum. Enn einginn þarf að láta sig furða, þó föstu kaupmönnunum útlendu

*) *Nödværge* bls. 21, samanb. *Forsvar f. Isl. fornærmede Övrighed* bls. 33—34 og 95—97.

þikji verslunarfrjálsræði vort nógu mikið; því að líkindum væri þeír ekki betur farnir, þó það væri meíra, og ekki ætla eg að þræta við þá um það, hvurt verslan þeírra sje það til eflíngar að þreíngt sje að borgurunum; enn öðru máli verður að gjegna, ef grenslast er um, hvað drjúgast mundi draga til að flíta því, að landsmenn feíngi hlutdeíld í verslan sinni. Jeg er um ekkjert sannfærðari, enn að það þirfti að rímka betur um frjálsræðið, ef til þess væri mlðað, að koma versluninni í innlendra hendur, og að hvurnig sem rímkað væri um frjálsræðið, færi verslanin að færast í horfið. Jeg ætla í þetta sinn eínúngis að íminda mjer innlendu verslunina frjálsari, og að allt hitt stæði í stað, og jeg játa, að ef útlenda verslanin væri látin laus, kinni að meíga álíta margt af því, sem hjer greínir, síður nauðsinlegt. Jeg held allir verði að vera mjer samdóma í því, að eínkaráðið, til þess að koma versluninni í hendur innlendra, sje það að borgarastjettinni igsi fiskur um hrigg; þeír eru það, sem birja eíga á innlendu verslaninni; enn þeím vegs ekki fiskur um hrigg firr enn þeír gjeta farið jöfnum fetum með hinni föstu verslan. Það má telja so, að landsmenn, eíns og nú er, sjeu ekki annað enn bændur; og ætti verslanin að verða vor, er sá eínn til, úr því sem nú er, að eínstöku úrvals bændur, sem til vildi verða, gjæti orðið borgarar, að ekki þirfti til að birja verslun, nema bænda efni og bænda vit, og að so þessir borgarar gjæti so aukist smátt og smátt, að úr þeím irði innlendir kaupmenn. Reínslan er búin að sína það nægilega, að með þessu einu móti hefir innlenda kaupverslanin tekjist hjer, og það er hægt að sjá af röksemdum skinseminnar, hvursu slíkt leiðir af eðli landsins, og að verslan tekst hjer að so komnu ekki með öðru móti. Land vort þolir ekki, að mikil bönd sjeu lögð á bjargræðisveguna, eður þeír sjeu með laga firirmælum

aðgreíndir hvur frá öðrum. Náttúran hefir sett bjargræðisvegunum so rammar skorður í hvívetna, að frekari skorðum af mannanna hálfu er með öllu ofaukið. Allir, sem eíga að gjeta komist af hjer, verða að hafa stuðning af því sem fæst í landinu, eíns og hægast gjetur tekjist. Sveítabóndinn, sem hægast á uppdráttar, þar sem jörðin — sem síst er brigðlind — leggur honum í hendur það sem hann helst þarfnast, gjetur þó óvíða komist hjá, að drígja ágóðann búss síns með því að verja honum til þess að leíta sjer bjargræðis af sjónum; aptur sjávarbóndinn sjer sjer ekki líft, nema hann, að líku skapi, ifirgjefi hús og heímili og reíni til að ávinna sjer nokkuð í sveítinni til að bjargast við. Eíns fer handiðnamönnunum; varla mun nokkrum eínum hafa tekjist að komast so af á iðn sinni, að hann þirfti ekki með fram, og opt að mestu leíti, að hafa búnaðinn til sjóvar eða sveíta til að bæta úr því, sem hinn afli hans var ónógur. Þó þeír hafi komið sjer niður í kaupstöðunum first í stað, hafa þeír optast orðið að flía þaðan aptur, að stuttum tíma liðnum, og taka sjer jörð, heldur enn að eíga mikið undir handiðn sinni, hvað ótamur sem búskapurinn hefir verið orðinn þeím. Það kveður enda so ramt að, að flestallir embættismenn á landinu verða að hafa jarðir og búskap, af því að embættislaunin fæða þá ekki eínganngu, og sú hefir raunin á orðið, að enda þegar so á stóð, að þeím hefði best komið að taka sjer bólfestu í eínhvurjum kaupstað, varð þó að taka hinn kostinn, til þessa, að flía þaðan, álíkt og handiðnamennir, að minsta kosti so lángt burtu, að feíngin irði bærileg jörð, þar sem hafður irði nokkur fjenaður til framflutníngs heímilinu. Sona hafa umhverfis Reíkjavík verið gjörð höfðíngjasetur: Bessastaðir, Nes, Laugarnes og Viðeí með kostnaðarsömum steínhúsum, og er þó margt til feíngjar á nesjum þessum, og meíri hægð á að ná í sitt hvað til bjargar, enn víða annarstaðar; því þó kír sjeu þar fáar

og sauðfjenaður ekki sje hafður mikill við það sem mætti, þá er nauta eldi og kúa mikið firir austan heíðina, og hægð á að koma þar firir fóðrum, og í uppsveitunum nægð fjenaðar, enn flutníngarnir auðveldir af Akranesi og vestan af Mírum; sjórinn er þar auðugur af margskonar fiski; lagsveíði er þar einnig, eggver og fleíra slíkt. Enn þó fer hjer eíns og annarstaðar í landinu, að ávögsturinn hrökkur ekki til framfæris mönnum, ef þeír þirpa sjer saman; og eígi þeír að gjeta komist af, er sá einn til, að húa sem dreífast, so að hvur í sínu lagi gjeti haft drjúgan skika lands til ræktunar og ávagstar. Enn sama verður á blaðinu, þegar farið er að skoða verslun horgaranna hjer; henni er ætlað að alast nægast við það sem í landinu fæst; hjer á að vera allt afl hennar; hún er hundin á þá höndina sem út horfir, hún á þar ekki á vísan að róa, gjetur hvurki haft so mikið umleíkis, nje staðið á so stöðugu, að hún sje einfær til að hafa af firir þeím, sem hún á fram að færa, og hún gjetur þá að eíns haldið lífi, að **ekki þurfi menn að eíga allt undir henni**, og að hægurinn sje hjá að gjeta stuðst við einhvurjar afla útvegur landsins til að bæta við hana; enn það gjetur ekki tekjist, nema því að eíns, að borgararnir þirfti ekki að tvískipta sjer til þess að gjeta stundað hvurttveggja, og að þeím með tilteknum skilmálum væri frjálst að taka þar bólfestu sem þeím litist lífvænlegast. Af því mundi og það annað leíða, að aflabrögð og ávögstur landsins færi stórum vagsandi, þar sem slíkir menn, er meíra afl hafa, enn bændur, stæði betur að og hefði enda nauðsin á, að nota það til margra manndóms firirtækja, sem nú verður þeím so ervitt og útdráttarsamt, þar sem lángt verður til að seílast, og ekki verður hvurutveggju þjónað í einu, afla útveginum og versluninni. Væri borgurum með þessum hætti frjálst að velja bústaðl, gjæti þeír first farið jöfnum fetum með föstu kaupmönnunum, og

ágóðinn verslunarinnar færi að renna inn í landið. Þeír niti þá so mikilla hagsmuna af bjargræðis útvegnm hjer í landi, sem kjæmi til jafnaðar við það útrími og hægð, sem föstu kaupmennirnir njóta utanlands, og borgararnir nú verða að fara á mis við; þeír drægi lífsvökva sinn af innlendri rót, eíns og hinir af útlendri, og gjæti þá haft viðnám í landinu firir föstu verslaninni. Þar sem borgarinn kjæmist vel af í Þorlákshöfn, firir Eíasandi eða undir Dirhólaeí, flosnar hann upp í Reíkjavík. Eða hvurnig á borgarinn í sama kaupstaðnum, meðan sona stendur, að komast vel af við hliðina á sölumanninum? Af því borgarinn hefir færra undir hendi, gánga optast færri að honum; af landsnitjum hefir hann eíns lítið við að stiðjast eíns og hinn, enn það, sem sölumanninum dregur drjúgast, fer hann algjörlega á mis við. Sölumaðurinn er ekki annað enn sölumaður, tekjur hans eru optast ákveðnar firirfram; hann á lítið í hættu, hvursu verslanin fer — hann hefir lausar hendur að leíta allra bragða til að sitja firir vörunum, og hann hefir allt af nóg að lifa við, þar sem hann hefir so mikið undir hendi, og gjetur af verslaninni feíngið handa sjer hvað sem hann vill. Sona á sölumaðurinn miklu hægra aðstöðu, enn borgarinn, sem ekki nítur neínna þessarra hagsmuna. Enn kaupmaðurinn hefir útrímið utanlands, sem borgaranum er eíns firirmunað; verslan kaupmannsins er ekki nema að eínum hlutanum komin undir því, hvurnig hjer tekst til — hann á eíns mikið undir því, hvursu til talast utanlands, og, þegar hann kjemst í herkjur, er leíkvöllurinn þar so rúmur með að fá lánið og koma sjer við með ímsu móti, að hann gjetur margopt haldið áfram versluninni eíns og fullríkur, þó hann eígi minna enn ekki neítt, þángað til betur árar firir honum. Ef í þetta horf kjemst firir borgaranum — eíns og nú er á statt, meðan so miklir erviðleíkar eru á að stiðjast við annað bjargræði landsins — verður hjer

so fátt til úrræða, að hann verður þegar að hætta, rífa sig upp og taka jörð, eða ráðast í eítthvað annað, og enda þegar so tekst til, að einhvurjum kaupmanni hlekkist á, setst annar undir eíns í sætið hans og heldur líkum háttum og hinn, hvurt sem hann fer sömu leíðina, eða kjemst af slisalaust. Borgarinn er með þessu móti allt af undirlægja; sölumaðurinn hefir allt af beíuið í hendinni, meðan sona fer fram, hvurt sem húsbónda hans reíðir af vel eður illa.

Enn er með fleíra móti hægt að láta sannfærast um, hvað illa það á við eðli þessa lands, að verslaninni sje markaður bás í landinu, so að ekki meígi af bregða. Það er öllum kunnugt, sem ferðir hafa átt til Íslands, hvað ill höf vor eru ifirferðar, hvað veðuráttan er óstöðug og mikilfeíng, þegar so ber undir, og af því má aptur ráða, hvað bagalegt það sje firir þá sem híngað eíga leíð úr öðrum löndum, að ferð þeírra sje so eínsett firirfram, að ekki meígi víkja út úr götunni firir vindi og vatni, þegar so kann á að standa, að það henti betur, enn að þreíta eínmitt þángað, sem ferðinni var heitið í öndverðu — og að þá sje farin erindisleisa, ef ekki verður þángað komist, so þá sje gróðatíminn úti, eíns og sumarið er stutt hjerna, og mál að snúa aptur heím í leíð, þegar komið er í áfángastaðinn. Firir þessa sök höfðu forfeður vorir jafnan laust og bundið, og þeír tóku þar land, sem komið var, þegar ekki gaf að sigla leíngur, eða eítthvað varð til öptrunar, og fóru þegar að versla kaupeíri sínum, so að tíminn eiddist ekki til ónítis. Þannig tókst þeím að koma skipum sínum í víkur, fjörðu og ósa, að varðveíta þau so að vetrum skipti, og eíga þar kaupverslan, sem eíngum hefir til hugar komið að leggja skipi nú í manna minnum, og ekki heldur hefir það mátt, þó menn hefði viljað það. Þeír lögðu skipum í Kjerlíngardalsárós, Holtsós, Þjórsárós, Arnarbælisós, sem nú sínast mestu ófærur, auk þess sem lagaskorður

eru við settar. Enn bæði gjefur að skilja, að hætta gjeti af því staðið, er menn verða að þreíta til eínhvurs staðar, hvurnig sem viðrar, til þess að tefja ekki tímann ueínstaðar þar sem ekkjert verður að sjer haft, og að það horfi til mikillar hægðar, bæði firir farmenn og kaupmenn og líka firir landsmenn, að þar meígi alstaðar leggja að landi og eíga verslan, sem menn sjá sjer fært. Og ekki þarf annað til þess að koma því á, enn að mönnum leíföist það, og borgarar væri víðar firir, so að slíkum mönnum irði veíttar viðtökur, hvar sem þá bæri að landi. Það má því nærri gjeta, hvað mikinn erviðisauka af því hafi leítt firir verslanina, sem þá aptur kjemur fram við landsmenn, að lausakaupmönnum hefir, þar til síðasta breítingin var gjörð á löggjöfinni, verið meínað að eíga verslunarviðskipti við landsmenn, þángað til þeír væri búnir að koma við í eínhvurjum kaupstað; því af því gat hæglega leítt, að besta tækifærið væri um garð geíngið, þegar komið væri þángað, er mestur mundi hagurinn að láta firir berast. Að eg ekki minnist á þau dæmin, sem eru deíginum ljósari, að stundum verður ekki firir hafísnum komist á sumar hafnir firr enn lángt er komið sumars, þegar opt gjæti tekjist að koma af sjer vörnuum, ekki alllángt þaðan, ef borgarar lægi víðar firir, enn nú er; og mætti þá sækja aðra ferðina til — þá timbur til Norvegs, ef ekki annað — í stað þess að liggja um kirrt á eínhvurjum stað og bíða eptir að ísinn losni; væri þá og vænt, að þiljubátar væri til taks, sem fljótari eru í snúníngum og með minni áhættu, þar sem kunnugir eíga með að fara, til þess skotist irði á þeím eptir vörunum, so þeím irði jafnað niður milli borgaranna. Sveítirnar, þar sem lángt er til verslunarstaða, fara líka of mikils á mis, að loku sje skotið firir það, að verslan gjeti tekist firr enn búið er að hafa firir að fara so lángan veg, að dagleíðum skiptir, so að til þessa þurfi að hafa mikil áhöld og marga

hesta — og menn so tefjast að heíman, þegar hagalegast er, stundum án þess þeír fái á eptir það sem þeír þarfnast. Það er eínn með lökustu annmörkum hjer í landi, hvað ervitt er að ná til verslunarstaðanna, eíns og nú er á statt, og að til þess þarf að verja (að jeg sleppi öðrum kostnaði) eínmitt dírmætasta tíma ársins. Útlendu vörurnar væri miklu dírra kaupandi, ef ekki þirfti að hafa so mikið firir að nálgast þær, og ef varið irði til þess öðrum tíma.

Af þessu virðist mjer sjá meíga, að innlend verslan *) er hjer þá að eíns lögnð eptir eðli landsins, eptir högum landsmanna og þörfum sjálfrar verslunarinnar, eíns og nú er á statt, þegar borgaraverslunin er leíst úr þeím

---

*) Hvað útlendu verslunina snertir, þá irði hjer of lángt mál að ifirlíta öll þau óhægindi og allt það tjón, sem landið líður ár eptir ár af þeím böndum, er skammsíni mannanna hefir á hana lagt. Er það ekki t. a. m. árídandi mál firir landið, að Norðmenn vendi híngað komur sínar, fremur enn hjer til, og birgði oss að timbri? Enn það tekst því að eíns, að þessi verslun þeírra njóti þess frelsis á landi hjer, að hún gjeti orðið þeím ábatasamari, enn auðið verður, meðan hún er takmörknð eíns og nú er. — Það er og kunnugt, hvurnig saltkaupin gjörast í kaupstaðnum, þar sem þeir, er saltið taka, annaðhvurt eru bundnir við borð, að fá þeím fiskinn, er þeír taka saltið hjá, eða saltið er gjört so dírt, ef það er látið falt, að margir taka þann kostinn, er síst skildi, að leggja fiskinn inn blautan. Eínn með merkustu kaupmönnum Íslands hefir sagt, ef Spánverjum væri látið frjálst, að flitja salt til Íslands, afgjaldslaust, og kaupa þar aptur saltfisk í skip sín, að þá mundi landsmenn í kríngum Faxaflóa eínn á suðurlandi taka, að meðaltali, hvurt ár í ávinníng á þurru landi: hundrað þúsundir ríkisdala; og þetta er ekki á eíngu biggt, heldur á því sem fram fer á báðar hliðar við oss: í Norveígi og á Nífundnalandi. Spánverjar borga þessum þjóðum opt meíra firir fiskinn þeírra heíma hjá þeím, enn leið og þeír flitja þeím saltið, enn þær fá suður á Spáni, þó þær rembist við að færa spánskum hann heím.

fjötrum, sem nú er hún í. Innlendra kaupverslan tekst hjer ekki, nema borgurunum, sem hún á að birja á, verði komið á rekspölinn; enn borgaraversluninni verður aptur ekki komið á, nema rímkað sje um frelsi hennar. Á þessu stendur nú, og með þessu eína leífinn irði þó, að ætlun minni, meíra ágeíngt til framfara landsins sjálfkrafa, enn með öllum þeím umsvifum, heílabrotum og kostnaði, sem varið hefir verið til að basla við kaupversluniua, meðan þeírri lögun er haldið, sem nú hefir hún. Enn þó eg ætli verslunarlöggjöfin, að því leíti sem of rík bönd hafa verið á versluniua lögð, eígi mikinn hlut í því, að hún hefir ekki gjetað komist í hendur landsmanna, nje náð fótfestu í landinu, þá skilji samt eínginn so orð min, eíns og stjórninni sje gjefandi sök á því, nje heldur þeím að öllu leíti, sem lögin hafa saman tekið. Það er sannast að seígja, að stjórnin hefir í sinni aðferð látið á sjá, að henni var unnt um, að það eítt irði af ráðið í þessum efnum, sem orðið gjæti að mestum hagnaði landinn. Í hvurt sinn og áformuð var nokkur hreífíng á verslunarlögunum, var — stundum með ærnum kostnaði — kveðlu til nefnd manna, þeírra sem kunnugastir mundi þessum efnum, til ráðagjerðar um það, hvursu með skildi fara, og þeírra ráðum var síðan fram farið; öðruvís eða betur verður ekki farið með neín þess háttar vandamál. Ekki má heldur hafa þá firir sökum, sem verslunarlög vor hafa saman tekið, nema ef vera skildi þá, sem áttu hlut núna í seínustu breitíngum laga þessarra, er eg þó ætla að ekki muni öllum hafa litist eínn veg, nje að allir væri jafnfastir á því, "að þær aðalástæður, sem verslunarlöggjöfin sje biggð á, sjeu enn þær tillfellilegustu" *). Þegar kaupverslan vor var látin laus, voru þeír tímarnir ní-geíngnir um garð í sjálfri Danmörku, er vinnubrögðum *(Industrie)*

*) Sjá hina íslensku útlegging opna brjefsins af 28. des. 1836 viðvíkjandi hinni íslensku kaupverslan.

og kaupverslun var nauðgað áfram með lögum og tilskipunum, einkaleifum, banni og þess háttar*), og var þá ekki von, mönnum tækjist betur að hafa sjón á því, hvad Íslandi hagaði. Það, sem einhvurjum tíma eður öld er að kjenna, stoðar ekki að gjefa neinum einum að sök af þeim mönnum, sem þá voru uppi; því það er ekki mörgum gjefið að vera so lángt á undan öld sinni, að þeir sjái hvað að henni geingur, meðan hún síníst flestum heilbrigð. Að minsta kosti er það undir mikilli heppni komið, að meðal 4 eða 5 manna, sem nefndir eru til einhvurrar ráðagjörðar, hittist einmitt þeir, sem leingra sjá frá sjer enn tímarnir, sem þeir eru á — enn einkum þegar litið er til Íslands, þar sem um so fáa er að velja, sem þar þekkja til. Gjeti Íslendíngar sjálfir ekki sjeð, nje orðið á eitt sáttir um það, hvað þeim meigi haga, þar sem þeir þó þekkja best æfisögu sína, er víða leisir úr því sem vant síníst úr að ráða, sje því að eins veitt eptirtekt, sem hún lætur þar um mælt: þá er enn minni von, að útlendíngar, sem jafnan hafa átt mesta hlutann í að semja lög þessi, tæki upp hjá sjálfum sjer eða hjeldi óhætt að fara því á flot, að kaupverslanin væri laus látin með öllu. Kaupmenn eru líka vanir að muna til að telja so um firir mönnum, ekki síst suður í Danmörku, að Ísland bresti aðflutnínga, nema föstu kaupverslaninni sje við haldið, og það eigi líf sitt undir henni — að von er ókunnugir láti blekkjast af því, sem komið hefir inulendum so lángan tíma til að vaða í villu.

Verslunarfrelsið er eini vegurinn til að koma verslunarefnunum úr því horfinu, sem nú hafa þau, í það horfið, sem þau eiga í að komast, og með því er það feingið, sem til er miðað, þar sem first er sjeð við því tvennu, sem menn hafa híngað til notað sjer við oss —

*) Sjá auk annars *Maanedsskrift for Litteratur VIII*, bls. 457–459 og 511–512.

óhægðinni að ná til verslunarstaðanna, og skortinum á helstu þörfum manna þegar þángað er komið. Með verslunarfrelsinu vinnst það á first, að landið hafi ekki skort á þeím aðflutníngum, sem það mest þarfnast, sem ekki er so margt, sem menn ætla, eíns og að framan hefir verið á vikið; þar næst verður því so að eíns á komið, að versluniu verði hjer loðandi við landið. Föstu verslunina þarf ekki til þess, að landinu flitjist það, sem það þarf á að halda. Það eru ekki meíra enn 3 eða 4 ár, síðan landið biggðist, að ekki hafi komið siglíng híngað til lands; enn það sem ekki hefir að borið á liðnu tímunum, meðan sjóferðirnar voru á barndómsárum sínum, er líklegt ekki beri að höndum núna first um sinn, þar sem sjóferðirnar eru orðnar lángtum meíri og algeíngari, auðveldari og með minna kostnaði og hættu, að sama skapi og þreíngst hefir um bjargræðisvegu víðast, so leíta verður allra bragða, og ekkjert er látið óreínt, til þess menn gjeti haft af firir lífi sínu, þó ekki sje hærra hugsað enn að vinna firir fæði. Landið á ekki stórt undir föstu versluninni og væri ekki nær dauða sínum, þó hún væri burt hjeðan. Jeg vil gjera, að það bæri að, sem raunar gjetur ekki að borið, og bæri að undir eíns í vor og öllum óvænt, að eínginn eínn af fastakaupmönnum kjæmi híngað, og ætlaði ekki að koma hjeðan í frá. Hvurnig ætli þá færi? Mundi ekki líkast, að lausakaupmennirnir að minsta kosti, allir, eða eíns margir og hjer komu í firra, kjæmi eíns firir því, þó fastakaupmanna væri ekki von? Og með því meíri matvörur flitjast út úr landinu enn inn í það, færist eínginn úr húngri til næsta sumars, og komist mundi verða af til næsta sumars með það annað, sem þeír hefði meðferðis af öðrum þarfavörum; enda kinni þeír að bregða við undir eíns, og sækja meíra, þegar sona væri á statt. Mætti nú borgararnir jafnframt hafa, hvar sem þeír vildi, verslun í landinu, þá færi þeír að

líkindum að verða í framkrókum um skip híngað, þegar þeir sæi, að sona bæri vel í veíði; og líkindi eru til, að næsta sumarið og þaðan af irði ekki öllu minni sigling híngað af lausakaupmönnum eínum, enn áður meðan föstu kaupmenn vöndu híngað komur sínar — enn ágóðinn allra, er sæti hjer að, irði að lenda í landinu, þar sem ekki væri leíngur sölumenn að draga frá borgurum, enn ekki slægðist aðrir til að verða borgarar, enn þeír sem ljeti sjer linda að ílendast hjer í landinu. Enn væri nú siglíngin híngað minni í bráð, enn að undanförnu, mundi að vísu af því leíða, að vörurnar safnaðist hjer, er þeím irði ekki komið í skipin, sem hjeðan færi, og aptur hitt, að nauðsinja vörurnar irði seldar dírra, meðan slíku færi fram, og sumt feíngist alls ekki; enn þá færi best, ef so tækjist til; því á eínn ári eða tveímur mundi landinu safnast þau efni, þegar ekki væri kostur á að eíða aflanum jafnóðum, að það irði fært um að kaupa sjer fáein skip til að hafa í förum, að ekki þirfti það að eíga mikið undir lausakaupmönnum heldur, þegar stundir liði. Og því fljótar tækjist þetta, sem lausakaupmanna verslanin reindist landinu erviðari og stopulli, so að eínmitt neíðin kjenndi landsmönnum betur og fljótara að fara með verslunarefni sín, á so sem 10 ára fresti, enn allir útlendir verslunarmenn, lagasetníngar, verslunarskildagar, eínkaleífi, verðsetníngar, kaupskrár og aðrar slíkar ráðstafanir í heílar aldir, meðan föstu verslaninni hefir verið haldið við hjer í landi. Þetta er meira enn tómur hugarburður; landið hefir nóg efni til að birja á verslun sjálft, ef það með einhvurjum hætti tálmaðist frá að eíða sjálft aflanum, og láta hann firir óþarfa, þó ekki væri nema í 2 eða 3 ár.

Þannig eru, að eg nefni fáein minnilegustu dæmin,

| | | |
|---|---|---|
| árið 1655 matvörur keíptar firir . . . | 9,449 | vættir |
| enn öl og brennivín firir . . . . | 14,728 | — |
| 10 ár 1733—1742 árlega matvörur firir | 16,000 | — |
| enn tóbak og brennivín firir . . . | 27,143 | — |
| 5 ár 1759—1763 árlega matvörur firir | 22,577 | — |
| enn tóbak og brennivín firir . . . | 15,372 | — |

Má hjer af sjá, að þegar allt kjemur til jafnaðar, hefir þessi ár farið eíns mikið firir tóbak og brennivín eíns og allar kornvörur; hvurnig þetta er síðan kaupverslanin var látin laus, er enn eígi fullsjeð, og verður hætt við aldreí sjeð með fullkomnum sannindum; því öll skírteíni um þess háttar hljóta að vera biggð á tilsögn kaupmanna, og kann vera, að ekki sje minna látið ifir kornflutníngum híngað, enn er. Hvað brennivíninu viðvíkur, mun það eflaust látið uppskátt meðan veítt eru laun firir að flitja það híngað. Og að vísu varð sú raunin á, að ekki gleímdist kaupmönnum að flitja það híngað, eptir það verslanin var laus látin, þar sem þegar hið firsta ár, 1788, fluttust til eínnar Gullbríngusíslu 730 tunnur*), nærfelt eíns mikið og áður var flutt til alls landsins, eður, þegar potturinn var metinn 24 skk.: 21,900 dala. Jeg vil ætla, að viðlíka hafi að farið niður eptir árunum síðan, og gjefur af því að skilja (að eg sleppi öllum öðrum óþarfa, sem keíptur er), ef helmíngurinn af því, sem fer firir brennivínið eítt, sparaðist landinu í nokkur ár, af því so tækjist til, að menn gjæti ekki eítt neínu í brennivíni, þar eð það væri ófáanlegt — mundi það, sem með því sparaðist landinu, nóg til að láta firir so mörg hafskip, sem á þirfti að halda til að gjeta nálgast bráðustu þarfir sínar, hvað þá ef leíngdar ljeki við, ef mörgum árum væri að skipta. Enda það fje, sem kaupmenn fá nú firir það að flitja híngað brenni-

*) *O. Stephensen om d. isl. Handelsförelse*, bls. 24 og *Forsvar for Isl. Övrighed*, bls. 38.

víuið, mundi skjótt verða að slíkum sjóð, að birjað irði á innlendri verslun, ef honum væri til þess varið.

Af slíku má nú ráða, að ekki væri landinu leíngi að safnast efni til þess, að innlendir væri sjálfir færir um að fara með verslun sína, ef kríngumstæðurnar ræki so á eptir, eð efnunum væri varið til þess, sem vera á — ef vanbrúkuninni væri hamlað, eða henni irði ekki komið við, þó ekki væri nema um stundar sakir, og ágóði landsins rinni inn í landið aptur, þar sem nú geíngur hann allur út úr því.

Það er sona lángt frá, að kvíða þirfti, að siglíngar og aðflutnínga til landsins skorti heldur firir það, þó verslunin væri leíst innanlands; því þó þar af kjinni að leíða, að föstu kaupmönnum heldur fækkaði, mundi lausakaupmönnum að sama skapi fjölga. Menn irði feígnir að eíga híngað kaupferðir eíns og híngað til, því ekki er so hlaupið að níum bjargræðisvegum; víðast er fullsett í, og lausakaupmenn, sem híngað hafa farið ár eptir ár, hafa komist so vel af, að óvíst er annarstaðar irði feíngsælla, þó þessu ráði væri brugðið. Lausakaupmenn ljeti þá að eíns af komum sínum híngað, er landið færi sjálft að eíga skipaútveg, so þeírra þirfti siður við, og þeír hætti að komast hjer að; enn þetta er nú eínmitt óhultasti vegurinn, til þess að landið hefði ekki skort á neinu, sem það þarfnast úr öðrum löndum, og að sneítt irði hjá þeím óhægindum, sem gjöra föstu verslanina so stopula. Að sama skapi, sem landinu fara að aukast efni, er og betur við því sjeð, að það bresti ekkjert af því, sem það þarf á að halda. Það er fullsjeð, að öll afskipti, sem höfð hafa verið af því að sjá því firir þörfum sínum, koma annars kostar firir litið. Rentukammerið er so búið að reína sig á að hafa hönd í þessu, að líklegt er það farl að láta sjer skiljast, að slíkt komi landinu að litlu haldi. Til hvurs er öll þess afskiptasemi? Landið er viðlíka birgt eða óbirgt, þó

verið sje að senda skírslur um allt þetta; aldrei hefir orðið so um búið, að ekki irði brestur á því öðru hvurju, sem landið nauðsinjar um. Hvaða bót verður á ráðin, þó Rentukammerinn með haustskipunum hjeðan, og þegar kominn er vetur, herist freguir um, að alls laust sje af allri þarfavörn á Íslandi undir veturinn? hvaða sektum hafa þeír orðið firir, þegar sona er komið, sem þetta hefir verið að kjenna? Eru ekki kaupmenn viðlíka farnir, hvurt sem þeír birgja landið af nauðsinjum eða ekki? Landsmönnum er viðlíka bagalegt, að siglíngnna bresti einhvurstaðar öllum óvænt, hvurt heldur Rentukammerið veít af því eða ekki, ef eígi er úr ráðið, þar sem þó meínað hefir verið, að hefja borgaraverslun þar í nánd, so að lausakaupmenn hafa ekki komist á, að venja þángað komur sínar. Og föstu kaupmennirnir hafa, þegar so bar undir, allteína komist á knjen firir því, þó Rentukammerið ætlaði að annast hagi þeírra, og gjæfi færrum þeírra útfararleifi. Meðan slíku fer fram, geíngur allt af á sömu vandræðum og óánægju: landið rjettir ekki við og kaupmenn þikjast eíga við fullharðan kost að búa. Verslunarfrjálsræðið eítt mundi gjeta snúið við blaðinu; jafnframt og landið ætti minna í hættu með aðflutníngana, færi verslunin líka að verða innlend. Þegar ekkjert væri leíngur innlendri verslan til baga, enn neíðin rekur á eptir og ávinníngs vonin, er ekki hætt við frelsið irði látið ónotað; menn færi að vakna, þegar þeír líka vissi, að ekki væri að ætla á aðra, og þeír irði að eíga allt við sjálfa sig; og þá fer að verða hægur nærri, að birja á verslun, þegar ekki þirfti meíri efni til þess, enn þau sem margur bóndi hefir, og ekki aðra kunnáttu, enn að vita þær fjórar reíkníngsaðferðir (*Species*), þríliðu og dönsku nöfnin á helstu vörunum íslenskum og útlendum, að menn gjeti átt kaup við lausakaupmanninn. Enn eíns og efnin vagsa, vegs þá smátt og smátt kunnáttan; úr borgaranum irði

kaupmaður, og þeir kaupmennirnir, sem af slíkri rót eru komnir, mundi leggja öðruvisi rækt við landið enn uppalníngar föstu kaupmannanna, þó þeir sjeu hjer innlendir að upprunanum til; þeir mennirnir færi að fara með verslunina, sem væri undir sömu kjörum og aðrir landsmenn, og firir sinna hagsmuna sakir irði að láta sjer annt um, að landinu vegnaði vel og að það tækji framförum og það vantaði ekkjert er það þirfti á að halda. Þeir gjæti hagað sjer eptir því sem á stæði, er þeim væri kunnugt, hvursu hjer fer að — og ætlað af aðflutníngum og burtflutníngum eptir því sem við þirfti, án þess að einn riði hinn ofan; og þeir ætti hægra með að bíða hagaulega tímans, þar sem allt þeirra líf væri ekki komið undir verslaninni; vörunum mundi jafnara skipt um landið, og hægra verða að ná til þeirra, og með minna kostnaði og tafníngum firir almenníng, og öllu heldur irði þá kostur á að leita firir sjer, þegar fleiri væri orðnir kaupmennirnir; enda irði hvur um sig kaupmannanna að kjeppast við annan, bæði að vera út búinn að því, sem með þirfti, og líka að gjeta látið það af hendi með eins góðum kjörum. Verslanin irði öll stöðugri, áreiðanlegri og notalegri. Úr því slíkri verslan væri komið á, gjæti eingin fastaverslun steipt henni; að því skapi sem kraptarnir jikjist, færðist hún meira í fáng, framtakssemi og aflabrögð færi vagsandi, er hvað stiddi annað, og skipaferðirnar irði fleiri og fleiri út af landinu, þar til að liktum mestallur ágóði landsins rinni inn í það, og það ætti sjálft öll verslunarhöld sín.

Jeg gjet ekki sjeð, að nein óhægindi eður baga leiði af þess háttar frelsi, enn að líkindum margfalt gagn í bráð og leingd. Vildi menn, til að minda, færa til, eins og að vísu hefir gjört verið, að frelsið irði vanbrúkað til að okra og mánga, þá er hvurttveggja að borgarar mætti ekki vera fleiri enn góðu hófu gjegndi og álitið irði þarflegt og nauðsinlegt, nje heldur undan skildir

þeím skildum við landið eða þeírra hjerað, sem við hæfi þætti. Frelsi borgarastjettarinnar þarf ekki að vera ótakmarkað, þó þeím væri frjálst að taka sjer bólfestu víðar, enn á þeim einum stöðum, sem nú er leíft að versla á. Þeím, sem annarstaðar vildi koma sjer niður með borgararjettindum, kinni meðal annars meíga gjöra að skildu, að eíga so eða so mörg lestarúm í farmaskipi sem geíngur milli landa — að sanna árlega, að þeir hefði so eða so mikinn skjerf af þarfavöru til sölu, eða hvað annað, sem hindrað gjæti, að verslan þeírra irði að okri eða mángi eínu, og löggjefendunum bæri að ákvarða. Enda sje eg ekki, þegar ekki tekst að stemma stigu firir vanbrúkuninni hvurt sem er, eíns og reínslan sínir, hví borgaranum, þó rímkað væri um frelsi hans, skildi meínað það, sem mörgum sölumanni helst uppi að ósekju. Menn verða smátt og smátt að fara að læra að sníða sjer stakk eptir vegsti, og láta ekki hafa sig firir fje, þó eínhvur væri so óráðvandur að hafa viðleítni á því; og miklu hættara er við, mönnum verðl gjörð neíðarkaup, þar sem lángar leíðir er að fara til kaupstaða, og þeír vilja ekki fara tómhendir heím aptur, enn ekki er í annað hús að venda, því eínn eða fáir hafa alla verslunina í höndum, sem þar að auki kunna miklu betur að tala máli sínu, enn sveítamaðurinn, sem öll kaupverslan er ótöm. Og hvað sem vanbrúkuninni líður, þá stendur landinu ekki á sama, hvar ávögsturinn lendir; það varðar mestu, að það, sem borgarinn græðir, lendir laungum í landinu, so því gjetur ekki verið það móti gjeði, þó honum aukjist efni.

Ekki ætti kaupmenn heldur firir neínum ójöfnuði að verða, þó að borgurum væri veítt meíra frelsi; því að því slepptu, sem hvurki landið nje stjórnin stendur í neínum heitum við þá, og þeír hafa alls ekkjert eínkaleífi til verslunar hjer á landi, þá er þess að gjæta, að Ísland á firir eíngan mun að láta fje og frelsi til

þess að fasta verslanin gjeti haldist, ef sjeð er, að landið þarf hennar ekki við, eða er betur farið án hennar. Það, sem því gjæti helst orðið til viðreísnar, á hjer að gánga á undan öllu öðru; ef að verslunar lögunin er gjörð vegna landsins, eíns og vera á, og ekki vegna kaupmannanna, liggur og við hún verði af tekin, þegar sjeð er, að önnur lögun á betur við. Enn því er og betur, að stjórnin þirfti líkast til ekki að verða í vandræðum með föstu kaupmennina, nje þeím að verða ráðafátt, þó rímkað væri um verslunarefni vor úr því sem nú er. Hjer er, eíns og allir sjá, ekki verið að amast við verslan útlendínga, heldur því eínúngis, að löggjöfin hefir dreígið so til skaps við þá, að þeím verður að ráði að sitja suður í Danmörku, og draga allan aflann burt úr landinu, so því gjeti aldreí farið fram. Það versfunarfrelsi, sem hjer er upp á stúngið, það er ekkjert annað, hvurnig sem það er skoðað, enn að kaupmenn Íslands, ef til vill, meígi til — eptir það kríngumstæðurnar hafa nokkuð breíttst, að hætta að sitja að þar sem dírast er í ríkinu, og verði að taka upp þá lífernisháttu, sem þeír verða að láta sjer linda, sem bjargast við það, sem íslensku bjargræðisveígirnir rjetta að þeím; því færi þeír, sem enda er ósjeð, heldur að sjá sitt óvænna, þegar rímkaði um frelsið, að gjeta haldist við með sömu háttum og híngað til, er þeím hægur nærri, hvurt sem þeír vildi, að setjast að til halds og trausts hjer í landi eíns og aðrir þeír, sem dragast fram á landsins ávögstum; sem þá mundi hafa þær afleíðíngar, að landið væri eíns farið og að undanförnu, hvað aðflutníngana áhrærir, og þar í betur farið, að ágóði verslunarinnar færi að renna inn í það — enn litist þeím so betur, og þeír væri komnir upp á það, að halda áfram verslunarskiptum við Ísland, og sæi sjer ekki meíra hag í, að taka eínhvurn annan bjargræðisveg heíma hjá sjer, er ætíð kostur að taka upp lausakaupmanna verslan

hjer, sem reínslan sínir að kemst fullvel af. Húsin og áhöldin sem kaupmenn eíga í landi hjer, irði þeím líklega að fullu borgað, eínkum á meðan sona er timburlaust. Ef aunga ráðstöfun mætti gjöra í landi hjer, sem þreíngdi að föstu verslaninni, er líka loku firir skotið, að landsmenn gjeti sjálfir eígnast verslun sína — og undir eíns og stjórnin lætur sjer um það hugað, liggur firir að fasta kaupverslanin verði að draga sig hjeðan, eíns og áður var á minnst.

Hvað Danmörk áhrærir, þá virðist hún ekki verr farin firir það, þó verslanin flittist þaðan og híngað. Það stendur á sama, hvar í ríkinu aflið er, og þá fer rannar best, þegar því er so jafnt skipt, að hvurt hjerað sje nokkurn veíginn sjálfbjarga; enn jeg þori líka að fullirða, að það irði Danmörku hagurinn mestur, að landið gjæti rjett við, og henni kjæmi lángtum betur, að það sem þar aflast, rinni þar inn, heldur enn þó það flittist enda til annara staða í ríkjinu. Það er eínginn efi á, að ágóði verslunarinnar hæri miklu meíra ávögst hjer í landi, enn nú meðan honum er nægast eítt í höfuðstað Danmerkur. Jeg þori að segja, að hvað lítið álit sem margir í Danmörku nú hafa á Íslandi, af því þeím sinist þeir hafa orðið að tolla því nú á síðustunni — mundi þó sú verða raunin á, að ekki nokkurt eítt hjerað í Danmörku með 50,000 manns, sjé fært um að láta í tje annan eíns afla, hvurnig sem til væri leítað, eíns og Ísland, ef efnin væri til að nota það, og það staðnæmdist hjer, sem hjer aflast. Eða gjetur nokkur til að minda — að eg taki að eins eítt dæmi — leítt sjer í hug, að lakara sje aðstöðu frá Íslandi sjálfu, að nota sjer fiskifángið hjerna undir landinu, enn frá Hollandi, og þó má frá bæardirum vorum telja í einu á litlu svæði so hundruðum skiptir fiskiduggur þeirra, dragandi að sjer auðæfi sjávarins, meðan eínginn af oss aumíngjunum nær fisk úr sjó, og sjórinn kastar þeím á land aptur, sem snúa sjer að

honum, og ímist drekkir þeim eða rotar þá, sem komast frá landinu, eíns og hann vilji sína oss, hvað lítið hann gjöri úr oss líka, og hefna þess á þeim sem minni máttar eru, að hinir bjóða honum sona birginn, og fara að honum með slíku ofríki og ifirgángi. Enda útbúníngur sumra þeírra manna, sem koma híngað til fiskifánga, mætti minna oss á, og eru vottur þess, að ekki sje ætíð tekið af meíri nægtum til útgjerðarinnar, og ekki sje öðru nje meíra til kostað, enn hjer mætti takast að hafa til umráða, þegar búið væri að koma gánginum á. Tækist það einhvurn tíma að nota Ísland, mundi sjást, að ekki irði það Danmörku til minni stirktar, enn eítthvurt annað viðlíka fólkmargt hjerað í heímalöndum danakonúngs; enn aldreí tekst það, firr enn verslanin er orðin innlend. Ekki er heldur hætt við því, að kaupskapar viðskipti Íslands irði ekki álíka við Danmörku eptir og áður, þó að föstu verslaninni hjer í landi væri lokið; því first og fremst gjeta verslunar viðskipti vor við Danmörku ekki haggast til minna firir þá sök, að hún er færust um, að láta það af hendi við oss með bestum kjörum, sem vjer þörfnumst helst, þar sem eru kornfaungin; þar næst erum vjer venslaðir henni með so mörgu móti, að vjer ættum þángað optast leíðir, og öll verslunar viðskipti irði oss þar auðveldust, af því vjer verðum þar kunnugastir. Enn það irði líka eptir öllum líkindum einmitt vegurinn til að koma enn meíra lífi í verslunina í Danmörku, að borgarastjettin hefði frjálsari hendur í landi hjer; því með þeírri breítíngu kjæmi og sú breíting á verslun Dana hjerna, að lausakaupmenn kjæmi lángtum fleíri, sinn frá hvurjum stað í ríkinu, þegar þeím stæði ekki leíngur bagi af föstu kaupmönnunum, og borgararnir væri víðar firir, að taka á móti þeím og flíta ferð þeírra, þar sem nú er so mikið undir hælinn lagt, að þeír fái góðar viðtökur, þar sem þá ber að landi, af því borgararnir eru so óvíða,

og aðrir meíga ekki taka hjá þeím nema það, sem hvur þarf sjálfur á að halda, og láta sig opt litlu skipta, að ná fundi þeírra, þegar nokkrir erviðleíkar eru á því, þar sem gjört er ráð firir, að fasta verslanin bæti úr þörfum manna, þó þeír ekki gjeti komið við, að ná fundi lausakaupmannsíns. Firir þá sök geíngur lausakaupmanna versluuin opt seínt og erviðlega, og þeír verða stundum að fara með kaupeíri sinn heím aptur, að borgararnir eru so fáir og strjálir, að ekki verður komið við, að fara að leíta þá uppi, að þeír gjeti veítt því viðtöku sem afgángs verður. Enn því meíri hægðar sem lausaverslan Dansa níti í þessu, og því víðar að sem þeír menn væri, er til þess irði, að ráðast í hana, þess jafnari irði verslan þessi í Danmörku sjálfri — þess fleíri staðir og atvinnuveígir innanlands niti góðs af því, sem með henni áinníst og dregist til landsins.

Enn á meðan verslanin er í því horfi, sem nú er hún í, og ekki er gjörð breítíng á verslunarlögunum, er, til þess landíð hafi meíri ávögst hennar, eínkaráðið, að menn taki sig saman til að eíga skip í förum, til að nálgast sjálfir á nauðsinjar sinar og flitja á kaupeíri sinn, so þeír eígi sem minst undir kaupmönnum, enn gjeti sjálfir stirkst að efnum, lært að fara með skip og verslan, og kinnt sjer háttu annarra þjóða. Þó ekki væri nema eítt skip í förum frá hvurjum fjórðúngi, eða tvö, þirftum vjer aldreí að verða á hjarni með bráðustu nauðsinjar vorar, hvurnig sem um aðra verslanina færi — hvað þá heldur ef so sem hvur sísla ætti eítt skip, sem að vísu ekki virðist ofvagsið efnum vorum, þegar fram líða stundir, ef að vjer lærum að brúka meíri hagsíni enn híngað til, og samheldið brestur ekki. Feður vorir áskíldu sjer, er þeír sóru eíða noregskonúngi, að hann sæi þeím firir 6 skipsförmum á ári, er þeím hefir vírst nóg til bráða birgða, hvað sem öðrum skipaferðum liði. Þegar litið er til, hvað lítinn ágóða menn hafa fjár síns hjer í

landi, og hvað miklu kostað er til að ná í eitt fimm hundraða kot stundum, þirfti þeím, sem nokkurt hafa beín í höndum, ekki að vagsa í augum, að eíga eínn hlut í hafskipi, þó ekki væri so mikið tekjið í ávinníng; því hægt er að búa so um, að fjeinu sje nærri því eíns óhætt, sem varið væri til að láta firir þvílíkt skip, eíns og þó það væri haft í kistuhandraðanum; enda verður mönnum að veígi að kosta miklu, bæði til að koma upp róðraskipum vorum, og að gjöra þau út, þó miklu sje þá meíra undir hælinn lagt og meíra til hætt, þar sem eínn róður hefir stöku sinnum molað skipin í spón á firstu vertíð, so að eíngar bætur hafa firir komið. Tækist og illa til, ef ekki irði meíra upp tekjið með því að eíga skip í förum, enn af útgjerð róðrabáta vorra með jafnaði, þar sem hvur biður í kapp við annan í hásetana, til þess þeím verði út komið. Gjerum, til að minda, að einhvur hefði sumarið 1838 haft vörur firir 200 dali til að leggja í verslunina, eða sosem 10 skippund af saltfiski, hvurt metið á 10 dali, og 600 pund af landvöru, hvurt metið á 16 skk., enn aptur feíngið utanlands, eíns og almennt var þá, 16 dali firir fiskinn, enn 26 skk. firir landvöruna, eru á þessu lítilræði teknir í ávinníng meír enn 120 dalir; og þó menn ábataðist ekki nema annað eíns á því, sem híngað væri flutt aptur á skipinu, þar sem þó mundi heldur við hæfi, að ætla það miklu meíra, í samanburði við það, sem kaupmenn láta af hendi við oss útlenda varnínginn, þá væri tekjið í ávinníng á eínni ferð 240 dalir; og með því ofantaldar íslenskar vörur eru ekki nógar í eínnar lestar rúm (sem eg aptur ætla auðvelt sje að fá keípt firir 200 dali, so að til að minda 40 lesta skip ætti að kosta 8060 dala), væri teknir í ávinníng af so sem 200 dölum eða lestarrúminu 240 dalir á eínni ferð, og mundi þá verða bisna mikið afgángs, þó útgjerðin og sölukostnaðurinn væri frá dreígjinn; því trautt mundi hann verða annar eíns, þar sem

menn ætti skipið, eíns og ef það væri tekjið að leígu, og er þó algeíngt, að skip sjeu seld á leígu til flutnínga með mönnum og allri útgjerð firir 30 dali firir hvurja lest um eítt sumar. Væri þá eptir liðugir 200 dalir. Og þó enn væri sleppt helmíngnum af þessu firir umstáng og sölulaun utanlands, sem eg ætla öllum meígi þikja vel í lagt, eru þó enn eptir 100 dalir. Og ef sama færi fram í 20 ár, sem eg gjeri að skipið væri við líði, væri af einnar lestar rúmi teknar í ávinníng tvær þúsundir dala. Þiki mönnum ofmikið gjört úr ávinníngnum, má þess og gjæta, að skipinu er hjer ætlað að fara að eíns eína ferð á sumri, þar sem því mætti vel takast að fara tvær, nema menn hefði meíra hag af að hafa það til einhvurs annars á meðan. Það er nú við búið að landsmenn kjæmist í mörg ófirirsjeð vandræði — ræki sig á marga erviðleíka, ef þeír rjeðist í að fara að eíga skip í förum; menn kinni að finna þeím til ásóknar mána, og aðra þá verslun sem lagasektir eru, nú sem stendur, við lagðar, og leíta allra bragða til þess, að þíngja so firir fætinum, að firirtækjið ætti sjer ekki lángan aldur, enn því heldur ríður á, að stíga ifir slíkar tálmanir, í stað hins, að láta hugfallast. Allt, sem nokkurt táp er í, þarf með ráðdeildar, samtaka, firirhiggju, atorku, ef því á að gjeta reítt vel af; enn þar sem líka slíkt brestur ekki, tekst mönnum og vonum heldur, að sigrast á öllum erviðleíkum.

Vjer eígum mikið verk firir hendi, þángað til búið er að hrinda verslunarefnum vorum í það horf, sem þau eíga firir sjer að komast í; enn það fer heldur ekki hjá því, að þetta takist, áður enn lángar stundir líða. Því betur sem þessi mál verða íhuguð, því meíri missmíði munu menn sjá á því sem er, og því óánægðari verða þeír með það. Og þó oss takist ekki að leíða verkið til likta, eígum vjer þess vísar vonir, að þeír taki þar við sem vjer hættum, sem eptir oss koma. Eptir því

sem þjóðlindið færist í oss, og oss eikst vit og kjarkur, munum vjer verr og verr gjeta fellt oss við, að land vort fari á mis við allan ávinníuginn af verslan sinni. Land vort mun reínast fullgott, ef það feíngi að njóta sín, og grænlenski ísinn væri því ekki til ama á eínn veíginn, og verslunar ólagið á annan. Það er mál að láta af þeírri trú, að landið eígi líf sitt undir fastri kaupverslan, þar sem 400 ára reínsla sannar nógsamlega, að því hefir vegnað vel án hennar, og annarra 400 ára reínsla, að því gjetur ekki vegnað vel með henni. Jeg mælist til, þar sem málefni eíga hlut að, sem sona miklu varðar um — þar sem ekki skiptir minna enn, ef til vill, að landið sje svipt þriðjúngi af öllu þess bjargræði — að ekki sje farið eptir þesskonar röksemdum, sem reínast kinni ógildar, þegar betur er að gáð; og það má ekki so til gánga, að verslaninni sjeu ramınar skorður settar að óþörfu, eður af ranngum hagarburði einum. Hvurnig sem búið hefir verið i garðinn híngað til, er nú sá einn til, að leíta nírra bragða, og láta reínt hvurnig þau gjefast; því ekki má so búið við una. Það mun nú á síðustu öldum vera búið að reína á Íslandi alla bundna verslun, sem menn gjeta sjer í hug leitt, og allt af hefir lent í ófærum, og þó því síðar, sem hún varð frjálsari. Eptir því sem framförin og vitið eíkst hjá oss og á efnum vorum, fer ekki hjá því, að menn komist í skilníng um, að það eru ekki bindandi lagaboð, nje afskipti fjarlægra þjóða, sem gjefa landi voru veð firir því, að það haldi lífi, eða bresti ekki nauðsinjar sínar. Þá er því helst borgið so, að óblíða loptsins eða hallærin ekki grandi því, þegar versluniu sprettur af innlendri rót, þegar hún hefir so aukið krapta landsins, að það er orðið fært um að draga sig eptir björginni, sem landið sjálft hefir á boðstólum til lands og sjávar, og að draga sig eptir björginni úr öðrum löndum, og jafna henni niður millum hjeraðanna með innlendri verslun

og flutníngum, þegar hana ber misjafnt að. Þá fara verslunarefnin að feldu, og þá haldast þau so við, að landinu sje að borgnara, þegar hjer eins og annarstaðar það tvennt, sem mestu veldur í öllum mannlegum athöfnum, rekur á eptir — neíðin á eínu veíginu, enn ábatavonin á hinn, og eíngar tálmanir, sem mennirnir hafa til búið — eíngin sjálfsköpuð víti hrinda bjargræðisefnunum úr því horfi, sem best á við eptir ásigkomulagi staða og tíma.

---

# ALÞÍNG.

Kristjáni konúngi 8. var leíngi við brugðið firir vit sitt, áður enn hann tók við ríki. Úrskurður hans af 20. maí f. á. um alþíngis setnínguna í landi hjer er og eítt af konúngsverkum hans til marks um það. Aldreí hefir Ísland þeígið slíka gjöf af nokkrum konúnga sinna; og þó eínhvurjum hefði eínhvurn tíma litist að gjefa annað eíns, hefði þó trautt nokkur annar haft þar að lútandi ummæli og aðferð þessa konúngs, sem gjöra oss gjöf hanns hálfu dírmætari. Þessi úrskurður er þess vegna jafnmikill vottur um stjórnarspeki og smekk gjafarans, eíns og um gjæsku hans.

Hann er, seígi eg, vottur um stjórnarspeki hans. Hjer er birjað gagnstætt því, sem almennt hefir tíðkast, so að öldum skiptir. Það hefir að undanförnu verið venjan, að senda híngað lagasetníngar Danaríkis, og kveða embættismenn hjer álits um, hvað af þeím gjeti feíngið hjá oss lagagildi; enn ef semja átti gagngjört ní lög handa landinu, þá að laga þau, sem best varð, eptir samkinja löggjöf Dana. Embættismönnum vorum hefir veítt því hægra að koma þessu í horfið, eíns og til var mælt, sem þeím laungum var kunnugri löggjöf Dana, enn hin eldri lög sjálfra vor; og með þessum hætti er næstum öll löggjöf vor á seinni öldum sniðin eptir útlendum mælikvarða. Kristján 8. litur öðruvís á þetta;

hann hirjar á Íslandi, þar sem aðrir hafa blrjað á Danmörku; hann bíður first og fremst að hnga að því, sem Íslendíngar hafa ráðið af, meðan þeir settu sjer lög sjálfir, og að laga það, sem verður, eptir því; því hann þikist meíga giska sjer til, að þá hafi löggjöfin hvað best verið löguð eptir högum landsins, hvað best löguð til að efla heíllir þess; og sjer vonum, að bæði land vort og ríki hans uppskjeri með tímanum nokkra ávögstu þess, að hann er í þessu glöggskignari enn aðrir.

Þessi úrskurður er einnig vottur um smekk konúngsins. Hann finnur, að Ísland hefir kveíkt ljós vísindanna á norðurlöndum, og hann virðir það þess vegna lítinn sæmdarauka ríki sínu, að firirfara þjóðerni þess til umbunar. Sæmdin verður líka ætíð hans að hafa tekið það ráð upp, sem öllum gjegnir best, sem Íslandi er mest framfara von og ánægja að, sem Danmörku er affarabest og virðuglegast; þess vegna vill hann hefja að nýu gamla, nafntogaða þíngið Íslendínga og láta það bera nafn, með rentu; honum þikir vanbrúkun á Íslandi að fara með það eíns og skattland, sem ekkjert hafi um fram önnur skattlönd Danaríkis, og meíra varið í að láta það halda afbreítíngum sínum, enn að umsteípa þeím eptir háttum Dana; hann álítur landið, eíns og vera ber, með máli sínu og sagnabókum, þjóðeínkjenni og lögum eíns og heíðursverðar menjar mentunar fornaldarinnar, sem mentun vorra tíma sje skild að meta mikils, og fara sem best með. Þá verður Ísland Danmörku til annarrar eíns príði, eíns og það gjetur orðið henni til stirktar. Mönnum hefir til þessa ekki viljað skiljast, að norðurlönd ætti Íslandi skuld að gjalda, og að það ætti að njóta fornaldar sinnar, og þó mætti öll norðurlönd láta sjer annt um, að Ísland gjæti varðveítt þjóðerni sitt sem leíngst og mál sitt og blæ forntímanna á háttum sínum og stjórnarefnum, og að það gjeti eíns og sögnland, að því sem verður, orðið sem fullkomnust afmálan og túlkur

gömlu tímanna. Nafntogaður frelsisvinur nokkur í Danmörku hefir, að því sem oss er af ritum kunnugt, einn látið þetta á sannast í orði*); Kristján 8. hefir sínt það í verkinu.

---

*) Sjá *Maanedsskrift for Litteratur* VIII, 523 *og fg.* Þar segir so meðal annars: "Að endíngu verð eg að leifa mjer að koma við einn hlut, af því eg hefi með undrun sjeð, að höfundurinn (ritsins *"Om de danske Provindsialstænder med specielt Hensyn paa Island. Kh.* 1832"*)* hefir ekki látið sig hann miklu máli skipta. Á Íslandi eru að finna frumefni þeirrar niðurskipunar, sem í 8 aldir var príði landsins, og hjá þessarri þjóð — er lifir á sögunum — lifir enn í minníngu, sem geimd og stunduð er með heilagri lotníngu; þess vegna kvað þjóðin og bera í brjósti heimuglega laungun eptir a hinu heiðursverða þíngi, þar sem feður þeirra leiddu í ljós krapt þann allan og dugnað, sem orð er á gjört í sagnaritum þeirra og ljóðmælum Að endurlífga að níu þessa niðurskipan — vöggu hinna kjærustu endurminnínga þeirra — hefði því enn meira að merkja á Íslandi; það mundi sameina hina liðnu tíma þeirra með von ókomnu tímanna; það mundi vekja upp þá sjálfstilfinníng, þá föðurlands nudagipt, er brátt mundi láta á sjá sína nitsamlegu framkvæmd í öllu ásigkomulagi landsins. Á Íslandi er því ekki so mjög þörf á að skapa öldúngis nítt að stofni, heldur miklu framar að vekja hið gamla upp að níu, sjálfsagt með öllum þeim breitíngum, sem nú tíminn útheimtir. Sú ástæðan mælir þannig einnig fram með því, að Íslandi sje gjefið fulltrúaþíng sjer í lagi, að þjóðin innilega óskar þess og þráir það, og að þar er að finna fastan söguglegan grundvöll, sem þessi niðurskipan gjeti mindast á eptir ásigkomulagi þjóðarinnar. Á þenna skoðunar máta hefir höfundurinn að eins drepið á so sem tveim stöðum, enn eg vildi hann hefði borið meira mál á þann hlut, og skoðað út í æsir." Enda Baldvin Einarsson, sem þó var með þeim fremstu landa sinna, var þannig ekki meir enn so kominn í skilníng um, hvaða fjársjóð Ísland á, þar sem er fornöldin, og hvaða rjettindi og skildur það hefir hjer að lútandi. Það er ávögstur þeirrar upplísingar, sem síðan hefir færst til Danmerkur, og þess vegna mun óskilið flestum á Íslandi. Það væri betur, að ekki ieði sagt um oss, þegar vjer erum

Úrskurðurinn af 20. maí er vottur um gjæsku konúngsins: hann verður að ætlast til þeírrar mentunar hjá oss, first vjer niótum þeirrar heppni, sem öllum þjóðum leíkur öfund á, er hennar er firirmunað, að eíga nafutogaða, staka fornöld, að þá muni oss, eíns og öllum siðuðum þjóðum, ekkjert dírmætara og helgara, enn menjar hennar, þá muni oss eíngin gjöf betur koma, enn sú, sem veítir uppörvan til að endurlífga hana, eíns og samboðið er ásigkomulagi staða og tíma. Betur að Íslendíngar skildi tilfinníngar konúngsins og kjæmist við af þeím; betur þeír vissi, hvað dírmætan fjársjóð þeír eíga, þar sem er fornöld þeírra og menjar hennar; betur þeír findi, hvað dírmæt sú gjöfin er, sem lætur þeím kost á, í firsta sinn að nota sjer þessa hagsmuni, og þeím lærðist að hafa þau not hennar, sem gjafarinn hefir til ætlað. Vera kann, að Íslendíngum sem nú eru uppi hafi enn ekki, sem skildi, lærst að meta og elska það, sem þjóðheíður þeírra er fólginn í, enn vjer eígum að því vísu að gánga, að kinslóðin, sem upp er að vagsa, taki þeírri fram, sem vagsin er, í virðíngu firir menjum forntímanna og niðurskipunum forfeðranna, eíns og í annarri mentun; og so mikil er mentun Íslands nú þegar orðin, að eínginn er sá með nokkurri hugsun, að ekki hafi hann tekið gjöf konúngsins feígins hendi; og eíns og Íslendíngar enn í dag hafa það af feðrum sínum, að gángast mest firir góðu, eíns er óhætt að fullirða, að hvurgi í ríkinu hafi þeím tilgángi rjettarbótarinnar af 28. maí 1831, "að knita þau böndin enn fastara, er sam-

að lesa rit feðra vorra, eíns og spekíngur einn kjemst að orði við annað tækifæri: "Menn lásu rit fornmanna og skildu ekkjert, menn sökktu sjer niður í þau og lærðu ekkjert, menn dáðust að þeím og tóku þó ekkjert eptir, af því menn höfðu ekkjert af anda þeírra." (*"Engelstofts Tanker om Nationalopdragelse"*, bs. 213 — eín af þeím bókum, sem allir ætti að lesa og taka til eptirbreítni).

eína konúngsættina við þjóðina", heldur orðið framgeingt, enn eínmitt á Íslandi, eptir það hinn áður nefndi úrskurður af 20. maí varð þar kunnur.

Hjer vill so heppilega til, að það sem landsins gagni, landsins óskum mundi samkvæmast, ef það skildi rjettilega þarfir sínar, það er eínmitt sá vilji konúngsins, sem hann hefir berlega ifir líst, og fólginn er í þessu þrennu: að þíngið, sem oss er firirhugað, sje sem líkast hinu gamla alþíngi að orðið gjetur, sje haft á sama stað, og þá, eíns og sjálfsagt er, hafi sama nafn. Að þessum atriðum skulu því lúta eptirfilgjandi hugleíðíngar vorar.

Oss er hjer eíngaungu vísað til fornaldar vorrar. Firsta og fremsta skildan þeírra, sem mál þetta er á hendur falið til rannsóknar, verður sú, að taka alla hina fornu alþíngisskipan vora til grandgjæfilegrar íhugunar, leggja hana til grundvallar, og í stað þess, eíns og mönnum er tíðast, að leíta vankvæða á að halda í og innleíða forna siðu, á viðleitni þeírra eínmitt að miða til að riðja burtu öllum vankvæðum, sem virðast rísa af hreítíngum og ásigkomulagi tímanna til hnekkis hinu gamla, og halda ekkjert, sem að fornu hefir tíðkast, að firra bragði ómögulegt af hugarburði eínum. Ef þessi aðferð, þessi viðleítni er höfð í firirrúmi, munu vankvæðin á að uppfilla vilja og boðorð konúngsins eíns og skildugt er, reíndar verða harðla fá. Rjettarbæturnar um fulltrúaþíngin í Danmörku koma því þessu máli ekkjert við, og þá er rjettast að farið, ef menn, meðan það er rannsakað, ljeti þær liggja milli hluta, eíns og væri þær ekki til, því þær eru að so vögsnu máli ekki til annars, enn að leíða á eldri afvegnna, sem Íslandi hafa orðið ollandi so margra hörmúnga, að löggjöf þess var sprottin af útlendri rót.

Stjórnarlögun Islendínga hin forna, á meðan þjóðstjórnin var hjer, hefir jafnan verið að undrum höfð, þar sem hennar er gjetið í útlendum ritum*), enn tvöfalt aðdáanleg og eptirbreitnisverð verður hún, þegar litið er til landsins, sem hún var búin til handa. Hún er so löguð eptir eðli og lifernisháttum þessa lands, eins og þeir verða að vera, að það er ekki kostur að ímunda sjer aðra stjórnarlögun, sem hjer eígi betur við, þegar á allt er litið. Þegar farið er að virða firir sjer alþíngið forna, þá mun meíga telja því þetta tvennt sjer í lagi til eínkjennis: að það var þjóðfundur landsins og stjórnarfundur þess. Það var að einu leítinu nokkurskonar alþjóðleg hátíð til vakníngar andanum, til skjemtunar og glaðværða, og náði að því leíti til allrar þjóðarinnar; að hinu leítinu var það fundur helstu manna landsins í þeím tilgángi, að semja því lög og dæma í málum manna, löggjafa fundur og efsti dómstóll landsins. Hvurttveggja var jafnnauðsinlegt og verður það,

*) Í allri niðurskipan þessa fólks — seígir *Mallet* — gjefur að líta hreínustu afmálan tilhneígínga þeírra og tilfinnínga. Þetta er so áþreífanlegt, að það er auðsjeð, menn hafa hvurki verið á báðum áttum, nje gjört minstu tilraun til að haga þessu öðruvís, áður þeír irði sáttir á stjórnarlögunina. Þessi gjörvalla stjórnarlögun komst á nauðúngarlaust og af sjálfsdáðum; og eíns og hunángsflugurnar biggja búr sín, eíns fundu Islendíngar af happalegri eðlisleíðslu, er þeír tóku sjer bústað á eíðieí þessarri, hina fögru stjórnarlögun, þar sem frelsið er, eíns og vera á, grundvallað á því, að hinum ímislegu greínum valdanna er víslega sundurdeílt. Af því, hvursu þessu er firir komið, má sjá, hvað annt nílendumenn þessir og afkomendur þeírra ljetu sjer um, að halda í rjettlætið og að hnekkja ofríkinu. Enda drottnaði leíngi á Islandi meíra frelsi, og þar var óhultara, enn í nokkru öðru ríki í Norðurálfunni; og þegar aðgjætt er, að þetta þjóðríki var sett á stofn á tímum vanþekkíngarinnar, verða menn að dást að speki þeírri, sem grundvöllurinn er lagður með. (*Depping: Normannernes Sötoge, ved Petersen*, bls. 311).

so leíngi sem landið biggist. Síðan þetta alþjóðlega samneíti tókst af, síðan andanum kom þaðan ekki leíngur upplífgan, hefir líf þjóðarinnar eíðst í deífð og drúnga, enn framtaksemi og kjarkur horfið. Hjer í landi hagar so til, að biggðir eru strjálar og lítið samneíti með mönnum, enn vetur lángur; og þegar menn alast upp og sjá ekki til annarra, so að árum skiptir, verða þeír líkari viðundri enn mennskum mönnum, og eíns og komnir út úr sjáfarhömrum, nema ráð sjeu við höfð. Stjórnarlögun feðra vorra var, jafnt og líferníshættir þeírra, öll lögnð til að ráða bót á þessu, til að hressa huganu með glaðværðinni, og jafnframt gjöra hann betur lagaðan til kallmannlegra athafna. Þess vegna voru fólksfundir í lög leíddir, sem allir urðu að koma til, sem til voru kvaddir, og á þeím var auk annars margskonar skjemtun um hönd höfð; og rjettargángurinn gamli, so brotinn og umsvifamikill, sem hann að öðru leíti var, var þó að því leíti góður, að hann með öllum þeím kviðafjölda, sem við þurfti í málaferlum, efldi samneíti með mönnum. Síðan menn hættu að eíga eínn samkomustað úr öllu landinu til sameíginlegs ráðaneítis, hefir sinn fjórdúngurinn allopt stefnt í hvurja áttina, eítt lagaboðið rekið sig á annað, eínn embættismaðurinn brotið niður það sem annar biggði. Hjer er oss þá eínsætt, að taka upp aptur skipan forfeðra vorra, og lögleíða að nýu þíngin þeírra, sem mest kvað að, enn það voru þessi tvö: hjeraðsþíngin eður vorþíngin og alþíngið.

Það er kunnugt, að forfeður vorir skiptu landinu í fjóra fjórðúnga, eíns og síðan hefir haldist, enn hvurjum fjórðúngi aptur í þrjár þíngsóknir, nema norðlendíngafjórðúngi, sem skipt var í fjórar. Aptur var hvurri þíngsókn skipti í 3 goðorð, því 3 hof skildi vera í hvurri þingsókn, enn eínn goði skildi hafa tilsjón með hvurju hofi; goðar voru því 9 í hvurjum fjórðúngi þeírra þriggja, enn 12 í norðlendíngafjórðúngi, og samtals 39

goðar. Með þessum hætti voru í sunnlendíngafjórðúngi Kjalarnessþíng, Árnessþíng og Rángárþíng; í austfirðíngafjórðúngi Skaptafellsþíng, Kiðjafellsþíng og Sunnudalsþíng; í norðlendíngafjórðúngi Þíngeíarþíng, Vaðlaþíng, Hegranessþíng og Húnavatnsþíng; í vestfirðíngafjórðúngi Þorskafjarðarþíng, Þórnessþíng og Þverárþíng. Má hjer af sjá, að í þremur firstnefndu fjórðúngunum fara saman þíngsóknir hinar fornu og síssluskipan sem nú er. Í vestfirðingafjórðúngi eru þíngin færri, enn síslurnar, so að fleíri síslur verða í eínu þíngi. Sjerhvurt þíng eður þíngsókn átti sinn þíngstað, og skildu allir, sem þíng áttu að sækja eða mál höfðu að kjæra, safnast þar að vorþíngi eíns og mælt er í lögum: "Vjer skulum eíga vorþíng á landi voru; skulu goðar þrír eíga þíng saman. Þeír skulu eígi eíga þíng leíngra enn vikuþíng, og eígi skjemmra enn fjögra nátta þíng. Vorþíng skulu þeír eíga eigi seínna enn 6 vikur sje af sumri, og eígi firr enn 4 sje af sumri" (sjá Grágás, þíngskapaþátt 37. kap.). Til þessarra þínga safnaðist múgur og margmenni; gjetur þeírra opt í sögum, enda sjer enn í dag víðast merki þess, hvar þau voru haldin. Þar voru allskonar málefni um hönd höfð; hvur þeírra þriggja goðanna skildi þar nefna 12 menn í dóm, til að skjera úr þeím málum, sem til líkta urðu leídd í hjeraði; hinum var vísað þaðan til alþíngis. Vorþíngin voru þannig að nokkru leíti undirbúníngur alþíngisins.

Þessi vorþíng irði nú first og fremst að takast upp aptur, og ætti þau að itri lögun að vera sem líkust hinum fornu, því endurminníng forntímanna má sjer so mikið eptir allra þjóða reínslu, að menn ætti ekki að leífa sjer að víkja af því, sem þeír hafa til sett, enda í minstu smámunum að nauðsinjalausu. Enn hjer virðist og draga lítil nauðsin til að því leíti, sem vorþíngin snertir. Þíngsóknirnar ættí að halda sömu stærðum og í firndinni og heíta eíns, og þíngin hald-

ast á öllum sömu stöðum, sem þau voru haldin á, þar sem því verður með nokkru móti við komið. Þau ætti að haldast á hvurju ári eins og vorþingin gömlu, og aðalþingdagurinn ætti jafnaðarlegast að vera 20. maí, er konúngsúrskurðurinn er dagsettur. Ætti sá dagur hjeðan af að vera þjóðhátíð vor Íslendínga. Þínghald þetta irði þá og í sama mund, og vorþingin voru haldin. Það dregur eíngi nauðsin til að víkja frá skipan forfeðra vorra i neínu þessu; því hvað first víðáttu þíngsóknanna áhrærir, þá er öll nauðsin á því, að einn aðal þíngstaður sje til, handa hvurri síslu, og það gjetur óvíða, enda í stærri síslunum, orðið með so miklum erfiðleikum firir bændur að nálgast þíngstaðinn (þar sem þeir sjaldnast þirfti að ferðast til hans meír enn í mesta lagi so sem þíngmannaleíð), að slíku sje gaumur gjefandi í samanburði við þau not, sem leíða af alþjóðlegu samneíti manna með so margvíslegum hætti. Bæri slíkar þíngreiðir miklu fremur að álíta eins og gamanferð (sem aungan fisti að hafa sig undan þeígið), enn nokkurn birðarauka. Mönnum hefir enn ekki lærst að fara so með tímann hjá oss, að þesskonar ferðalög gjæti heítið vanbrúkun hans, sem þeim væri hlífanda við; so mörgum dögunum er, hvurt sem er, eítt firir lítið. Reinslan sínir, að þegar mönnum lærist að verja tímum til ánægju sjer, lærist þeím og að verja öðrum tímum með því meíra fjöri til að af ljúka skilduverkum sínum; og þeir, sem mest kvarta um tímaleísi, gjöra laungum minst. Deifðin og aðgjörðaleísið hefir hjer í landi farið í vögst að sama skapi, sem hreífíngu og glaðværðum fækkaði; og vjer mættum þikjast góðu goldnir, ef þetta færðist nær gamla horfinu aptur, þó vjer irðum að vinna til að sækja fleíri mannfundi enn að undanförnu. Þíngaskipanin forna ætti því að halda sjer alstaðar í landinu; þá er eigi með því tekið firir, að í tveimur víðlendustu síslunum, Skaptafellssíslu og Þíngeíarsíslu, irði þíngsókninni

skipt í tvo hluti, ef þíngmönnum litist so, heldur enn að eíga eitt þíng í öllum, so að, til að minda, Skaptafellsþíngsókn, sem liggur firir austan Breiðamerkursand, ætti þíngstað sjer, eður væri lögð til næstu þíngsóknar firir austan, og sömuleíðis Þíngeíarþíngsókn ætti annan þíngstaðinn firir austan Reíkjaheíði. Sama er að seígja um Þorskafjarðarþíng, að þar gjæti verið fleiri þíngstaðir, þó nafnið sje látið haldast. Annarstaðar ber annga nauðsin til að skipta þíngsóknum. Hvað nú viðvíkur stöðunum, er þíngin voru haldin á í firndinni, þá eru þeír nálægt miðri þíngsókninni, og optast so heppilega valdir, að ekki er kostur á að breíta þessu til batnaðar. Hvurnig ætti menn, til að minda, að ímínda sjer undir eíns fegra og haganlegra þíngstað, enn Þíngeí í Skjálfandafljóti? Það er sjálfsagt, að ekki mætti vera irkt land þar sem þíng eru haldin; því menn irði að hafa þar stúngu til búðagjörðar og útrími nokkurt firir hesta. Búast má við slík búðargjörð virðist mörgum ærinn og ónauðsinlegur kostnaðarauki, og þeír haldi, að á manntalsþíngum meígi öllu því fram koma, sem hjer er ætlað vorþíngunum; enn reínslan sínir, að manntalsþíngin, eíns og þau eru haldin víðast hvar, eru eínhvur dauflegasti fundur, þjóðarandanum miklu fremur til niðurdreps enn upplífgunar, og að alþíngismanna kosníngin t. a. m. gjæti á so fámennum þíngum með eíngu móti fram farið, so að lagi færi; enda mundi kostur, að minsta kosti firir næstu sveítirnar, að steipa saman manntalsþínginu við vorþíngið, og aukast þíngmönnum þá ekki ferðir, ef báðum þíngunum irði komið af í eínu; því þó þíngleíðin irði nokkuð leíngri og viðstaðan á þínginu, heldur enn þegar þau eru haldin í hrepp hvurjum, þá er þó varla slíkt að telja, meðan ekki er meíra enn dagleíð til þíngstaðarins; enn allir sjá, hvað síslumönnum irði gjört hægra firir, þar sem slíku irði við komið. Að öðru leíti gjæti búðargjörðin ekki orðið mjög kostnaðarsöm, ef menn hefði eínúngis í

þessu aðferð forfeðra vorra, að gjöra ifir tætturnar með tjöldum. Þirfti hjer því síður vandaðan umbúnað, sem ekki er ætlast til að hafa not þessa nema lítinn tíma einu sinni á ári. Á vorþíngum þessum ætti nú margs háttar efni að verða um hönd höfð. Þar mætti, ef til vill, semja búnaðarskírslur, framtelja fje til tíundar, ráðstafa lausafólki og gaungumönnum. Þar gjæti menn borið saman ráð sín um allt, sem til þíngsóknarinnar (síslunnar) þarfa gjæti horft í búnaðar, verslunar og hjeraðsstjórnar efnum. Þar ætti að birta öll lagaboð og auglísíngar, sem almenníngi við koma; enn sjer í lagi ætti þar að kjósa þjóðfulltrúana til lögrjettusetu á alþíngi og skipa firir um alþíngisreiðir.

Nú er að líta á, hvurjir velja meígi lögrjettumenn og hvurja til lögrjettumanna meígi taka. Virðist hjer eíga að vera aðalreglan, að láta það hvurttveggja, alþíngisnefnu og alþíngissetu, vera sem frjálsast og fæstum skilmálum bundið. Það færi varla so, þegar valið er í margra höndum, að ekki irði þeír valdir, sem líklegastir eru firir vits sakir og vilja, og slíkir eru best kjörnir til alþíngissetunnar, hvurnig sem ástatt er firir þeím að öðrum kosti. Það virðist því ekki ástæða til að meína nokkrum að taka þátt í valinu, sem t. a. m. hefir verið 5 ár við bú, og ekki nítur nie hefir notið sveítarstirks. Sama er að seígja um hvurja þá aðra, sem eru eigendur að so sem 100 dala virði í fasteígn. Í Norveígi meíga allir norskir borgarar velja fulltrúa til þjóðfundarins (stórþíngsins), sem hafa 25 ár á baki, hafa verið búsettir í landinu í 5 ár og dvelja þar, og annaðhvurt eru eða hafa verið í embættum, eður eíga, eða í meír enn 5 ár hafa haft til biggíngar, upp til sveíta jörð, sem metin er að dírleíka *(matriculeret)*, eða hafa borgarrjett í kaupstöðum, eða eíga þar eður annarstaðar við sjávarsíðu, þar sem skip leggja að til farms töku, garð eða lóð, sem ekki er minna enn 300 dala virði. Þessir

kjósa nú allir nokkra menn til fundarins, og þó fleíri, enn þíngsetu eíga; enn þeír, sem í valinu eru, hlutast aptur um sín á milli, hvurjir af þeím fara skuli, og má eínginn undan skorast, sem til er kvaddur, nema hann hafi lögleg forföll eða hann hafi verið á tveímur fundunum næstu á undan. Því heldur sem á Íslandi er meíri fátækt og minna mannval enn í Norveígi, eru líkindi til, að minna sje áskilið til alþíngisnefnu hjer enn þar. Á hvurju þíngi mundi best að hafa eína 3 menn, sem af þíngmönnum irði til kjörnir til forstöðumanna, meðan valdir eru alþíngismenn.

Nú er að víkja málinu til alþíngis. Alþíngisferðin var eínhvur mesta listisemdin feðra vorra; þeír bjuggust til hennar leíngi firir fram. Þegar menn hittust á vorin, var almennt firsta spurníngin, hvurt þeír mundi ríða til alþíngis í sumar. Allir, sem nokkurt mannsmót var að, tókust þessa ferð á hendur jafnaðarlega á ári hvurju, þó eíngin nauðsin drægi til. Menn mæltu sjer mót til alþíngisreíðar, lögðu fund með sjer á alþíngi. Kvennfólkið fór þángað, til að sína fríðleík sinn, og spjátrúngarnir þeístu þángað af skipsfjöl jafnsnart og þeír urðu landfastir, til að láta sjá fötin sín og seígja tíðindin úr útlöndum. Það var sannkallaður gleðifundur þjóðarinnar, sem öllum stóð til boða, er vildu. Enn alþíngið var líka stjórnarfundur, og að því leíti var með lögum á kveðið, nær það skildi halda og hvurnig og af hvurjum. Þeír, sem málum áttu að gjegna, skildu komnir til þíngs að fimmtudagskvöldi, þegar 10 vikur voru af sumri, eður firsta dag 11. sumarvikunnar; þíngið stóð ifir 14 daga. Goðar skildu allir koma til alþíngis að forfallalausu, og hvur goði nefna til með sjer so marga menn sem þurfti til að gjegna alþíngisstörfum af hans hendi. Enn þessi alþíngisstörf voru tvennskonar, eða: þar voru tvennskonar efni um hönd höfð; því menn áttu þar samkomur til lagasetnínga og til dómsað-

gjörða í þeím málum, er til alþíngis voru lögð; var það lögrjettan, sem hafði á hendi hið firra starfið. Staðurinn var ákveðinn, sem lögrjettuna skildi halda á; umhverfis lögrjettuna voru þrjár raðir bekkja handa þeím að sitja á, er lögum áttu að ráða. Í lögrjettunni áttu allir goðar sæti, skildu þeír sitja á miðbekkjum; enn þar eð í norðlendíngafjórðúngi voru 12 goðarnir, enn í hvurjum hinna ekki nema 9, þá skildu goðar úr þeím þremur fjórðúngunum enn taka 9 menn með sjer, eínn firir hvurt þíng, so að á miðbekkjum irði alls 48 menn, 12 menn firir fjórðúng hvurn, og að auki lögsögumaður og biskupar. Þar á ofan áttu allir þeír, sem á miðbekkjunum sátu, að kjósa til lögrjettunnar sína 2 menn hvur, til ráðaneítis sjer, annan á bekkinn firir framan sig, hinn á bak við sig. Voru þannig á hvurri bekkjaröð 48 menn, eða alls 144 menn, sem við lögrjettuna voru riðnir. Í lögunum (Grágás í Lögrjettuþætti) fer um allt þetta sofelldum orðum: "Lögrjettu skulum vjer og eíga, og hafa hjer hvurt sumar á alþíngi, og skal hún sitja í þeím stað ávallt, sem leíngi hefir verið. Þar skulu pallar þrír vera umhverfis lögrjettuna so víðir, að rúmlega meígi sitja á hvurjum þeirra fernar tilftir manna; það eru 12 menn úr fjórðúngi hvurjum, er lögrjettusetu eíga, og lögsögumaður umfram, so að þeír skulu ráða lögum og lofum; þeír skulu allir sitja á miðpalli, og þar eíga biskupar vorir rúm. Þeír 12 menn eíga lögrjettusetu úr norðlendíngafjórðúngi, sem fara með goðorð þau 12, er þar voru þá höfð, er þeír áttu þíng fjögur, enn goðar þrír í þíngi hvurju. Enn í öllum fjórðúngum öðrum, þá eíga menn þeír 9 lögrjettusetu úr fjórðúngi hvurjum, er fara með goðorð full og forn, þau er þá voru þrjú í vorþíngi hvurju, er þíng voru þrjú í fjórðúngi hvurjum þeírra þriggja; enda skulu þeír allir hafa með sjer mann eínn úr þíngi hvurju enn forna, so að þó eíguist 12 menn lögrjettusetu úr fjórðúngi hvurjum. Enn forn

goðorð norðlendínga öll eru fjórðúngi skjerð að alþíngisnefnu við full goðorð önnur öll á landi hjer. Það er og um þá menn alla, er so eiga lögrjettusetu, sem nú var tínt, að þeirra hvur á að skipa tveím mönnum í lögrjettu til umráða með sjer, öðrum firir sjer enn öðrum á bak sjer, og sínum þíngmönnum; þá verða pallar skipaðir til fulls og fernar tilftir manna á hvurjum palli." — "Þar skulu menn rjetta lög sín og gjöra nímæli, ef vilja; þar skal beiða mönnum síknuleiffa allra og sáttaleiffa þeirra allra, er einkalofs skal að beiða, og margra lofa annarra, so sem tínt er í lögum. Það skal allt metast so í lögrjettu, sem lofað sje, er eíngi maður neitir, sá er lögrjettusetu á." Lögrjettan ásamt lögsögumanni var og skild að gjefa mönnum úrlausnir, er þá greíndi á, hvað lög væri. Lögsögumaðurinn var að nokkru leíti formaður lögrjettunnar; hann skildi kalla lögrjettumenn í setur til atkvæða, þegar honum litist, og lísa því að lögbergi firir alþíðu, sem í lögrjettunni var að lögum gjört eður úrskurðað. Hjer að auki var hann skildur at útþíða lögin firir öllum, er þess leítuðu; hann skildi hafa sagt fram í almenníngs áheirn lög öll á hvurjum þremur árum, enn þáttinn um þíngsköpin eða málsfærslu aðferðina á hvurju sumri. Þessu embætti skildi hann halda í 3 ár, og mátti þá velja hann að níu. Firir starfa sinn voru honum ánöfnuð á ári 2 hundruð vaðmála og helmíngur af öllu sektafje, sem dæmt irði á alþíngi.

Hvað nú dómana áhrærir, þá átti hvur fjórðúngur landsins dómstól sinn á alþíngi, og voru það þess vegna fjórðúngsdómar kallaðir. Voru 9 menn í hvurjum þessarra dóma, er dóm skildu upp kveða; því hvur goði var skildur að nefna eínn mann til dóma firir sína hönd, er best þótti til fallinn firir vitsmuna sakir og annarra hluta. Dómarnir föru þannig fram á 4 stöðum í senn, so málum irði heldur lokið, áður þínginu sliti. Dómum þessum var ekki markaður staður, heldur átti lögsögu-

maður að seigja firir, hvar á þínginu dóma þessa skildi halda í hvurt sinn. Enn er að gjeta fimmtardómsins; hann var firir allt landið sameíginlega og var ákveðið í lögum, hvaða mál þar skildi hafa um hönd. Skildi nefna í þann dóm eínn mann firir hvurt goðorð hið forna, það er, 9 menn úr fjórðúngi hvurjum. Enn þeír goðarnir, sem fóru með ní goðorð — því með tímanum tóku menn upp fleíri goðorð eður skiptu hinum eldri í fleíri hluti —, skildu nefna eína tilftina í dóminn, so í honum irði 4 tilftir manna, 12 menn firir fjórðúng hvurn. Fimmtardóm skildi jafnan halda á sama stað, er lögrjetta var haldin.

Nú er að víkja málinu til vorra tíma; og eru þá first varla líkindi til, menn irði ófúsari til alþíngisreíða nje hefði minni ánægju af þeím nú, heldur enn í firndinni. Þær irði enn eítthvurt öflugasta meðal til að lífga upp andann og efla samheldi meðal landsmanna. Það er vonanda, að þjóðarandinn glæddist so bráðum, að það þætti ósvinna af hvurjum, sem nokkurt mannsmót er að, að hafa ekki komið á alþíng. Það var ekki orðið mikið eptir af alþínginu gamla núna á seínustu árunum firir aldamótin undir það að það var af tekið með öllu; og þó höfum vjer heírt af þeím mönnum, er á þeím árum fóru til þíngs, að þeír telja það ánægjulegustu daga æfi sinnar, sem þeír dvöldu á þínginu. Þar gjekk á sífeldri gleði og skjemtan; sumir reíndu hesta sína á eírunum við Öxará eður þreíttu fángbrögð, aðrir söfnuðust í Almannagjá til saungva; nokkrir fleíttu sjer á vatninu. Það á enn harla vel við, að Íslendíngar safnist úr öllum áttum saman á alþíngi, so sem hálfs mánaðar tíma, meðan fegurst er sumarsins, til að heíðra minníngu feðra sinna og skjemta sjer. Þó vjer búum í hörðu og afkomulitlu landi, þá er þó hamíngjunni so firir þakkanda, að vjer þurfum ekki að þrælka eíns og vinnudír, og sjá aldrei glaðan dag. Ef oss lærist að brúka tímann til erfiðis eíns og vera ber, og auka afla

vorn með því móti, þá mun flestum takast að hafa so mikið afgángs, að hann gjeti eítt nokkru til skjemtunar sjer. Þó sumarið sje stutt, þá hefir það nógar unaðsemdir á boðstólum, oss til ánægju. Hjá öllum þjóðum er það títt, að verja nokkrum kafla, meðan fegurst er sumarsins, til að skjemta sjer við náttúruna; hví skildi Íslendíngar ekki kosta kapps um það líka, þess heldur sem sumarsins hjá oss nítur skjemur við; og aldreí er tíminn betur fallinn til að ljetta sjer upp, enn eptir það vorönnum er lokið og fje rekið í afrjett, enn heíannir fara í hönd, enn eru þó ekki komnar. Þá eru veígir orðnir góðir, dagurinn fagur laungum, enn nóttin björt og stutt. Þessum tíma er hvurt sem er óvíðast varið til stritvinnu, heldur til kaupstaðaferða og slíks, þar sem ánægjan fer jöfnum fetum með nitseminni. Enn slíkum síslunum gjetur vel orðið framgeíngt, þó menn annað veífið gjöri krók á götu sína til að kinna sjer landið og innbúa þess; og er þá eínsætt, að leita þeírrar skjemtunar, sem kostur er á, so að ferðin samsvari sem best tilgánginum.

Tíminn til alþíngisstefnunnar var so haganlega afmældur af feðrum vorum, að menn ætti ekki að leífa sjer að víkja frá því, sem þar um er mælt í lögum þeírra. Eínginn annar tími má missast til alþíngisferða enn einmitt sá, sem þeir hafa á kveðið. Þessi tíminn eínn er eptir ásigkomulagi og hjargræðisefnum landsins kjörinn til slíkra síslana. Það er varla vinníngur, að komast firr til þíngsins sakir vega og hagleísis, færleiks hesta og annrikis í sveítum, og leíngur meíga menn ekki, án mesta baga, vera frá heímilum sínum, enn þángað til sláttur birjar. Það er því líklegt, allir verði samdóma í að láta þíng birja, eíns og feður vorir gjörðu, föstudaginn í 11. viku sumars og haldast í 14 daga. Af sömu rökum er og sjálfsagt, að filgja dæmi þeírra í hinu, að halda alþíngið með sama hætti og vorþíngin, á

hvurju ári. Það eína, sem móti því irði mælt, mundi vera þetta: að það sje mikill kostnaðar og ómaks auki að takast á hendur so lángar ferðir til þess að hafa ekki leíngri viðstöðu á fundinum, þegar búið er, so betra væri að láta ferðirnar bera sjaldnar að, enn staldra heldur leíngur við í hvurt sinn. Enn það er óhætt að fullirða, að ætti þessar ferðir að birja so miklu firr og burtuveran að verða so miklu leíngri, irði ferðin hálfu kostnaðarsamari, mæðulegri og bagalegri firir alla, sem búsíslan hafa í sveítum; þar sem menn að öðrum kosti gjæti verið búnir að ljúka af nauðsinlegustu störfum og heímilisaðdráttum, áður alþíngisferðin birjar, so hún irði, eíns og áður er vikið á, varla annað enn gamansför; enda innist þá því fljótar að komast þíngleíðina, þegar ekki er farið firr á stað, enn veígir leífa. Enn það er fleíra, sem mælir fram með því að hafa þíngið árlega. Menn eru hjer so afskjekktir hvur frá öðrum, að flestum alþíngismönnum hliti að verða alls ókunnug þau málefni, sem til aðkvæða þeírra eíga að koma, áður þau irði borin upp á þínginu, og mundi þá opt so til takast, að það kjæmi sjer betur að meíga hafa leíngri tíma enn hálfan eða heílan mánuð firir sjer, þegar um vandamál væri að gjöra, og væri þá minna áhorfsmál, að slá máli á frest til næsta árs, ef fundur væri hafður árlega, þar sem menn, ef leíngra væri til fundarins, irði að baka því of lánga töf með því að láta það bíða hans, enn ætti í hættu að hlaupa á sig með því að leggja á of fljótan úrskurð, ef þeír rjeði af að láta það undir eíns frá sjer fara. Aptur gjæti hinn tímann so til tekist, að þau mál bæri að hendi milli þínganna, sem ekki kjæmi vel að bíða mörg ár eptir aðgjörðum þíngmanna. Þegar þíngin eru höfð árlega, hjeldist menn og miklu heldur vakandi og legði jafnari stundun á að búa málin rækilega til þíngs, þar sem þeím hætti fremur til, þegar þíngin væri leíngra undan, að búast so við eíns og nógur væri tím-

inn. Í stuttu máli: það er oss af mörgum rökum hollara, að gjeta náð þar saman heldur optar enn sjaldnar. Það er enn, að firir því mun einnig meiga ráð gjöra, að alþíngið verði meira enn ráðssamkoma til lagasetnínga, þegar stundir líða; því meðan ekki er fleiri málum að gjegna, enn raun verður á með ári hvurju, virðist óþarfi að hafa hjer fullskipaðan ifirrjett, þar sem eigi verður annað sjeð, enn öllu meigi fram koma með einum dómara, þó meðdómendur irði að fá til í hvurt sinn, sem hægt mundi að koma til leiðar, ef dómarnir irði eptir venju feðra vorra að mesta hlutanum til látnir fara fram á alþíngi, þar sem síslumenn og aðrir lögkjænir menn eru saman komnir; enn þá er líka sjálfsagt, að alþíngið irði að halda á hvurju ári.

Það geíngur enn fremur best, að láta skipan feðra vorra óhaggaða í því, að láta 48 menn eiga sæti í lögrjettunni, eða 12 menn úr fjórðúngi hvurjum, enn 4 úr hvurju þíngi hinu forna, og að auki amtmennina, landsdómara og biskup, sem ætti að vera sjálfvaldir og skildir firir tilhlíðilega borgun að vera í hvurt sinn á þíngi að forfallalausu. Það er nauðsinlegt, að lögrjettumennirnir sje látnir vera sona margir; ef ekki mætti velja nema so sem 2 menn á hvurju hjeraðsþíngi, þá er hætt við kosníngin mundi lenda á þeím, sem mest hafa útvortis álit, og þess vegna ekki þætti meíga, og reíndar ekki ætti að gánga fram hjá — síslumanninum og eínhvurjum þeím helsta meðal presta eða annarra virðíngamanna, so að bændastjettinni irði það óánægjuefni að gjeta ekki komist að, þegar so væri á statt. Enn þegar 4 ætti að velja í einni þínghá, færi annar helmíngurinn að verða bændur, sem ekki ríður hvað minst á; því það er einn aðaltilgángurinn þínghaldsins, að alþíðunni lærist að fara að hugsa um almennings efni, og bændunum að bera skinbragð á lagasetníngar fósturjarðar sinnar. Með því verður líka fundurinn bæði tignarlegri og skjemti-

legri, að sem flest mannval landsins taki þátt í honum; enn so tekst það þó helst, að menn dragi fleira til enn skjemtunin eíngaungu, og að þeim, er síst þikir meíga án vera, sje með eínhvurjum hætti gjört að skildu að koma. Þess vegna ætti sem flest opinber málefni að vera bundin við alþíngið, so sem: málafærslur, eíns og áður er á minnst, prestastefnan, fjelagsfundir og slíkt. Það er búið við, að menn finni til mótmæla, að ef lögrjettumennirnir sjeu látnir vera sona margir, verði þíngið of kostnaðarsamt; enn það er hvurttveggja, að það á hjer að hafa í firirrúmi, sem best samsvarar tilgángi þíngsins, hvað sem kostnaðinum líður, enda virðist best fallið, að greíða ekkjert þíngfararkaup, eíns og nú er á statt. Þeím af embættismönnum, sem kjörnir irði, og laun hafa að stiðjast við, er ekki of vagsið, að fara til alþíngis nokkur ár, þó ekki taki þeír neítt í staðinn, og er það ekki meíri vorkunn nú, enn síslumönnunum var firrum að ríða til alþíngis í margar aldir, eða prestum til prestastefnunnar. Enn bændamönnum irði ekki heldur nærri eíns tilfinnanlegt, þó þeím væri gjört að skildu að fara so sem þrjár alþíngisreíðir borgunarlaust (ef þeír mætti þá vera lausir, sem þess óskaði), eíns og þeím er nú að gánga undir hreppstjórn eða önnur slík launalaus embætti, sem eínginn virðir þeím til vorkunnar nje mælir þá undan. Þó að þannig að eínn leitinu alþíðunni ætti ekki að verða mikið firir að greiða þeím mönnum þíngfararlaun, sem hún hefir valið til so áríðandi erindis, þá er það að hinu leitinu so mikill heíður að verða kosinn, að þeír, sem firir því verða og nokkur efni hafa við að stiðjast, ætti að láta sjer slikt vera nóga umbun og uppörvan til að samsvara því transti, sem þeím er auðsínt af meðbræðrum þeírra, er þá hafa kosið. Enn væri það tekið í mál, að láta almenníng hafa kostnað af alþíngi, þá irði það eínkum ferðakostnaðurinn, sem til hans ætti að ná, og bæri hann að meta eíns

og á kveðið er í Jónsbók. Ætti þá 8 menn úr Sunnudalsþingi og Kiðjafells að taka í þingfararkaup 18 aura hvur,

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| eða: | | 8 menn | | 144 aura | |
| úr Skaptárþíngi einn: 12 aura, enn þrír: 10 . . . . . | — | 4 | — | 42 | — |
| úr Ráugárþíngi fjórir: 6 aura hvur . . . . . . . . | — | 4 | — | 24 | — |
| úr Árness- og Kjalarnessþíngi átta: 4 aura hvur . . . . | — | 8 | — | 32 | — |
| úr Þverárþíngi tveír menn: 4 aura, og tveír: 5 aura . . | — | 4 | — | 18 | — |
| úr Þórnessþíngi þrír: 8 aura, og einn: 10 aura . . . . | — | 4 | — | 34 | — |
| úr Þorskafjarðarþíngi tveír: 12 aura, og aðrir tveír: 16 aura | — | 4 | — | 56 | — |
| úr Húnavatnsþíngi þrír: 7 — | — | 3 | — | 21 | — |
| úr Hegranessþíngi þrír: 8 — | — | 3 | — | 24 | — |
| úr Vöðlaþíngi þrír: 10 — | — | 3 | — | 30 | — |
| úr Þíngeíarþíngi þrír: 12 — | — | 3 | — | 36 | — |
| | samtals: | | | 461 eírir. | |

Það eru 23 hundruð á landsvísu og 1 eírir betur, það er 368 dalir liðuglega, ef hvurt hundrað er metið 16 dali. Það er sjálfsagt, að þetta irði að meta til jafnaðar niður á allt landið, heldur enn láta hvurja þínghá hafa kostnaðinn af sínum þíngmönnum, sem irði ollanda miklum ójöfnuði í þessum útgjöldum, þar sem 2 austustu þíngin — báðar Múlasíslurnar — ætti að bera eín nærfellt þriðjúng þessa kostnaðar, af því so vill til, að þaðan er örðugast að sækja þíngið. Að greíða mönnum fæðslulaun að auki, meðan dvalið er á þínginu, virðist því síður brín nauðsin, sem menn verða alstaðar að fæða sig; enn enda þó 48 mönnum væri ánafnaður 1 dalur á dag í þá 14 daga, sem dvalið er á þíngi, irði það þó ekki nema 672 dalir alls. Ef mönnum skildi nú, sem vonanda er, lítast að taka af meðdómenda embættin í

landsdóminum, þegar þessi embætti losna, þá er enn ærinn afgángur að þessu frá dreígnn, þó ekki væri varið nema launum annars embættisins til alþíngis þarfa; og það er undir þessu eínu skilirði, að vjer óskum, að alþíngismönnum sjeu goldin fæðslulaun. Enn þó ferða og fæðslu laun sjeu saman lögð, irði það þó hvurttveggja, eptir því sem áður er sínt, ekki nema 1040 dalir, og þannig minna, þó 48 sæti í lögrjettu, enn núna er kostað upp á 10 manna nefndina í Reíkjavík. Þess er enn að gjæta, að þíngfararkaupið, sem í Jónsbók er ánafnað og reindar er ifirfljótanlegt til ferðakostnaðar fram og aptur, kjemst þó ekki nema til 368 dala á ári, og meíri gjæti því með aungu móti sparnaðurinn orðið í því að halda þíngið ekki nema annaðhvurt ár; enn slíkur sparnaður, sem þannig ekki irði við komið nema það árið, sem þíngið væri ekki haldið, og með þeím hætti ekki eínu sinni hlífir landinu firir tveím hundruð dölum á ári, er að eíngu virðandi, þegar hann ríður í bága við það, sem so miklu meíra varðar, að þíngið irði haldið árlega.

Af því, sem hjer að framan hefir sagt verið, virðist ráða meíga, að ekki sje mikil vandkvæði á, að laga hið nía þíngið eptir hinu eldra í flestum hlutum, eíns og konúngsins vilji er til. Nú er eptir að líta á, hvar alþíng eígi að vera. Það hefir verið geíngið að því eíns og sjálfsögðu í því, sem á undan er komið, að alþíngið irði haft á sama stað og firrum; konúngurinn hefir berlega látið í ljósi þann vilja sinn; þjóðin óskar þess; það er hvurgi með minni vankvæðum að halda þíngið; með aungum stað mælir annað eíns fram til þess. Alþíng og Þíngvellir er so samgróið í hugum manna, að það verður varla að skilið. Þó tekin væri nokkur hundruð atkvæði, þeírra sem mest mark er að um allt landið, irði trautt eínn af tíu, sem væri með því að láta þíngið vera annarstaðar. Alþíng var tekið af firir 40 árum eíns og kunnugt er; enn mentuninni hefir

síðan farið það fram, að þetta verk er aptur gjört ónitt; því það er gagnstætt eðli náttúrunnar, að Ísland gjeti verið alþíngislaust. Þó að menn rjeði nú af, að setja alþíng einhvurstaðar annarstaðar enn á Þíngvöllum, þá gjetur sú ráðstöfun ekki heldur átt sjer aldur. Það er eins fjarstætt þeirri áttinni, sem öll mentun stefnir í, að alþíng gjeti verið annarstaðar enn á Þíngvöllum; því virðíngin firir niðurskipunum feðra vorra, einkum þeim, sem sona mikið vit er í, eikst að sama skapi og mentunin, og hún nemur hjer ekki staðar firr enn alþíngi er hrundið í gamla horfið aptur, og til þessarra framfara þarf að hafa tillit þegar alþíng er smíðað að níu. Það hefir aldrei leikið tvímæli á því, að staðurinn, sem alþíng var haldið á, sje sá lánghaganlegasti til slíkrar ákvörðunar, sem til sje í öllu landinu. Allt vort stjórnarlíf og tilvera er og verður jafnan riðið við þjóðfundinn á Þíngvöllum og endurminníng hans. Allt sem ekki er af þeirri rót sprottið, allt sem ekki á skilt við hið forna þíngið, verður þjóð vorri eins og útlent og fjarstætt, og sætir ekki afskiptum hennar nje athigli, samsvarar ekki gjeði hennar. Þetta er so umvarðanda, að það, eptir vorri innilegustu sannfæríngu, er hið sama, að flitja alþíng burt frá Þíngvöllum, og að aftaka það gjörsamlega; og ef tíu manna nefndin skildi ráða til að flitja alþíng frá Þíngvöllum, þá vildum vjer helst henni litist að mælast til, að vjer feíngjum að eiga þíngið sjálft í salti líka, þar til þeir menn rísa upp, sem ekki verða vandræði úr að halda það á Þíngvöllum, so það verði ekki kjennt þjóðinni nje haft til marks um óhæfilegleika hennar til alls, sem samheldi, vit og vilja útheimtir, að þíngið varð ávagslarlaust og sætti ekki athigli vorri — þegar það þó reíndar, eins og so margt annað, sem hjer er á stofn sett, var hinu að kjenna, að því, firir mistök þeirra sem grundvöllinn lögðu, var ekki so higgilega firir komið í

öndverðu, að það gjæti borið þá heíllaríku ávögstu, sem til var ætlað *).

Vjer firirverðum oss nærri því að minnast þess, að aðalástæðurnar gjegn alþíngishaldinu á Þíngvöllum eru teknar af mat og annarri þessháttar líkamlegri aðbúð. Jeg held okkur verði kalt — seígja þeír — þegar við eígum að fara að liggja í tjöldum; jeg held nestið okkar fari að verða ólistugt um það leíti úti er þíngið, og við verðum óhollir, ef við eígum að drekka blátt vatnið úr henni Öxará. Enn gjetum vjer þá ekki biggt oss hús, ef tjaldveran gjeðjast oss ekki? gjeta menn ekki látið matbúa handa sjer eíllhvað, sem gjeti runnið niður, þó menn sjen á Þíngvöllum. Það væri staklegt og heldur ófagurt til frásagna, ef vjer værum upp úr því vagsnir eða ófærir til að lifa við sömu háttu eíns og feður vorir í 800 ár þar til firir 40 árum. Ætti alþíng samt að vera eíntómur höfðingjafundur, sem landsfólkið tæki eíngan þátt í og hefði ekkjert af að seígja (og hvur mundi dirfast að nefna slíkt alþíng?) og hvur meðlimur (eíns og núna tíu manna nefndin) tæki 4 dali í fæðslulaun um daginn og drjúgan ferðakostnað að auk, þá væri ekki

*) Eínhvur kinni að láta sjer um munn fara, að þar sem þíngið sje, þar sje líka Þíngvellir; og kjemur oss þá til hugar það sem menn báru firir, þegar páfinn flutti sig búferlum til *Avignon* forðum: að þar sem páfinn væri, þar væri Róm (ubi papa, ibi Roma); enn það reíndist á annan veg. Páfadírðin var að eínu leítinu allt af bundin við kirkjurnar og annað, sem hvurgi var að finna nema í Rómaborg (þar sem hún hafði fæðst og dafnað), til að gjeta lifað annarstaðar; endа var hinu útlendi nadinu, sem ríkti umhverfis páfana á Frakklandi, nógur til þess, að honum eínhvurneíginn varð ekki að veígi að fara eptir eðli sínu, so hann hefir aldreí beðið bætur flutníngsins. Lögrjetta og og lögberg er of samvagsið alþíngi til þess það gjeti þrifist annarstaðar, enn á Þíngvöllum, og Reíkjavíkur andinn, enn sem komið er, of gagnstæður þjóðerni Íslendínga til þess alþíng gjeti verið þar í eðli sínu.

skoðunarmál að hafa slíkan fund í Reíkjavík. Enn öðru máli er að gjegna, þegar miðað er til að láta það vera þjóðfund; og mælir það undir eíns með Þíngvöllum, sem margir hafa síst hugsað, að hann irði þar miklu kostnaðarminni að öllu samtöldu. Ber first til þess, að þángað er tveimur dagleíðum skjemmra firir nærri því alla, sem þíngið ætti að sækja, og er það ærinn sparnaður á tíma og ferðakostnaði. Það er annað, að hægð er á að nota Mosfellsheíði firir hesta sína, þar sem flestir þekkja, hvað ervitt og kostnaðarsamt er með hesta umhverfis Reíkjavík, enda þó þeír væri sendir allar götur upp í Mosfellssveít. Sama er að seígja um fæði og aðbúnað. Hinir heíllaríku ávegstir frelsisins koma í öllu í ljós á Þíngvöllum, þar sem Reikjavík er alstaðar gagnstætt farið. Það irði tekið til þess, ef þíngmenn lægi í tjöldum á Austurvelli, þar sem ekki irði tekið til þess á Þíngvelli; því Reikjavíkíngar hafa eíns og aðrir opt leigið þar í tjöldum sjálfir. Á Þíngvöllum tekur eínginn til, þó menn lífi við það, sem þeír hafa búið sig út með að heíman eða gjeta feíngið sjer. Í Reíkjavík verður sá littur, sem ekki hefir borð og gistíng í bænum; í stuttu máli: á Þíngvöllum gjetur hvur ámælislaust hagað sjer í þessu eíns og hann er lindur; í Reíkjavík verður að fara sömu leíð, og lenska er í bænum. Kostnaðurinn gjetur því á Þíngvöllum orðið miklu minni, ef menn so vilja, þar sem í Reíkjavík aungri slíkri spörun verður við komið, og þar að auki margt annað lokkar þar til meíri eíðslu, enn sumra efnum mundi haga. Hjer að auk er að gjætanda, að alþíng irði haldíð, þegar blíðast er sumars, og er þá síst þörf á vönduðum húsakinnum; alþíngisferðina er að nokkru leiti að álíta eíns og skógför *(Skovtour)* í öðrum löndum, og eínginn horfir þá í að slá upp tjöldum handa sjer. Þó er það ekki ætlan vor, að þíngmenn mundi liggja í tjöldum, þó alþíng væri á Þíngvöllum; enn slíkt

er hlutur, sem einginn þarf að skipta sjer af; því firr enn varir er einhvur þíngháin sjálfkrafa búin að reísa sjer búð, og aðrar koma þá brátt á eptir, þángað til hvur þíngsókn á sína búð, og hvur kjeppist við aðra að láta sína búð ekki verða stóri nje óhaganlegri enn hinna; og virðist þetta betra ráð, þar eð öllu verður framgeíngt af sjálfu sjer, *þó það sje látið mönnum í sjálfsvaldi*, enn að þraungva öllum þíngheíminum til að biggja saman eítt hús þeím mun stærra, sem allir gjæti verið í; enda á hvurri þíngsókn að vera frjálst að eíga það við sjálfa sig, hvurt hún vill eíga búðarrúm á alþíngi eða ekki. Enn að vísu irði að opinberri tilhlutan að biggja hús sjer í lagi handa ifirvaldsmönnum, sem sjálfvaldir eru til þíngsins; enn auk þess, sem varla irði komist hjá að reísa hús, til að halda þíngið í, í Reíkjavík heldur, þá er slíkur kostnaður eínu sinni, ekki teljandi í samanburði við þann sparnað, sem koma má við á Þíngvöllum í samanburði við Reíkjavík — það því heldur, sem hægt er með lítilli firirhöfn að koma þángað viðum, meðan menn um lestatímann eru í útvegum sínum um nesin og í kaupstaðnum, enn áburðarhestar og vinnumenn bíða eptir þeím. Að öðru leíti virðist Þíngvallakirkju meígi hlíta til að halda fundinn í; því það er auðvitað, að hana mætti með efnum sjálfrar hennar biggja eíns snoturlega og hvurja aðra smákirkju. Ekki er heldur firir tekið, að menn gjæti gjört sjer til góða, þó þíngið sje á Þíngvöllum. Dæmi hinna firri manna eru ljós vottur þess, að mönnum urðu ekki vandræði úr að halda þar stórveíslur, þegar þeím bauð so við að horfa; og sú mundi raunin enn á verða, að hvur og eínn ætti kost á að gjöra sjer þar til góða eptir velþóknan, og að sumir nennti ekki að hlífast við það, þó allt væri látið mönnum í sjálfsvaldi.

Menn hafa enn borið í vænginn, að á Þíngvöllum vanti bækur allar og skjöl, sem á þurfi að halda; og er

þessi ástæða til marks um það, hvað óvandir menn eru að ástæðum, þegar þeír eru að gjöra sjer far um að finna örðugleika á öllu, sem ekki er eptir gjeði sjálfra þeírra — eíns og vandi sje á því firir þíngmenn, annaðhvurt að koma sjer saman um, hvurjar bækur, sem helst þarf við, sjerhvur þeírra skuli taka með sjer til þíngs í ferðakistum sínum, eða þá að nálgast frá Reíkjavík á so sem eínum hesti það, sem menn gjeta síst án verið; enda stendur alþíng ekki mörg árin so, að því ekki innhendist slíkar bækur, sem helst þarf á að halda, meðan á þíngi stendur, enn þíngmenn eptir samkomulagi meígi taka heím með sjer að þínglausnum í hvurt sinn, enn skila aptur á næsta þíngi; og er það eínn kostur alþíngis, að það með slíkum hætti gjetur orðið meðal til útbreíðslu allskonar fróðleíks um landið. Hvað nú skjölunum við víkur, þá að því slepptu, sem norður- og vestur- og austur-umdæmin irði að fara á mis við þá hagsmuni, sem Reíkjavík í þessu tilliti hefir fram ifir Þíngvöllu, þá irði sjálfsagt stöðugt samneíti meðal Reíkjavíkur og alþíngis meðan á þíngi stendur, og er þá kostur að nálgast af slíku það sem helst þirfti við. Dönsku stjórninni hefir þóknast að velja Hróarskjeldu til fulltrúasamkomunnar hjá sjer, heldur enn Kaupmannahöfn, þó höfuðborg ríkisins virðist í þessu og mörgu öðru tilliti betur til þess fallin, því heldur sem so margir af fulltrúunum eíga þar heima, og þirfti þá eí sökum þíngsins að ifirgjefa störf sín og embætti; enn Hróarskjelda og Vebjörg hafa að því leíti lítinn keím af alþíngi, að það eru nafutoguðustu staðirnir í fornsögu þjóðarinnar, og því hefir stjórninni litist þeír best fallnir til slíkrar brúknnar, þar sem á því stóð mest að vekja þjóðarandann, hvað sem öðru liði; þar er og betra næði enn í Kaupmannahöfn. Sama er að seígja um Þíngvöllu, að menn eru þar út af firir sig með þínghaldið, þar sem hvurgi er ónæðissamara enn um sama mund í Reíkjavík. Þar

er líka eíns og í öllum kaupstöðum um sumartímann miklu leíðinlegra og dauflegra enn til sveíta; þar sem að hinu leítinu Þíngvellir eru eínhvur viðfeldnasti og skjemtilegasti staður í sveít, og fara Reíkjavíkíngar opt þángað til skjemtunar sjer; og væri Ísland undir blíðara himni, þar sem auðlegð náttúrunnar er meíri, þá skildi sú hafa raun á orðið, að innbúar höfuðstaðarins hefði eínmitt biggt sjer listigarða hjá Þíngvallavatni — eíns og Maílandsbúar við Comovatnið eða Stóra sjó (*Lago maggiore*) — og setið þar á sumrum og skjemt sjer við unaðsemdir náttúrunnar, meðan óskjemtilegast er í borgunum.

Enn hvað sem nú þeím ástæðum líður, sem teknar eru af kostnaðinum og öðru slíku, þá er sú ástæðan eptir, sem eín saman nægir til að hrinda öllum öðrum, og vegur því meíra hjá hvurri þjóð, sem hún er betur mentuð; það er hinn andleígi krapturinn, sem samfara er þeím stöðum, sem eíns hagar til eíns og á Íslandi staðnum þeím, sem alþíng var haldið á, í samanburði við aðra staði, eínkum þá, sem þjóðandanum eru hvað gagnstæðilegastir. Vjer þekkjum ekki annað líklegra til þess, að ávegstir alþíngisins irði eínmitt gagnstæðir tilgánginum, sem með því er hafður — ekki annað líklegra til að útríma þjóðerni voru, sem því er ætlað að efla, enn að hafa það í Reíkjavík. Reíkjavík er enn — því er miður — lángt fra því, sem hún á að vera. Hvurnig eíga Íslendíngar, þegar til allra er litið (því hjer stoðar ekki að fara eptir áliti þeírra eínna, sem eíga heíma í Gullbríngusíslu, eða þeírra, sem kunníngja eíga í Reíkjavík, og samríndir eru háttum Dana) — hvurnig eíga þeír að finna sig öðruvísi enn útlenda, þar sem varla er nema annaðhvurt orð íslenska, sem talað er, þar sem mikill hluti innbúa telst eíga heímili í Danmörku, og íslenskir siðir eru mörgum til ásteítíngar, enn útlendir siðir hafa ilirborðið? Það þarf

ekki annað, enn gjefa gætur að, hvað litið verður úr mörgum sveítamanni, sem jafnvel mest á undir sjer, þegar hann kjemur fram firir kaupmanninn, til þess af því verði ráðið, að Íslendíngar enn þá ekki eru í eðli sínu, þegar þeír eru í flokki útlendra, sem þeir hafa inndrukkið með móðurmjólkinni að álíta meíri sjer, so þeím verður nærri því ósjálfrátt að hlíða boði þeírra og banni. Þjóðarandinn liggur niðri birgður og firirverður sig þar sem hið útlenda sniðið, sem meíra hefir ifirlæti, er þannig drottnanda. Það er ekki gjefið nema fáeínum, sem bæði kunna dönsku og eru kunnugir háttum Dana, að gjeta samlagað sig slíku; hinir finna, að þeím er hjer með öllu ofaukið; þeír finna hjer ekkjert, sem samsvarar tilfinníngum þeírra; andagiptin, sem þeír báru í brjósti, dofnar, þegar þeír verða ekki varir hennar hjá öðrum. Sannfæríng sjálfra þeírra veíkist, virðing firir því, er þeím var heílagt, fer mínkandi, þegar þeír heíra það gjört almennilegt af þeim, sem þeír álíta vitrari sjálfum sjer. Óánægðir með sjálfa sig og aðferð sína, óánægðir með erindi sitt, grátandi ifir borginni, aumir ifir efnum ættjarðar sinnar og hriggir í anda, af því hin sæla von er horfin að gjeta stutt mál hennar, snúa þeír aptur heimleíðis af slíku þíngi í vonarleísi, með þeím ásetníngi, að koma þángað aldreí framar. Þetta eru andlegu ávegstirnir, sem Reíkjavík leíðir í ljós á fulltrúunum. Smátt og smátt tínast menn úr og hætta að koma, þar til ekki eru eptir nema fáeínir menn, og er slíkur þjóðfundur verri enn ekkjert. Á alþíngisstaðnum gamla fer þessu gagnstætt, þar sem eígi að eíns öllu er vikið burt, sem fjötrar andann, heldur að hinn leítinu allt eínmitt lagað til að leísa fjötur hans. Þar eru Íslendíngar first heíma hjá sjer; andi feðra vorra kjemur ifir þá og leggur þeím orð í munn, og gjefur orðunum krapt. Hann á ekki að gjöra annað, alþíngisfulltrúinn, enn það sem stjettarbræður hans hafa gjört, og hann kjeppist við að verða

ekki þeirra eptirbátur. Hann á ekki að grenslast um annað enn það, sem hann lángar til að komast niður á hvurt sem er; hann á ekki að grenslast um annað enn gagn og nauðsinjar landsins og að gjöra frumvarp til laga þar eptir; og hann geíngur til þessarrar iðju með gleði og trausti og ættjörðin verður honum því kjærari, sem hann lærir hana betur að þekkja. Sá má vera gjörður af steíni eða orðinn að steíni, sem ekki finnur lifna hjá sjer meíri andagipt enn annarstaðar, þegar hann stendur í sporum feðra vorra á alþíngi og rennir huga ifir það, sem þar hefir fram farið niður eptir öldunum; og Ísland gjetur ekki haft þann leíngur í tölu barna sinna, sem er so ólíkt skapi farinn, að hann af tilfinníngarleísi eða algjörðri firirlitníngu lítur ekki við þeim staðnum, sem það í fátækt sinni og eímd telur sjer helst sóma og gleði að og er þess sælasta endurminníng. Alþíngisstaðurinn gamli hefir meíra til að vera í lotníngu hjá Íslendíngum, enn nokkur annar staður, sem þjóðhelgi hefir haft hjá nokkurri þjóð nokkurn tíma nokkurstaðar í veröldinni. Hvurki *Pnyx* nje *Areopagus* nje *Forum* komast til jafnaðar við alþíngið Íslendínga og lögrjettuna og lögberg, í að vera eíns sameínað tilveru þjóðar sinnar allt af, meðan hún var til, og með því ætti alþíng að vera orðið slíkur þjóð-helgidómur þessa lands, að eíngin *manus sacrilega**) skildi

*) Þetta er eínmitt orðið, sem Henderson brúkar, þar sem líkt stendur á. Það er auðsjeð, að hann hefir skorist í hjarta af því, að sjá Íslendínga troða það undir fótum, sem þeím átti öllu fremur að vera lotníngarvert og heílagt. Við því var líka að búast, þar sem hann hefir sjeð firir sjer hjá hinni miklu þjóðinni, sem hann var sjálfur af, hvursu að menn af lotníngu firir háttum feðranna, sem venjan er búin að helga so að öldum skiptir, enn þá, þegar ímisleg opinber málefni eru um hönd höfð, ífærast gamaldags búníngi, til að gjefa sjer fornaldarsnið, og setja upp lokkaparruk, sem annarstaðar ekki eru að líta nema á gömlum upp-

dirfast að smána so anda forfeðranna, að svipta það þeírri virðíngu og brúkun á ókomnu tímunum, sem það hefir verið að njótanda híngað til. Þau 40 árin, sem alþíng lá niðri, verða í sögu vorri firir alda og óborna eptirtektavert minnismerki þeírra tímanna, þegar Íslendíngar urðu hvað ólíkastir sjálfum sjer og því, sem þeír áttu að vera, ekki ósvipað þeím tímum, sem Ísraels börn eíddu á ráfi um Sínaí eíðimerkur, meðan sú kinslóðin var að vagsa upp, sem hentugri var og verðugri til að taka land sitt til eígnar. Það er vonanda, að sá tíminn sje nú kominn firir Íslendíngum líka, að þeír sjeu færir um að fara að hafa afskipti af landi sjálfra þeirra; það er vonanda, að þeím sje, senn hvað líður, so fram farið, að þeír ekki framar gjegn allra tíma reínslu og eðli-náttúrunnar láti sig litlu varða þá ifirburði, þegar litið er til liðnu tímanna, sem Þíngvellir hafa til alþíngissetu fram ifir sjerhvurn annan blett í landinu, nje þann andlega kraptinn, sem slíkum ifirburðum er samfara, og að þeír flani ekki að því, að víkja frá þeírri skipan feðra vorra, sem hefir hærra aldur að bera firir sig enn, ef til vill, nokkur önnur mannleg skipan í nokkru landi; það er vonanda, að vjer höfum ekki í síðustu 40 ár gjörst so ólíkir sjálfum oss, að vjer höfum nú eíngin ráð með að nota þann staðinn til þínghalds, sem feður vorir hafa álitið best til þess fallinn nærfelt 900 samfleítt ár á undan. Eða skildum vjer vera so tilfinníngarlausir og skilníngslausir fremur öllum siðuðum mönnum, að komast ekki við með stökum hætti á þeím stað, sem verið hefir samkomustaður allra landsins vitrustu og bestu manna um allar þær aldir, sem

drættum, án tillits til, þó föt þeírra verði opt illa út leíkin af því, sem borið hefir verið í lokkana; hvursu þeír til þessa hafa látið málstofur sínar vera litlar og auðvirðilegar af virðíngu firir aldri þeírra o. s. fr.; og er slíkra þjóða dæmi fallið til íhugunar og eptirbreítni.

landíð hefir verið biggt, þar sem lög þess hafa verið saman tekin og dómar þess hafa fram farið, þaðan sem sá andi og þau verk eru að miklu leíti út geíngin, sem síðan hefir verið og um alla ókomna tíma verður að ágætum haft. Og þegar nú hjer við bætist, að þessum sama stað filgja fleíri útvortis hagsmunir til slíkrar brúkunar, enn nokkrum öðrum, þá er óhætt að fullirða, hvað sem tíu manna nefndin leggur til, að so leíngi sem landið biggist, þá verður vilji og innilegasta saunfæríng íslensku þjóðarinnar ætíð sú, að þjóðfundur Íslendínga eígi að vera umhverfis lögbergið forna, eða hvurgi annars kostar.

Vjer kveðjum alla þá, sem tilfinníngar hafa í brjósti, til að bera um, hvurt þessum hugleíðíngum verði hrundið með matarástæðum eínum; enn hvað sem því líður, þá gjæti það ekki orðið kallað alþíng, þó nokkrir menn kjæmi saman til ráðagjerðar í Reíkjavík. Orðið "alþíng" hefir nú eínu sinni þá merkíng í málinu, sem öllum er ljós, so það verður hjeðan af ekki rjettilega haft um neítt annað, enn þjóðfundinn á Þíngvöllum. Konúngsins vilja er þá og í þessu tilliti traðkað, hvar sem þíngið er látið vera annarstaðar.

Að endíngu ber að víkja fám orðum til þeírra, ef nokkrir eru, sem annaðhvurt ekki skilja í, hvað mikið sje varið í þessa gjöf konúngsins, að veíta oss alþíng aptur, eða óttast, að vjer höfum ekki vit til að færa oss það í nit. Hið firra mundi helst meíga heíra á þeím, sem eínfaldastir eru, og mætti þeím helst verða þetta skiljanlegt með því að setja sjer firir sjónir, að konúngurinn með slíku móti gjefur reíndar þjóðinni þjóðarrjettindi og þátt í stjórninni með sjer, eða gjörir hana að ráðgjafa sínum. Konúngurinn vill ekki leíngur vera eíns og stráugur hússbóndi, sem rekur hjú sín áfram, nauðug viljug, eptir sjálfs síns þótta. Hann vill first af öllu vita, hvað hjúum sínum sje helst að skapi, og verður first og fremst með því samfjelagið

ástúðlegra; enn það er annað, að hjúinu er jafntramt því gjefið meíra frjálsræði og stærri upphvatníng til að grennslast um, hvað sjálfu því og undir eíns húsbóndanum sje hollast; og af hvurutveggja leíðir, að því með meíri áreínslu verði meíri framfara auðið. Þegar menn eru farnir að setja sjer lög sjálfir, vita þeír, hvursu á lögunum stendur, og þeím veítir því auðveldara að lifa eptir þeím, sem þeím er kunnugra um, hvað nauðsinleg þau eru; enda eíga þau lögin lanngum betur við, sem menn búa sjer til sjálfir, og verða því betur lögnð til að efla almeníngs heíllir. Menn fara að hefja hugann, þegar so er komið; þeír þjóna ekki leíngur af nauðúng, heldur af frjálsum vilja; þeír eru ekki framar eíns og vinnumenn, sem verða að þola það sem á þá er lagt, heldur líka sem farnir að eíga með sig sjálfir; og þegar mönnum hefir lærst að haga sjer eíns og vera á, er þeím eðlilegt að taka slíkri breítíngu á högum sínum með fögnuði og þökkum; því eíngin mannleg eígn er dírmætari nje affarasælli, enn frelsið, hvurrar tegundar sem er, og það jafnt firir eínstaka menn sem heílar þjóðir.

Enn til eru aðrir — og eru það eínkum þeír, sem vitrari eru taldir —, sem eru kvíðandi firir því, að Íslendíngar beri ekki vitsmuni til að hafa not alþíngis, telja landinu hollara, að fáeínir menn, sem kjænastir eru í lögum, eígi öðru hvurju samfundi til ráðagjerðar. Enn þegar að því má vísu gánga, að slíkir menn irði allir tíndir upp, þó almenníngur ætti alþíngismenn að velja, þá er ekki gott að skilja í, að þessir sömu menn væri verr farnir firir það, þó fleírum væri hætt við flokk þeírra, sem líklegastir þætti; því hvurki þarf að gjöra ráð firir, að aðrir irði kosnir til þíngfarar enn þeír, sem helst væri vit í meðal þeírra, sem til boða stæði, nje heldur, að hinir óvitrari bæri so hina vitrari ofurliða á sjálfu þínginu, að það irði ofan á, sem óskinsamlegra

væri. Enn ímindi menn sjer, þegar á allt er litið, að Íslendíngar sjeu ófærir til að gjefa sjálfum sjer lög, þá eru slíkt missíníngar. Það gildir eína hvaða þjóð tekin er — eíngin þjóð er so einföld, að hún sje ekki fær um að setja sjálfri sjer þau lög, sem eígi við þarfir hennar og mentunarástand; og slíkum lögum er það betur gjefið, enn öðrum, sem koma aðvífandi, að þau eru aldreí sett firr enn nauðsin dregur til, og þau leggja því ekkjert band á frjálsræði manna að óþörfu; enda er þá ekki hætt við, að lögin verði lángt firir ofan þarfir og lífernísháttu þjóðarinnar, sem þau eru búin til handa, eíns og þegar þau ætlast til meíri mentunar, enn þjóðin er búin að ná, og verða þess vegna, eíns og annað sem hvurgi á við, að so vögsnu máli til meíra ógagns enn nota. Verslunarlöggjöf Íslendínga nú á tímum er mestöll með þessum annmarka, og ber það ljóslega með sjer, að hún er komin aðvífandi og ekki samin á þjóðfundi Íslendínga. Meðan landið átti með sig sjálft, var verslun Íslendínga í blóma, enn þeir höfðu líka skinbragð á að binda hana ekki fleíri laga ákvörðunum, enn lesa má í Grágás. Munurinn þá og nú er ekki annar, enn að menn þá ljetu verslunina skapa verslunarlögin eíns og kríngumstæðurnar og reínslan kjenndi þeím; núna eru lögin látin skapa verslunina og halda henni í fjötrum, so hún gjetur ekki leítt í ljós þá ávögstu, sem henni eru eðlileígir. Sama er að seígja um margt annað: menn ætla sjer að umskapa landið með tómum laga ákvörðunum, enn þessi lög hafa híngað til verið sprottin mest af útlendri rót og tekin af ásigkomulagi þeírrar þjóðar, sem oss er í mörgu ólík að háttum, og stendur hærra enn vjer í mentun og kunnáttu. Löggjefendur vorir hafa optast verið so niður sokknir í lög Danaríkis, að þeír hafa varla litið til hægri nje vinstri handar — hvurki til Íslands nje þess er tíðkast í öðrum löndum. Það er því ekki eínfeldni Íslendínga, heldur þessi hinn mikli

skilníngur á löggjöf Dana, sem "ærir menn". Enn skildi samt þíngmönnum verða það af vankunnáttu að hlaupa á sig, sem ekki er firir að sinja, þá er af slíku eíngin skaða von; því stjórnin hefir ætíð frjálsar hendur að nota það eítt af tillögum þeírra, sem á góðum rökum er biggt; enda eru slík glappaskot, sem öllum mönnum verða, meíra eða minna, besta uppörvan til þess þeím lærist að gjæta sín betur, og með þeím hætti eítt með fleíra til að flíta framförunum.

## HUGVEKJA

um þínglýsíngar, jarðakaup, veðsetníngar og peníngabrúkun á Íslandi, samin og gjefin út af J. Johnsen, assessóri í hinum konúnglega, íslenska landsifirrjetti. Kbh. 1840. 268 blss. 8.

Firir einum mannsaldri var ekki sjaldgjæft, að helstu embættismenn landsins fræddu almenníng með ritgjörðum. Fjelagsritin eru auk margra annarru til marks um þetta. Amtmenn, lögmenn, biskupar kjepptust hvurjir við aðra að gjöra kunna reinslu sína og uppgötvanir viðvíkjandi bjargræðisefnum landsins og margsháttar vísindum, er þeim láu næst eða voru kunnugust. Seinni hlutinn átjándu aldar verður þess vegna, eins og í so mörgu öðru tilliti, næsta eptirtektaverður kafli í Íslands bókmentasögu, að þá komu fleiri, margbreittari og lærdómsríkari rit á gáng, enn nokkurntíma á jafnlaungu tímabili áður eða síðan. Þá er líka helst góðs að von, þegar slíkir menn leggjast á eitt, er bæði má ætla mest vit og djúpsærasta þekkíngu á efnum landsins, er þeir hafa mest tækifæri og upphvörvan til að verða ástandi þess kunnugir, og ekki síst góðan vilja á að efla heillir þess. Því er miður, að menn, eptir ávögstunum að dæma, hafa hugsað færra síðan. Það er orðið nístárlegt að sjá ritgjördir á prenti eptir þá mennina, sem helst ætti að láta til sín heira, og þessvegna er það góðs viti, að assessor í landsifirrjettinum, herra J. Johnsen, hefir samið og látið á prent gánga nefnda ritgjörð, er kjemur við margskonar efni, sem landinu eru umvarðandi; því það fer aldrei hjá því, að þesskonar rit leiði í ljós eitt og annað, sem áður var flestum

ókunnaugt, og bríui firir mönnum mörg holl sannindi, enda veki athigli á mörgu, sem þörf er á, að betur sje athugað.

Bókinni er skipt í 11 þáttu. Þegar höfundurinn hefir í formálanum gjört greín firir tilgángi og efni bókarinnar, er í 1. þættinum vikið á, að vanþekkíngin hafi verið og sje enn, eíns og allir kannast við, með margvíslegum hætti til hnekkis framför vorri. Að síðustu er þessu vikið til peníngabrúkunar manna hjá oss, ag þá í öðrum þættinum rakin löggjöf um veðsetníngar, og henni gjefin sök á, að slíku hefir so leíngi fram farið. Í þriðja þætti er útlistnð eðli veðsetníngaana, og hvursu þeim verði til leíðar komið eptir aíustu löggjöf vorri. Þá eru í næsta þætti borin samaa jarðakaup og veðsetníagar, og sagt nokkuð frá þjóðjarðasölunni í landi hjer. Í fimmta þætti er litið á röksemdir, sem menn hafi firir, að meta meíra jarðakaup enn veðsetníagar; þar er og margt sagt um leígusölu jarða, kjör leíguliða og s. fr. Í næsta þætti er sínt með dæmum nokkrum, hvaða gagn meígi hafa af jörðum, þegar rjett er með farið og peníngum er varið til jarðaræktunar, og þá enn í 7. þættinum, að það sje með mörgum öðrum hætti, að sjálfseígnin sje betri, enn leígubrúkunin. Áttandi þátturinn áhrærir fje ómiadugra og opinberra stiptana, sem nær sje að bjóða mönnum til láns mót veði í fasteígnum til og frá um landið, enn að sánka því í jarðabóknrsjóðinn konúngsfjárhirslunni til þíngsla. Þá er enn í 9. þætti leítast við að sína, að veðskuldabrief sjen enn með mörgu móti eígönduanm til meíri nota, enn leígujarðir; og í tíunda þættinum er kjennt, hvursu afsals- og veðskuldabrief firir jörðum, framsölubrief og kvittanir vera eígi.

Jeg leíði hjá mjer að fara fleírum orðum um efni þessi; því eg vona, að flestir sem gjeta, eígnist og kinni sjer bókina sjálfa. Þess hefði verið óskanda, að höfundurinn hefði haldið leíngra áfram og bætt hjer við útvísun um "lánssamlög, sparnaðarsjóðu, þjóðbánka og konúngs skuldabrief", eíns og honum hefir til hugar komið; enn first því varð ekki við komið að þessu sinni, vegna þess bókin hefði þá vagsið um of, þá vonast menn til, að hann við firstu hentugleíka minnist ádráttar síns um þetta, því eínginn dilst við, að það sjeu efni, sem almenníngi eru næsta umvarðandi að komast niður á, og að gjeta fært sjer í nit. Hjer á að eins að víkja málinu til seínasta þáttarins, ekki af því, að hann kjemur mjer við, heldur hinu,

að mjer virðist hann hafa tekist jafnlakast, enn málið þó umvarðanda.

Jeg vil ætla, að einhvurjum fleirum enn mjer finnist höfundurinn nokkuð mirkur í máli, til að minda í greininni bls. 230—235 og víðar, og mjer verður slíkt jafnan að firra bragði nokkuð tortriggilegt; því jeg hefi so opt rekið mig á, að það má hafa til marks um, að villa nokkur er komin á menn, eða að þeir hafa varla sjálfir ljósa hugmind um það, sem þeir eru að útlista firir öðrum. Enn af því jeg er lítið gjefinn firir, að vefja tímann með nrðarekstri einum, ætla jeg þegar að færa til þær greinirnar úr ritlíng mínum um úttektirnar, sem hjer hafa ollað ásteitíngu, og láta vörn mína láta helst að því, að leiða firir sjónir það sem jeg hafði til míns máls, enn ætla so öðrum að bera um, hvurt þær eigi sa harðan dóm skilið, sem höfundurinn teknr upp hvað eptir annað: "að þetta vanti ástæðu"; "þessi ástæða sje í mótsögn við hina höfuðástæðuna"; "þessu sje hjer afaukið og eigi næstu illa við, þó það annars væri á góðum rökum biggt"; "þessi ástæða verði með öllu stuðníngslaus"; "þessar ástæður, sem hann (jeg sumsje) hafi kaldhamrað úr eigineignarnotunum, veiki og skeði málstaðinn, hvað góður sem hann hefði verið" og s. fr.; og þegar búið er að snúa þessu í snarkrínglu, verður álíktanin þá, eins og við mátti búast, að athugasemdir mínar sjeu því fremur "ástæðulausar og óvandlega hugaðar", sem þær ekki einúngis stríði á móti sannfæríngu hans, heldur og berum orðum og efnisskipan í riti sjálfs míns. Jeg bið menn að higgja að í ritinu sjálfu, hvursu farið er að leiða rök til alls þessa; því jeg nenni ekki að tefjast við það. Enn athugasemdir mínar — sem firir slíkum dómi hafa orðið, og reindar er varpað fram lauslega, og öllu fremur hefði átt að standa í grein neðan undir, því þær eiga lítið skilt við aðalefnið — eru so hljóðandi (sjá Búnaðarrit 1. b. 1. d.).

Bls. 166. "er það landinu tjón (að verið er að selja konúngseignirnar), enn einginn hagur, þegar allt það er vel skoðað, og muu þó með tímanum leiða í ljós beiskari ávögstu, enn enn þá eru sjenir", og

bls. 168—70. "eins er tvísíni á, hvað landinu sje það hollt, að verið er að selja þjóðeignirnar ár frá ári, því þó það sj

borið firir 1*), að þú fari jarðirkjunni mest fram, er bændur eígi jarðirnar sjálfir, er þeír búa á, þá er first, að reínslan staðfestir það ekki nærri alstaðar — 2) því bæði er það, að þar sem náttúran er með jarðirkjuna og menníngin er komin, þar miðar henni áfram og lagfæríngu jarða, hvur sem þær á; 3) enda gjefur að skilja, að ekki er unnið firir gíg, þó ekki eígi þeír jarðirnar sjálfir, sem þeír búa á, þar sem menn fá að sitja að jörðunum og brúka, sem þeír ætti, æfilángt, og stundum niðjar þeírra eptir þá, og leíngra komast menn ekki, þó þeír sjálfir ætti þær. Hvurgi er jarðirkja betur stunduð enn á Eínglandi, enn fæstir bændur búa þar á sjálfs síns eígn. 4) Það er þessu næst, að menn meíga ekki ætla, að bændur búi allir á sjálfs síns eígnum firir það, þó þjóðeígnirnar væri seldar, því þó jarðir verði firir þá sök fleíri bændaeígnir, er ekki þar með sínt, að bændur verði fleíri jarðeígendur, því það, sem selt er, lendir eíns opt hjá þeím, sem ríkastir eru undir, og mestar eíga jarðirnar áður, og eínmitt þeír, sem búa á eígnum slíkra manna, hafa opt verstu kjörin, og miklu verri, enn meðan konúnginum var eígnuð jörðin, og þar verður jarðirkjunni hvað minst á geíngt. Jarðirkjunni eða landinu er því, eíns og af þessu má sjá, ekki mjög stór hagur að því, að þjóðeígnirnar sjeu seldar, þar sem ekki er fleíra eptir af þeím, enn nú er orðið í landi hjer; enn ekki mun hagurinn reínast meíri, þegar litið er til stiptananna sem eíga þær, a) því eíns og það er hollt firir hvurn eínstakan mann, eptir ásigkomulagi lands vors, að hafa landaurana til umráða, sem mest á að að búa — so er og eíns stjórnin miklu verr farin og ófrjálsari, þegar hún er búin að svipta sig allri fasteígn og öllum umráðum landauranna, ef þeír tímar kjæmi, að til slíks þirfti að grípa, og það kjæmi sjer betur að verja því heldur enn peníngum til launa embættismannanna og annarra nauðsinja. b) Þar að auki hafa þau dæmi gjefist, að af því of fljótt var selt, var minna upp tekið, enn ef það hefði verið látið leíngur drngast. Sona var skóla eígnunum fleígt í burtu, so að ekkjert kom í staðinn, að kalla, og bíður landið þess

*) Þessi tilvísunarmerki eru lesandanum til hægri verka að finna hjer aptur frá framan við þær greínirnar, sem hvurt þessarra atriða er útlistað betur í, undir eíns og til þess er litið, sem að hefir verið fundið.

aldreí bætur, að því var rutt so fljótt af; og þó nú sje gjætilegar að farið, má gjeta nærri, að á meðan jarðirkjan er so skammt komin, og varla er farið að gjöra neitt til bóta jörðum, sem gjöra mætti, þá munu þeír tímarnir vera í vændum, er jarðirnar eíga firir sjer að taka meíra verði, enn enn eru þær í, að jeg sleppi því hjer, sem nærri því allra ríkja dæmi hafa so ifirfljótanlega leítt í ljós, að c) ríkiseígnirnar eru ekki betur geímdar eptir það búið er að draga þær í gullhúsið, enn á meðan þær voru í fasteígnunum til og frá um landið."

Til að hrinda þessum orðum er nú varið 40 blaðsíðunum seínastu af bókinni. Hvað nú first orðið "land" áhrærir, sem mestöll aðfinnlnin hefir risið af, þá held jeg flestöllum sje ljóst bæði af þíðíngu orðsins og brúkun þess í málinu, og það ekki hjá mjer eínúngis, að þegar talað er sona blátt áfram um landsins gagn og nauðsinjar, eða hvað landinu sje hollt, þá sje ekki litið til efna eínstakra manna eínúngis, eða eígin (*privat*) efna landsins, heldur og líka hinna opinberu efna þess. Slík orðatiltæki innibinda hvurttveggja; því velgeíngni landa og líða er eíns komin undir því, að hin opinberu efnin fari í lagi, og þar til heírir, auk annars fleíra, að hinn opinberi fjárhagur þeírra sje á viturlegan stofn settur; því þó höfundurinn, hvað oss snertir, gjefi í skin, að oss komi slíkt ekki við, heldur eígum vjer að eíga það allt undir góðum og náðugum vilja Dana, eíns og ráða má sumstaðar af bók hans, þá gjefur það honum aungan rjett til að takmarka þíðíngu orðsins í annars manns riti eptir þessum hugarburði sjálfs sín; og að takmarka mín orð þannig, að "land" þíði ekki annað enn so sem einn hluta landsmanna, t. a. m. jarðeígendurna, eíns og jeg telji það landinu hollt, sem jarðakaupendum kinni vera hollt, held jeg honum því síður leífilegt, sem auðsjáanlegt er af sjálfum orðunum í greíninni — "er það landinu tjón, enn eíngöngu hagur, þegar allt er vel skoðað" — að ætlast sje til menn sjái, að orðið "land" sje hjer brúkað í rímstu merkíngunni, so að það innibindi eígi að eíns efni eínstakra manna, heldur og hin opinberu efni og fjárhag landsins. Enn þetta nægir höfundinum ekki; honum nægir ekki, þó jeg seígi honum, hvað jeg hafi meínt með orðinu; hann heldur eíns firir því áfram sína leíð og leífir sjer gjegn öllum þeím útskíríngarreglum, sem jeg hefi numið, að bjóða orðunum ofriki og gjefa

þeim þá merkíng, sem hann bæði veit mjer aldrei hefir til hugar komið, og líka er gagnstæð brúkun sjálfra orðanna — allt til að gjeta vafið mig í mótsögnum við sjálfan mig, í stað hins, sem í vísindunum er að reglu gjört, að greiða úr þeim, meðan verður, með samanburði orða og greina og gjörvalls anda ritsins. Mótmæli hans, sem þannig eru biggð á misskilníngi eða rángfærslu eins orðs, eru því að miklu leiti töluð út í loptið, og koma mjer lítið við, eins og líka höfundurinn viðurkjennir sjálfur bls. 262. í skíríngargrein, að ef sú merkíng gjeti staðist, sem jeg hafi gjefið orðinu "land", snerti mig varla annað af athugasemdum hans í firstu greininni bls. 228—48, enn það sem hann lætur mælt um sölu skólaeignanna og stjórnarhag landsins, og mun jeg koma til þessarra beggja atriða, áður líkur. Að öðru leiti ber þess hjer að minnast, að þar sem hann í nefndri skíríngargrein á bls. 262 kjemst so að orði, eins og hinn opinberi fjárhagur Íslands og konúngssjóður Dannríkis væri að minni ætlun allt eitt, eins og hann gjörir það að einu, þá hefir það aldrei verið sama í mínum hug. Þegar jeg tala um hag landsins, þá er mjer að vísu hinn opinberi fjárhagur þess líka í hug, enn aungan veiginn eins konúngsfjárhirsla Dannríkis, því jeg veit, að henni hagar í mörgu tilliti allt annað, og þikir mjer á þessu tvennu ærinn munur.

Nú er að víkja til efnisins; og er þá first að taka á því, að jeg er höfundinum öldúngis samdóma um eigineignar notin í sjálfu sjer, þar sem slíku verður á komið. Hann viðurkjennir líka á bls. 260, að þetta sje andinn í riti mínu. Jeg átti í þessu riti að eins tal um sjálfseignina í samanburði við þjóðeigna söluna, og var, eins og jeg er enn, í efa um, eða jafnvel rjettara að segja: í aungum efa um (þegar ekki sjer meiri ávögstu af því, að so mikill hluti landsins er orðinn bændaeign), hvurt til vinnanda sje, meðan hinn opinberi fjárhagur landsins er á þann stofu settur, sem nú er, að gjera sjer so mikið far um að snara burt því litla, sem eptir er af þjóðeignum enn þá, til að gjera úr því bændaeign. Mínar athugasemdir eru öldúngis bundnar við stað og tíma, og jeg ætla ekki að bera annað firir mig þeim til stuðnings, enn reinsluna; því jeg higg að menn standi so jafnan stöðúngast, þegar um Íslands efni er að ræða. Jeg ætla að gjefa gaum að, hvað fram fer í sjálfu landinu, og jeg er viss um, ef höfundurinn hefði haft þá aðferðina, þá hefði álit hans um margt orðið

öðruvísi enn nú er það, þar sem hann hefir laungum veðsetníngarnar og Danmörk í huga, hvað sem Íslandi líður, og heldur so leið sínn, án þess að líta niður firir fætur sjer eða gjæta þess, sem firir verður á veiginum. Ekki mátti hann heldur ætlast til, jeg gjæti látið hugmindir hans um veðsetníngarnar mæla fram með þjóðjarðasölunni, meðan hann var ekki búinn að gjera þær almenníngi kunnar. Enn so eptirtektaverðar sem þær eru, er jeg enn viðlíka veiktrúaður eins og jeg var áður, að þær gjeti komið so miklum bísnum til leiðar, sem hann ætlast til, að gjöra alla bændur að eigöndum ábúðarjarða sinna, því jeg held á því sjeu mörg vandkvæði, og að það hafi hvurgi tekist. Og hvað sem líður einstöku hjeröðum á Jótlandi, þá vita allir, að í Danmörku eru margir fæstarbændur. (Tilskipunin af 9. mars 1838 er einn vottur þess með öllu, sem um hana var þjarkað á fulltrúaþínginunum). Veðsetníngar eru einkum óskaráð, þegar so er á statt, að menn eiga jarðir lángt burtu. Eins er þeim, sem fer að búa, ómissanda, þegar hann hefir það efnaráð, að gjeta náð tilvonandi ábúðarjörð sinni til eignar, so hann gjeti skamtað sjer biggíngarskilmála sjálfur, þar sem hann ellegar kinni hljóta, og opt hlítur, að gánga að erviðum kostum; og opt gjetur að öðru leiti so verið á statt, að það sje hagur með slíkum hætti að eignast ábíli sitt, þegar so má verða.

Ætti þjóðjarðasalan að vera landinu so holl, sem látið er í veðri vaka, þá irði það að koma fram við eitt af þrennu: jurðirkjunni eða bændastjettinni, eður í þriðja lagi við hin opinberu fjárefni landsins. 1) Hvað nú first jarðirkjunni við víkur, þá hefi jeg vísað til reinslunnar um það, að jarðir, sem eigendur búa sjálfir á, sjeu ekki að öllu saman teknu til muna betur setnar enn leigujarðirnar, bændaeignirnar ekki betur setnar enn opinberu eignirnar. Höfundurinn finnur mikil missmíði á að seigja so ótrúlegu sögu, sem Íslendíngum sje meiri minkun enn sómi að, og hljóti að bakn hinum góða málstað meira skaða enn gagn (bls. 250), enn mjer er ekki minni furða á, að hann skuli gjeta so að orði komist, eins og hjer sje ekki mest undir því, hvað sannast sje, hvað sem sómanum líður; og jeg gjet ekki ætlað honum að vilja stiðja mál sitt um so mikilvægt efni, eins og þjóðjarðasalan er, með því að vísa til þar af leiðandi framfara í jarðarræktuninni, sem hvurgi er til nema í ímindun sjálfs hans. Að sönnu bendir hann mjer til Rángárvallasíslu og Árnessíslu til að sannfærast

um, hvað jarðirkjunni hafi orðið á geingt, af því fleiri urðu jarðeigendur og Skálholtseignirnar voru seldar (sb. bls. 161 og 255); enn jeg kveð hvurn til, sem opin augu hefir, að fara um Árnesssíslu og Rángárvallasíslu — já! nð fara um allt landið, sem jeg hefi kinni af (og hefi jeg komið í 13 síslur þess), og hann skal hvurgi gjeta ráðið af útliti og meðferð jarðanna, hvurt þær eru eigineign ábúandans eða þjóðeign eða bændaeign. Ræktunin er alstaðar hin sama — það er að seigja, hvurgi neia, sem jarðarrækt gjeti heitið, að undanteknum nokkrum jörðum í Gullbríngusíslu og einstaka jörð, ekki einni af hundraði annarstaðar, sem þess vegna (eptir reglu sjálfs höfundarins bls. 251, first reinslan er ekki almenn) sannar ekki neitt, því heldur sem allir slíkir viðburðir eiga kin sitt að rekja til seinaustu áranna, og eiga eins heima hjá leiguliðum eins og sjálfseignarbændum. Akragjerði, túna eingja beitar og merkja garðar mæna til vor í Rángárvallasíslu um móana út af túnunum, sem aungum kjemur til hugar að hressa við til að stækka túnið, þó framenn firir á að giska 6 eða 8 hundruðum ára hafi unnið firir oss meir enn helmíng verksins. Af görðunum, sem launaðir voru verðlaunum firir sn sem 50 árum, veit jeg aungan leíngur upp standanda, enn marga so fallna, að varla sjer leíngur eptir af; og þetta er þó síslan sú, þar sem flestar munu bændaeignir, því ekki er hjer nú eptir óseld nema ein konúngsjörð — áður ánöfnuð síslumanni, nú lækninum, til ábúðar —, sem verið er að berjast við að selja, so báðir þeir verði hjer eptir húsnæðislausir. Eða vilji höfundurinn dæma af Árnesssíslu, sem honum er kunnugri, þá verða allir að játa, að so sjaldgjæft sem þar er að sjá sljettan blett í túnum, er þó hitt sjaldgjæfara að sjá sljettaðan blett, því það er hvurgi — að undan skildum seinaustu árnnum, og hjá einstaka firirtaksmanni. Jeg gjet tekið til dæmis Hjálmholt, sem síslumenn hafa búið á mann eptir mann og sumir átt, og heitir þar ekki tekin upp þúfa firr enn, ef til vill, nú á seinustu árum, og eiga þó fáir hægra aðstöðu með það, enn slíkir menn; — eða hvað er jeg að minnast á Hjálmholt! það er nær að nefna til þá jörðina, sem höfundurinn er alinn upp á, þá jörðina, sem meiri gjæðum hefir átt að fagna, enn nokkur önnur jörð, sem meiri kinja auðæfi hafa dreigist að, enn að nokkrum öðrum bletti landsins firr nje síðar, sem verið hafði biskupssetur og fremsti bær landsins í meir enn 700 ár, enn

síðan hafa átt ríkismenn, sem að nokkru leíti hafa búið þar sjálfir, og þó er mjer sagt, að þar sjeu enn tún þífð og þess sjái ekki merki, að einni þúfu hafi þaðan verið fækkað af manna völdum. Á slíkum dæmum er ekki að gjefa neínum manni sök; það er allt að kjenna aldarfari liðau tímanna. Það er first á seínustu árum, að menn eru farnir að hugsa um jarðarrækt, er so gjeti heitið, sem fólgin er í girðíngum, sljettun og slíku. Hinir eldri menn hugsuðu ekki um annað, hvar sem leítað er á landinu, enn að nota jörðina eins og hún var. Ein jörðin var að því leiti betur setin enn önnur, sem henni einu tímann kunni að hlotnast ábúandi, er hafði betri tök á að halda fjenað, sækja heiskap að, drígja áburð, hrófa upp garði so sem til varnar í þann svipinn eða kríngum stekkjartún, sem næsti ábúandinn gat að óskeju látið falla niður, ef honum so leitst. Þetta er almenna reínslan í nokkrar seinustu aldir fram á þessa daga; og það er því ótilhlíðilegra firir höfundinn að bera aðra reínslu firir sig, sem ekkjert tilhæfi er í, þegar með því er miðað til að hrinda öðrum, sem meíra hafa firir sjer, og að mæla fram með su tvísínnm aðtektum, eins og að fleígja burt öllum þeim þjóðeígnum, sem eptir eru, til að gjeta rutt andvirði þeirra burt úr landinu, snara frá sjer klaustrum og kirknaeignum, svipta prestastjettina sínum notalegustu hlunnindum, með einu orði: umvelta öllu, sem enn loðir eptir og oss er orðið heíðursvert firir aldurs sakir af setníngum feðra vorra, losa sig við allt sem oss til þessa hefir haldist á, og til áþreifanlegra nota hefir kmuið í margar aldir, til þess vjer sjeum snauðir eptir — höfum ekkjert framar í hendi sjálfra vor til opinberra þarfa vorra.

2) Hann er líka eptirtektaverður, grundvöllurinn, sem höfunduriun biggir á alla sína kjenníng um þjóðjarðasölu notin til framfara jarðirkjunni. Hann ímindar sjer mennina þannig, eins og þeir láti leiðast af eintómri sjerdrægni, hafi aungva aðra tilhneíging, þekki ekkjert annað lögmál í áformum sínum og firirtækjum, hafi aungva aðra eptirsókn, enn að leíta hagsmuna sjálfra sín — og það í tímanlegum efnum eínúngis. Þessvegna gjetur hann ekki ímindað sjer neína framför jarðirkjunnar, nema menn eígi jarðirnar sjálfir, sem þeír búa á; þar sem það að öðrum kosti nægði til að aptra þeim frá því að efla gagn sjálfra sín með góðri jarðirkju, að þeir með því irði jafnframt að efla gagn annarra — þeirra, sem jarðirnar ætti! Nú er það

víst, að sjerdrægnin má sjer mikið, hefir mikið vald ifir manninum; enn þó er slík kjenníng höfundarins eins raung, eins og hún er vanvirðandi mannlega náttúru og hættuleg. Maðurinn er út búinn frá skaparans hendi með margskonar náttúrufari, tilhneigíngum og físnum, einn sona, annar öðruvísi, sem kalla mætti frumeðli hans *(oprindelige Anlæg)*. Jeg gjet ætlast til höfundurinn viti þetta og ætlist þessvegna ekki til frekari útskíríngar af mjer, hvurs vegna einn sje af náttúrunni hneigður til jarðirkju, eins og annar til smíða, þriðji til bóka, og s. fr., því slíkt væri að gjöra grein firir vegum forsjónarinnar; enn jeg vona, að hann beri ekki á móti, að þetta sje so, og eins og náttúran er námi ríkari, so briddir laungum á því, hvursu maðurinn var búinn til í öndverðu, eins eptir það að hann tekur við stjórninni sjálfur. Þessvegna verður t. a. m. vart við menn, sem hneigðir eru firir jarðirkju fremur öðrum, eins á þeim öldunum, þegar hún hefir verið hvað helst vanrækt af almenníngi. Enn að vísu er annað ástand til, þegar menn hafa ifirgjefið feril náttúrunnar og heilbrigðrar skinsemi. Það er þá, þegar menn láta staðar nema á miðri leið mentunarinnar, eru út lærðir í skóla hrekkjanna og fallnuma í heimsins þjónustu, láta sjer um ekkjert hugað nema hag sjálfra sín og halda ekki orð sín, nema þeim sje píuglist. Jeg veit ekki, hvurt höfundurinn hefir átt að bíta við þesshattar menn eingaungu á Jótlandi; enn það læt jeg mjer skiljast, að slíkir menn þurfi að eiga ábúðarjarðir sínar til þess þeir irki þær, og að setja veð so þeim sje trúanda; enn Íslendíngar eru fáir með þessum hætti. Því til er líka annað fullkomnara ástand, sem betur fer, er mönnum hefir lærst að gá ekki einúngis að sínu gagni, heldur annarra, er menn eru komnir til hinnar sönnu mentunar, sem ekki situr utan á einúngis, og þeim er orðið að annarri náttúru að efla það sem fagurt er og gott í öllu, sem þeir megna. Höfundurinn hefir, að því sem jarðirkjuna snertir, fært til dæmi um þetta, sem skilið eiga, að þeim sje á lopt haldið, þar sem eru stiptamtmenn vorir *Krieger* heitinn og *Bardenfleth* og *Bernhöft* bakari; og þar sem hann telur Háafell, Vatn og Brekku til marks um, hvurju sjálfseignin komi til leiðar, þá mátti af innlendum líka nefna til menn, sem fært hafa í lag ábúðarjarðir sínar, þó ekki ætti þeir þær sjálfir, eins og biskupinn (því eptir það ábúðarjörð hans var tekin firir biskupssetur, hætti hún að vera bændaeign, eins og að hinu

leitinu við mátti búast hún irði varla meira verði seld, enn hanu var búina að kosta til endurbótar henni að húsum, girðíngum, sljettna, framskurði míra, ruðníngi grjóts til skipsuppsátra, o. s. fr.), þorgrím gullsmið, Dr. Scheving, stiptprófastinn (að mjer er sagt), Jón Helgason, að jeg nefni stöku dæmi, sem mjer koma first til hugar, og hví skildi ekki þeir, sem maansmót er að, hafa aðra eins ánægju af að sjá lagfærast kríngum sig, þó ekki eigi þeir jörðina sjálfir, sem þeir búa á, þegar þeir fá þó að njóta ávagstanna æfiláugt. Jeg þori að seigja, að margra tilfinníngum er eins háttað og mínum í þessu. Að jarðirkjunni að öðru leiti "standi á sama", hvurt menn búi á eigu sjálfra sín eða sem leiguliðar, er rángfærsla orða minna. Enn þegar jeg sje nú ekki kost á, að hvur gjeti hjer búið á sjálfs sins eigu, þá virðist mjer það gjeta verið oss til huggunar, þó nokkrar þjóðjarðir sjeu óseldar, að jarðirkjunni (eins og jeg komst að orði, og nú þikist hafa útlistað) gjeti farið fram, þar sem náttúran er með hana og menníngin er komin. Þar sem jeg nefndi Eingland, þá var það eingin ástæða, heldur að eins dæmi, að jarðirkjan gjeti farið í lagi, þó menn búi ekki á sjálfseignum, þegar menníngin er komin; enn jeg þurfti ekki að fara so lángt. Höfundurinn minnist þess á öðrum stað (bls. 171), eins og við lá, að jarðirkjan hafi verið á öðruvísi fæti á þjóðstjórnaröldunum enn síðan; enn ervitt verður honum að sanna, að menn hafi þá allir búið á sjálfseignum, eða jarðeignum verið öllu jafnara skipt þá enn nú.

3) Það er ekki heldur so að skilja, að það sje á Einglandi einu, að ábatinn gjeti verið leiguliðanum upphvatníng til að fara vel með jörðina, sem hann bír á. Þó menn líti ekki á annað enn hag sjálfra sín, er hjá oss líka (eins og höfundurinn hefir vikið á í 6. þætti) firir nógu að gángast, enda firir leiguliðann; hjer hagar so vel til, að hann gjetur ekki haft gagn sitt firir augum, (sb. bls. 251), nema hann undir eins efli gagn jarðarinnar; og ef jarðabætur þeirra Jóns á Vatni og Guðmundar á Háafelli eru allar því að þakka, sem sjálfseignarbóndinn upp skjer meira af ræktun jarðar sinnar enn leiguliðinn, so að þeir hefði ekki snert hendi til lagfæríngar þessum ábúðarjörðum sínum, ef þeir hefði ekki átt þær sjálfir, eins og þeim þó seigist frá ágóða jarðirkjunnar — þá vildi jeg heldur sjálfra þeirra vegna þeir hefði aldrei snert við jarðirkju. Enn af því jeg þekki so mennina, að þeir hafa ekki haft so lítil-

mótlegar ástæður til að knía sig áfram, þá álít jeg þá eiga alla þá gagnsmuni og virðíng skilið, sem þessi prýðilegu verk þeirra hafa áunnið þeim. Þegar samt til meiri jarðabóta er mælst, enn bóndinn gjetur af komið með höndum heimilismanna sinna og efnum þeim, sem honum græðast á búskapnum, þá er að vísu von, að leiguliðinn verði tregari enn sjálfseignarbóndinn. Enn þó jeg óski ekki síður enn höfundurinn, að þeir sem annað fje eiga, horfi ekki í að verja því til lagfæríngar jörðunum, sem þeir búa á, þá er þó ósanngirni að líta ekki á, hvað Danir standa ólíkt að í þessu (sb. bls. 193). Jarðirnar og ásamt þeim jarðabæturnar verða hjer firir bísna miklu meiri árúsum náttúrunnar, enn í Danmörku, og það er sitt hvurt, að taka ávögstinn í fjenaði eða korni. Fjenaðar ávögsturinn er kominn undir fleira enn því, sem mennirnir gjeta að gjört. Þó menn sljetti og girði, gjetur ávögsturinn orðið lítill: þar sem íllt er undir bú, beit hagar illa vetur og sumar, so fjárhöld verða lítil og stopul, lítið um áburð til ræktunar, eður hættur, síkíng, bítur og slíkt míar fjenu ár eptir ár; þar er bísna miklu erviðara aðstöðu og meiru lagt í sölurnar með allt, sem til er kostað jarðirkjunnar, enn þar sem menn gjeta metið á undan, hvað upp er tekið. Danski bóndinn gjetur sjeð í hendi, hvað margar tunnur af korni hann fær í erviðislaun. Látum íslenska bóndann gjeta metið, hvað hann fær firir heiið sitt, ef hann vildi selja það öðrum, enn andvirði þess dregur hann ekki lángt á leið, auk þess sem það verður lítið, ef áburðarins missir við. Hann verður þess vegna að ala á því fjenað sjer til lífsbjargar, enn þá verður mi að eiga meira undir, hvurnig fer. Enn þó nú eigi að síður því fjenu sje best varið hjer eins og annarstaðar, sem varið er til jarðirkjunnar, þá er hitt enn ekki fullskoðað, að ekki borgi fleira kostnaðinn, so sem t. a. m. þiljubáta útvegurinn, þar sem náttúran er heldur með sjóinn (sb. bls. 263—267); að minsta kosti er ekki fjarstæðara að kjenna erviðleikunum og vankunnáttunni á slíkum bjargræðisútvegum, sem af verslunar ástandi vorn leiða, um vara "arðlitlu" peníngabrúkun til jarðakaupa, enn "lagaleisi viðvíkjandi þínglísíngum og veðsetníngum"! (sb. bls. 266). Það fer líka fjarri, að danskir bændur verji peníngum sínum til jarðabóta eður veðsetnínga eíngöngu; það ver þeim, þar eins og annarstaðar, hvur eins og hann er lindur, eða telur sjer hægast að hafa arð þeirra. Innanlands skuldir Danaríkis eru með fleira

vottur þess, að ríkismennirnir verja ekki allir fje sínu til stórmannlegra firirtækja. Það er ekki öllum lagið að ráðast í það, sem mikil umsvif útheímtir, og first nú Ísland gjetur ekki notið þeirra hagsmuna, sem Danmörk nítur, með að koma fje sínu í skuldabrjef, þegar eigöndunum hefði það best komið, þá sje jeg ekki, hví menn skildi firirmuna þeim að hafa fje sitt á vögstum í konúngsfjárhirslunni, sem aldrei verða færir um að hafa það í hendi sjálfra sín, nema með skaða sínum, þó "mindugir" sjeu kallaðir. Mjer virðist miklu fremur, að ifirvöld landsins ætti að stuðla til, að menn gjæti haft arð fjár síns með þeim hætti, sem hvurjum er helst lagið. Stjóruinni er miklu hægra, eins og á statt er með fjárhag ríkisins, enn mörgum umkomulitlum Íslendíngi, að hafa ávögst þess, sem hriti að konúngsfjárhirslunni, þó öllum, sem vildi, væri lofað að setja þar fje sitt á vögstu; og þó nokkuð irði konúngssjóðnum ávagstarlaust, sem hafa irði firir hendi til greíðslu, þegar fjeð mundi kullað aptur, þá væri slíkt tjón (sem þar að auki mætti finna ráð við) ekki öðruvís að álíta, enn eins og annan kostnað, sem varið er til þarfa landsins, og að litlu er virðandi í samanburði við not þess firir ríkið, að skoldabriefunum irði fækkað, sem eru í höndum útlendra, so rentur ríkisskuldanna rinni sem flestar inn hjá þegnum konúngsins.

4) Jeg gjet ekki látið framfarir jarðirkjunnar mæla fram með þjóðjarðasölunni, af þeim rökum, sem að framan er vikið á. Nú er að líta á það næsta, sem ætti að mæla fram með henni, eða hvurnig á statt er firir bændum í samanburði við jarðnsölu þessa. Jeg hefi hjer að framan sagt, að jeg sæi ekki kost á, að "allir gjæti búið á eignum sjálfra sín nð heldur; því þó jarðir verði fleiri bændaeignir, er eigi með því sínt, að bændur verði fleiri jarðeigendur". Höfundurinn heldur, að veðsetníngarnar gjeti umhverft þessu öllu, og tekur hjer til á því hjali útlendínga, sem heirst hefir laungum, að peníngar væri hjer í hvurjum handraða, og nð menn hefði ekki tök á að hafa neinn arð þeirra. Hann fer jafnvillt í hvurutveggju. Það er af sá tíminn, er menn ljetu sjer unnt um að sánka saman peníngum; þó að einstöku dæmi finnist maurаþegna, sem lúra á peníngum, þá sannar það lítið, þegar aptur koma heilar síslur, sem aungvan slíkra er nð finna í. Rángárvallasísla verður af mörgum rökum ekki talin með fátækari hjeruðum landsins, þar sem að einu leítinu frjóvsemi jarðar ásamt hægð

með sjávarútvegu og blíða lopts er hjer hvað mest og jarðir hvurgi fleiri bændaeignir; að hinu leitinu hvurgi meiri erviðleiki á bralli, eiðslu og útsláttarsemi, þar sem hjer er einginn kaupstaður og ekki verður, að heita meigi, náð til kaupstaða nema lítinn hluta ársins; því á Eirarbakka, sem næstur er verslunarstaðanna, hefir lánga leingi að undanförnu þar til firir 2 árum, að kaupmannaskipti urðu, flest, enda kaffi og brennivín opt verið ófáanlegt utan kauptíðar. Jeg held og, að í samanburði við önnur hjerað muni hjer að tiltölu einna fæstir þola neið með jafnaði. Það mun firir þá sök óhætt að leggja efna ástandið hjer til grundvallar, að það mun ekki betra annarstaðar. Enn til að gjeta dæmt um það með nokkurri vissu, fann eg ekki annað líklegra, enn að biðja sislumann vorn, herra E. Sverrisson, að gjefa mjer skírslu þessa.

# S k í r s l a

um efna ástand í dánarbúum í Rángárvallasíslu, sem til skiptarjettarins aðgjörða hafa komið í næstliðin 10 ár 1831—1840. (Út dreígið af embættisskjölum síslunnar).

| Ár. | Búatalið. | Upphæð búanna. Rbd. | Þar af Fasteign. Rbd. | Lausafje. Rbd. | Penníngar. Rbd. | Skuldir. Rbd. | Afgángs skuldum. Rbd. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1831. | 20 | 5316 | 214 | 5102 | — | 1200 | 4116 |
| 1832. | 26 | 10636 | 2038 | 8329 | 269 | 2295 | 8341 |
| 1833. | 34 | 13799 | 6504 | 7295 | — | 2699 | 11100 |
| 1834. | 47 | 13390 | 2404 | 10805 | 181 | 3169 | 10221 |
| 1835. | 26 | 4791 | 912 | 3879 | — | 1519 | 3272 |
| 1836. | 22 | 6041 | 1069 | 4852 | 120 | 1739 | 4302 |
| 1837. | 39 | 21247 | 7121 | 13597 | 529 | 4759 | 16488 |
| 1838. | 24 | 11652 | 3583 | 7445 | 624 | 5427 | 6225 |
| 1839. | 41 | 9906 | 2094 | 7724 | 88 | 2592 | 7314 |
| 1840. | 39 | 9936 | 3188 | 6628 | 120 | 3319 | 6617 |
| Alls | 309 | 106714 | 29127 | 75656 | 1931 | 28718 | 77996 |

Jeg bið nú menn að renna augunum ifir penníngadálkinn, sem að öllu samtöldu í 300 búum er ekki nema so sem jarðarverð so að hvurju búi bera en sem 6 dalir af penníngunum, enn af skuldunum liðugir 90. Jafnframt gjet jeg fullvissað um, að jeg veit ekki til það orð leiki á, að í nokkru einu af búum þessum hafi penníngar verið dreifgair nadan skiptum. Og þegar jeg hefi nú reinslu firir, að þessu er sona háttað með penníngaeigninaa víðar í landinu, þá meígn menn furða sig á, að heira tekið undir gömlu þuluna, að penníngar sjeu hjer almennt í díngjum og — ef til vill — niður grafnir til og frá út um haga. Því einginn þirfti reindar að furða sig á, þó vart irði við í betri dánarbúum so sem hundrað dala virði í penníngum; því so mikils þarf hvur efnaðður bóndi með, eígi hann að gjeta komist frá þeim útgjöldum, sem hann kjemst ekki undan á hvurju ári. Enda fátæki bóndinn þarf að hugsa firir penníngum í landskuldir og fleirn; hinn efnugri á að gjalda hjúum sínum kaup á hvurju vori, síslumanninum skattinn, prestinum offrið, tíundina og s. fr., og hann þarf jafnan að vera búinn við margskonar útgjöldum, ef hann á að gjeta komið áfram bjargræðis útvegum sínum. Jeg hefi heirt besta búmnnn seígja, að hann teldi ekki ráð í þeim húskap, er bóndi hefði ekki hundrað dala eða tvö firir liggjandi jafnan að grípa til, ef á lægi, so sem ef hann irði firir hastarlegu óhappi, fjenaðarmissi o. s. fr., enda að hann ætti firir útför sjálfs sín. Og jeg læt mjer þessa kjenníng því heldur skiljast, sem jeg held menn gjeti hvurgi komist so af, að ekki sjeu nokkrir penníngar á gángi til daglegrar brúkunar í viðskiptum manna. Enn þetta eru nú einmitt penníngarnir, sem eínn lánar öðrum, þegar á liggur. Því þó einstöku menn lúri á penníngum, eíns og áður er á minnst, líkt og þeir í öðrum löndum, sem ekki hafa úrræði til annars, enn að koma penníngum í skuldabrjef og þessháttar, sem umsvifaminst er, þá fer höfundurinn aptur villt í því, að þeir penníngar, sem til eru, sjeu ekki mestallir í brúkun. Þegar eínhvur kaupir jörð, hefir mjer optast reinst, að firsta verkið sje að ríða út og fala penníngalán, og að lángtum meiri vandræði hafa út af því risið, að penníngar voru so óvíða til, enn að þeir, sem til væri, væri ófáanleígir; og ef sumir lána rentulaust, eíns og algeíngt er meðal kunníngja, og opt gjetur verið eins hallkvæmt í viðskiptum manna — því greiði kjemur opt greiða á mót — þá er hitt sannast að seígja, að ekki færri

hafa tök á, að áskilja sjer veðfje og ávögstu, og það stundum aungu lægri, enn lög gjöra ráð firir. Og þegar þetta er nú tíðkanlegt um allt land, þá virðist mjer að so vögsnu máli lítil þörf á snúníngum þeim og kostnaði, sem af veðsetníngum leiðir, til að auka þann rjett, sem aldrei þarf til að grípa; því þau dæmi eru harðla fá, að menn hafi orðið af skuld sinni vegna fátæktar eður hrekkja skuldunautanna; kaupmenn verða helst firir þessu, þó ljótt sje, eins og þeir eígi ekki eins að hafa firir sitt eins og aðrir, og er það reíndar einn ávögstur föstu verslunarinnar; enda er það helst í skiptum við útlenda, að innlendum hefir orðið að skaða greiðasemin, án þess veð væri tekin í móti. Hún er að utan komin þessi mentunin, sem tekur lán í þeim tilgángi að borga aldrei, og er enn ekki búin að ná hjer föstum fæti, sem betur fer. *Stampe* hefir því rjett að mæla (bls. 59), að hin gamla einfeldni og ráðvendni sje enn ekki á flótta rekin úr Íslandi, og að veðsetnínga meígi að so vögsnu máli án vera.

Höfundurinn vonar, að allir gjeti orðið eígendur að jörðum sínum, ef veðsetníngar komist á. Jeg er um það litillar vonar. Sá þekkir lítið til Íslands, sem heldur, að allir búendur sjeu færir um að kaupa jarðir — þeir ætti first að gjeta eígnast borðskífu ifir rúmið sitt eða kjerti til að kveíkja á jóladagskvöldið. Jeg seígi: "að kaupa", og veit að talsmenn veðsetnínganna ætla að grípa þetta orð á lopti; enn mjer skilst, hvað þjóðeígnirnar snertir, að jörðin sje ekki tekin í veð firir meíra enn ⅔ verðs hennar, og mjer er hvurgi kjennt, hvað til bragðs eígi að taka, þegar so er á statt, eins og optast er, að sá sem orðinn er hæst bjóðandi, á e k k j e r t f i r i r þ e i m þ r i ð j ú n g n u m, s e m h a n n a  a ð g r e i ð a u n d i r e i n s, og eínginn þorir að lána honum það, af því hann hefir ekkjert að setja í veð firir láninu, þegar jörðinni er sleppt við konúngssjóðinn með firsta forgaungurjetti. Hvur seígir, að óhætt sje, eins og jarðir eru hjer, að lána — enda slóða eða skuldugum fátæklingi penninga til greiðslu þessarri skuld mót öðrum forgaungurjetti í jörð hans? neí! þá er hitt viturlegra, sem af er ráðið, að taka alla jörðina í veð, enn borga allt andvirðið; enn þá er sá orðinn kaupandi, sem lánar, þó ábúandinn sje firir borinu, og þetta er nú leíndardómurinn, sem kjemur því til leiðar, að so fáir gjeta notað sölukosti opinberu eígnanna, að láta ⅔ andvirðis standa móti veði í jörðinni, að þeir gjeta þá

ekkjert feíngið til að borga þriðjúnginn með; og þegar þeir nú aldrei gjeta dreígið af skuldinni til lánardrottins síns (því það er á nð giska ekki meir enn so sem ⅕ bænda, sem er nð græða, og það eru þessir, sem gjeta lánað penninga eða keipt jarðir, annar þriðjúngurinn stendur í stað, enn einn þriðjúngurinn fer mínkandi), þá verður endirinn eptir nokkur ár, að hann verður eígandi jarðarinnar og kaupandinn gamli landseti hans, og hvar er þá ávinníngurinn? Jeg veit mörg dæmi til um þetta, enn fá um hitt, að umkomulitlir bændur, eíns og flestir eru, hafi verið færir um að greíða jarðarverðið allt af eígin ramleík. Það þíðir þessvegna lítið, þó verið sje nð skruma af því, til merkis um hina "blessunarríku ávögstu" þjóðjarðasölunnar, að so og so margir sjeu orðnir sjálfseígnarbændur, þar sem þeír reíndar eru ekki annað enn hæstbjóðendur — opt af monti, og þegar þeír nota ekki söluskilmálana að láta ⅔ verðsins standa óborgaða, liggur eíns nærri montlausa áliktanin sú, að þeír hafi ekkjert gjetað borgað firir vesöld, eíns og hin, að kaupandinn hafi leígið á heilu jarðarverði, og að peníngar liggi hjer í díngjum arðlausir.

Af skírslunni um efna ástandið — sem so margt má af læra — má líka ráða, hvað hægt bændur vorir eígi með að kaupa jarðir, þegar á allt er litið. Að frádreígnu andvirði fasteígnanna, hafa í 309 búum til skipta komið 48869 dalir, so að hvurju búi bera hjer um bil 158 dalir, og það er því síður of lítið í lagt, að kalla slíkt meðalbú, sem í þessum 309 búum hafa verið 68 bú (eða 5. hvurt) með fasteígn, enn í þeím búunum er eínmitt óhætt að álíta lausafjeð líka til jafnaðar hálfu meira enn í hvurju hinna. Gjerum nú enn fremur, að hvur hjón, sem hefja búskap, hafi til jafnaðar so sem 5 hundruð í lifanda og dauðu til umráða, eða so sem 100 dala virði, og hitt væri allt gróðafje (sem reíndar er á naungum veígi; því eptir því ætti eígnir landsins ekki að þurfa lángan tíma til að marg-faldast). Enn þegar 309 búum hefir verið skipt í 10 ár, er hjer um bil búið að skipta öllum búum síslunnar, sem ekki hefir nema liðuga 600 búendur, á 20 árum, það er með öðrum orðum: að meðaltal búskaparára verða hjer um 20 ár; jeg ætla samt ekki að búast hjer við leíngra búskapartíma til jafnaðar enn 15 árum, af því jeg veít ekki, hvað mörgum búum mindugir erfingjar kunna að hafa skipt á þessum árum; og verður þá ágóði bóndans í 15 ár 58 dalir, eða so sem 4 dalir á ári.

Gjefi menn nú gjætur að, að frumbílingarnir þurfa æði margs við, þegar þeir fara að búa, bæði áhalda og fjenaðar, sem þeir eru að rembast við að bæta sjer smátt og smátt, og að gróðinn þessi að öðru leitinu lendir mestur hjá hinum ríku, sem eru að krakn í jarðirnar, þá gjetn þeir gjert sjer nokkra ímindun um, hvað mikið almenníngur bændn er fær um að leggja frnm á ári til borgunar jörðum. Sjálfeígn verður ekki, so að huldi komi, á komið, firr enn kaupendurnir eru þeim efnum búnir, að þeir gjeti borgað drjúgnn hlutn kaupverðsins án þess að sviptn sig neinu því, er þeir þurfn á að halda til að koma áfrnm búsknpnum (*Tutein i Maanedsskrift for Litteratur* XVII, 499).

Enn hvað ætti efnalausum mönnum nð gánga til að bjóða í jarðir, þegar þeir hafa ekkjert firir að líta, og sjá eíngin líkindi til nð gjeta losnst við neitt af skuldinni, þó einhvur irði til að lána þeim, er þeir ár eptir úr hafa fullt í fángi að komast frá útgjöldum þeim, er á þeim liggja, so að þeim gjetur ekkjert fjenast? Höfundurinn heldur, að þeim aukist so hugur og dugur, þegar þeir fari nð búa á eígnum sjálfra sín, að jörðin rjetti þegar að þeim so miklu meirn ávögst. Jeg held þeir sjeu miklu verr farnir eptir enn áður; því auk þess sem ekki er fullsannað, að margur einirki gjeti á orkað öllu meíra enn hann gjörir, þá hefi jeg enn aldrei orðið þess var, að sá verði í skindíngu allur annar maður, sem orðinn er hæstbjóðandi að jörðu, enn hitt liggur í augum uppi, að með því aukast honum so mikil útgjöld, að hann verður fullkeíptur af slíkri virðíngu; já! þessi útgjöld draga so miklu, að það er mesta óráð firir hvurn, sem hefir fullt í fángi að komast af áður, að leggja þau sjer á herðar, meðan hann gjetur hjá komist. Þessvegna er það mörgum efnalitlum bónda versti grikkur, þegar seld er jörðin undan honum; því hann er þá í þeim vanda, annaðhvurt að verða að bjóða í hana sjálfur, ef hann sjer ráð til að kljúfa fram úr því, og auka sjer með þeim hætti útgjöld, eða hann verður að sjá af henni í annars hendur og eíga undir, hvurnig til tekst. Það er sjaldgjæft að fá hjer jarðir firir minna enn 20 spesíur hundraðið; aptur þikir góð landskuld af 20 hundrnða jörð 8 spesíur, sem fer nálægt verðlagsskránni, þegar nokkur ár eru tekin saman, og sjá þá allir, að ef kaupandinn gjetur ekki borgað neitt af sjálfs síns efnum, þá verður hann — þegar hann á að greíða

laga ávögst af öllu kaupverði 20 hundraða jarðarinnar, 400 spesíum — að hafa 8 spesíum meiri útgjöld á ári. Ef nú bætist á hann tíundar útsvar að auki, þar sem jörð hans og kúgildi hennar, meðan hún var þjóðeign, voru undan skilin tíund, er hann so miklu verr farinn enn áður, enda þó leignagjaldi ljetti á honum, að hana hlítur að kafna undir slíkum skuldum, ef hana gjerði ekki betur enn komast frá þeim áður. Það er kunnugt, að nú eru varla seldar so jarðir, að sá sem kaupir, nái í bráð meira eptir jörðina, enn $\frac{2}{3}$ pörtum af ávegsti kaupverðsins og eikur leígnliða útgjöld sín að $\frac{1}{3}$ parti, þó hann sje orðinn eigandi, hvunær sem hana verður að greiða fullan ávögst kaupverðsins, og er slíkt ekki fátæklíngum hent; og verður þeim, að minni higgju, öllu ráðlegra að halda áfram að vera leígnliðar með sömu skilmálum og áður, sem þeim verður ekki meinað, heldur enn að leggja út í slík jarðakaup, nema einhvurjar staklegar kríngumstæður sjeu að. Reinslan sínir líka, að þeir eru verst farnir, sem orðnir eru kaupendur að ábúðarjörðum sinum og verða so, eptir það jörðin er veðsett konúngsfjárhirslunni, að greiða meira í rentur eptir tvo þriðjúnga umlvirðisins, enn áður eptir alla jörðina, enn eíga á eptir að berjast í því skulduvafsi til að losast við $\frac{1}{3}$ part andvirðisins, sem þeir höfðu áður ekkjert af að seígja. Jeg hefi verið vitni að — og það í Gullbríngusíslu sjálfri — að menn hafa talið það sína mestu óhamíngju, að flækjast inn í slík jarðakaup í stað hins, að vera leíguliðar *). Þeim, sem á dánardægri ekki lætur eptir sig so mikið skuldlaust fje, að það jafnist við $\frac{1}{3}$ part

*) Þegar verið er að halda á lopt kostum sjálfseignarinnar og veðsetnínganna í Danmörku, þá ætti ekki að dilja oss hins — að jeg taki einmitt það umdæmið, sem höfundinum er kunnugast á Jótlandi — að árin 1821—23 hafa í 5 síslum í *Veile*-umdæmi 161 maður neiðst til að láta bjóða upp jarðir sínar, af því þeir gátu ekki staðið í skilum við lánardrottna sína (*Veile-Amt ved Dalgas*, 43); enn hvað holl slík uppboð sjeu, og hvað velmeigun manna sje þar mikil, má aptur ráða af bls. 199—201. Aptur hefir ríkisfjárhirslan í Danmörku í 12 ár: 1820—31 orðið að gjöra upptækan 30 hlutann allra fasteígna landsins, af því eigendurnir gátu ekki greitt skattana, sem á jörðum þessum lágu (*Maanedsskrift for Litt.* IX, 77). — Vjer erum sælir þess Íslendingar, að vjer höfum enn litið að seígja af harðiðgi því öllu, sem við er haft, þegar maður og kona og börn er dreigið í díflissu og "ofurselt kvölurunum", af því ekkjert er til að borga með; enda higg jeg sveitahögum vorum komi það best, að stór flokkur manna sje ekki gjerður atvinnulaus í einu.

af andvirði jarðarinnar, sem hana bjó á — og þessir verða þó flestir bændurnir hjá oss —, honum hefði, þegar á allt er litið, verið ómögulegt að verða eigandi að ábúðarjörð sinni, enda meðallagi ráðlegt að bralla í slíku. Og þetta skal allt til þess gjert, að gjeta betur rekið sjálfan sig áfram með kvíri sjerdrægninnar; enn hún ætti þó ekki að blinda menn algjörlega. Jeg tek það upp uptur: leiguliðarnir standa opt so að, að menn kjæmist varla lengra, þó þeir ætti jarðirnar sjálfir. Lögin hafa sjeð við því, að þeir verði að ósekju rifnir upp af jörðum, sem einu sinni er búið að hleipa þeim inn á; enda ber það sjaldan að, að landsetar hjá oss verði firir slíku, allra sízt þjóðeigna landsetarnir. Lögin hafa sjeð firir því, að þeir fái að halda sömu skilmálunum, sem þeim eru einu sinni settir, meðan þeir halda ábúðinni, hvur sem so kinni verða eigandi jarðarinnar. Og ef nú kongs landsetarnir, sem eiga nærri því víst að meiga sitja á jörðum sínum æfilángt og með óbreittum skilmálum, fara verst með ábúðarjarðir sínar (bls. 256), hvað er þá firir því, að þeir taki annað ráð upp, þegar þeir eiga frjálst að setja sjer biggíngar skilmálana sjálfir? Leiguliðanum eru settir ekki einúngis leiguskilmálar heldur og meðferðarskilmálar — það er satt! enn hvur veit, hvurt þessir meðferðarskilmálar eru jörðinni óhollari enn þeir, sem þeir kinni finna upp sjálfir, eða að síður sje vikið í lag, þegar menn hafa beig af þessum skilmálum, enn þegar ekkjert er að óttast, hvað mikið sem látið er trassast. Höfundinum seigist so frá nokkrum biggíngarbrjefum, að honum mætti þetta trúlegt þikja*); enn þar sem so kveður að orði (bls. 256), að leiguliðinn sje verr farinn, hvað eptirgjaldið snertir, enn sá sem búinn

*) Jeg held að vísu, að varla hafi óþarfari biggíngarbrjef verið skrifuð, enn sum þeirra; því til hvurs er að setja þá biggíngarskilmála, sem einginn gjetur fullnægt, og ekki sjálfir höfundarnir! Þegar ekki verður geingið eptir öllu, sem í skilmálunum er haft, verður hitt að markleisu líka, sem ekki má missast, og það er einmitt tilgánginum — að nokkuð verði lagfært — til öptrunar, ef leiguliðanum verður allt af fundin útbiggíngarsök, hvurnig sem hann hagar sjer, so hann á jafnan undir nað, að verða ekki rekinn burt. Ef t. a. m. ekki mætti hafa minni fjárhús neinstaðar, enn 10 álnir að leingd og 6 að vídd handa 20 kindum (sb. bls. 87), þirfti á næstu árum eingra fjárhúsa við, því kindur mundi þá skjótt verða að deia úti fjárhússlausar. Það má ekki minna vera, enn að þeir menn, sem innleiða hjá oss slíkar rjettarbætur, sjeu ekki til öptrunar trjáflutníngum híngað líka, með takmörkun verslunarfrelsisins.

er að kaupa jörð sína, þá var nú firir skömmu leitt firir sjónir, að þessu er gagnstætt háttað. Hvurnig sem biggjagarskilmálarnir eru, þá verða þeir allt af ljettbærari, enn sölukostirnir, því jörðin er ekki látin ábúaadanum föl, nema seljandi taki meira í ávögst af peníngunum, enn áður galst honum af jörðinni; og þó leiguliðinn hafi ekki eignar umráð jarðarinnar til sölu og veðsetninga, þá steadur honum það á litlu, þegar hann að eins nær að sitja eins leingi og hann vill; því sje hann þeim efnum búinn, að hann gjæti náð í jörð sína, þá hefir hann líka eitthvað annað undir hendi, sem hann í stað hennar gjetur varið til sölu og veðsetninga, eins og honum ræður við að horfa. Ætli hann þar að auki að verja jörð sinni til sölu eða flitja sig burt af henni, þá hverfa honum líka jafnsnart sjálfseignar notin. Enn sitji hann á henni til elli, þá hefir sjálfseignarbóndinn varla firir öðru að gángast fram ifir leiguliðann, enn því sem jörðin irði dírari eptir hann dauðan, enn þegar hann keipti hana. Enn bæði er það, að margar kríngumstæður banna að fara mest eptir því í lífinu, sem verði eptir mann dauðan; enda á hann, ef til vill, þetta eins víst, hvaða jörð sem hann ætti aðra, þó ekki hefði hann hana sjálfur til ábúðar. Það er enn athuganda, að það er harðla tvísint, að sjálfseigaarbóndinn búi meira í hag firir afkomendur sína, enn leiguböadinn, allra helst ef hann er ekki eigandi nema að nafninu og jörð hans er veðsett. Kaupin gjeta þá gjerst margvíslega eptir hann dauðan; eadn er valt að giska á, hvurt leið barnanna kann að liggja, og þegar fleiri eru erfíngjar, verða — ef til vill — margir eigendur að einu búi, og eru þeir þá litlu bættari, því margir gjeta ekki að heldur notið ábúðarinnar.

Hvurnig sem þessu er snúið firir sjer, hvurt sem veðsetníngar eru komnar á, eða ekki, verður þá endirinn sá, eins og líka liggur í eðli hlutarins, að aðrir gjeta ekki orðið eigendur jarða, enn þeir, sem eign peninga eða eru í þeim værndum að gjeta grætt þá; enn það eru líka einmitt þessir menn, sem jarðirnar eru að kaupa, bæði ábúðarjarðir sjálfra sín og aðrar. Ef nú þjóðjarðasalan væri so holl, sem látið er í veðri vaka, þá ætti ávinníngurinn að vera fólginn í því, að þessir menn hefði sem mest að krafa i; enn höfundurinn hefir hvurgi farið slíku á flot, so hjer þarf ekki við það að fefjast. Hann er mjer samdóma í, að ekki sje betra að vera laadseti slíkra manna, enn konúngsins. Að öðru leiti er það,

sem hann seigir um kjör leiguliðanna á bændaeignunum, ekki ósvipað því, sem *Hoppe* einu sinni ljet fjúka um sama efni í brjefi til einhvurs af stjórnarráðunum, og nógsamlega var rekið seinna. Jeg hefi t. a. m. aldrei heirt firr, að leiguliði sje látinn gjefa til jarðar á hvurju ári, því síður að jeg viti dæmi þess. Hjer eru líka jarðir flestar biggðar æfilángt, ef leiguliði stendur í skilum, og það er sjaldgjæft, að manni verði komið upp af jörðu, þó á það bresti; enda má, þegar um slíkt er verið að dæma, ekki hánga í einstöku dæmum eða mönnum, heldur því sem algeingast er. Enn þar sem höfundurinn liggur efnamönnunum á hálsi, eins og þeir þekki ekki hag sjálfra sin, er þeir kjósa heldur jarðakaup enn veðsetníngar, þá fara margir þeirra, ekki síður enn hann, nærri um, hvað þeir gjöra; því hvurki gjeta fátæklíngar slægst til að vilja þau býli heldur til eignar enn ábúðar, sem einginn ætlar að vera við ári leingur, þó mörgum verði að hírast þar æfilángt, af því þeir gjeta ekki náð í hallkvæmara jarðnæði — enda er efnamanninum, eins og nú stendur á, ekki hagnaðarmeira, að troða upp á menn peníngum firir veð í jörðu, enn að eiga sjálfur jörðina. Að vísu eru jarðir margopt ofborgaðar, þegar litið er til næstu áranna eingaungu, þar sem kaupandinn stundum tekur ekki í afgjaldinu meir enn hálfan laga ávögst peningganna, sem firir jörðina eru látnir, meðan ábúandi er sami við jörðina, so að biggíngar skilmálum verður ekki breitt. Enn einginn gjefur so mikið firir neina jörð, nema hann sjái sjer fært, að færa fram skuldir hennar við næstu ábúendaskipti, so að hann verði vel í haldinu, þegar allt er saman tekið; og sú mun optast verða raunin á, að eigandanum hafi lættst hallinn, þegar nokkuð er frá liðið kaupinu.

Það er almennt, að jarðir sjeu nú orðnar tveim hlutum dírari, enn firir 20 árum. Jarðarhundruð, sem þá voru seld þetta 6 eða 7 spesiur, eru nú almennt 20, eins og líka landaurarnir eða eptirgjöld jarða, sem í landaurum eru goldin, eru nú hjer um þriðjúngi dírari enn þá. Jeg gjeri hjer að eins, að jarðir hafi á þessum síðustu 20 árum aukist að verði um helmíng, til þess því síður verði að fundið, enn landaura eptirgjöld að þriðjúngi, og þori að vitna til allra, sem feingist hafa við jarðakaup á þessum árum, hvurt þetta sje meir enn við hæfi, þegar fleiri jarðir eru teknar saman, og ekki er lafað í einstökum dæmum, sem gjeta gjefist margvíslega; og verður þá

hægt að leg·ja niður ávinníngínn af jarðakaupunum í saman-burði við veðsetníngarnar. Jeg ætla að færa hjer til 2 dæmi úr Rángárvallasíslu; og so mjer verði ekki brugðið um, að jeg velji þau eín, sem mínu máli sjeu til stirktar, þá tek jeg þau tvö eín, er heílar torfur hafa verið seldar, sem ekki hefir að borið nema tveím sinnum þessi árin. Firir 11 árum var hjer seld jarðatorfa — 150 hundruð með 10 bæum, og urðu 6 kaup-endur að — firir liðuga 3000 dali. Af þessum jörðum taka nú eígendurnir, þegar afgjöldin eru metin til peníngа, hjer um 390 dali á ári, þar sem þeír hefði að eíns tekið 120 dali í leígu eptir peníngana. Eptir afgjöldum, sem nú eru, ætti jarð-irnar að verða seldar að minsta kosti firir 7500 dali, og er þá ekki meíri munurinn á að kaupa og hinu: að lána mót veði í jörðu og laga ávegsti, enn so, að menn hafa á 10 árum grætt á kaupinu 7500 dali, medan sá, er lánaði, tók að eins í leígu 1200 dali, eða 6300 dölum minna. Á þessum jörðum hafa að vísu afgjöldin víðast verið færð fram og sumstaðar í meíra lagi; og jeg vík því heldur til hinnar jarðasölunnar (er fram fór firir 10 árum), sem þar eru allir sömu búendur og sömu biggíngarskilmálar, og þá voru — spesíau látin gilda 30 álnir í hálfar landskuldir, so hjer er ekki annað að taka til greína, enn það sem jarðirnar sjálfar hafa aukist að verði síðan og landaura afgjaldið; hvurugt er hjer, heldur enn í hinu firra dæminu, að þakka endurbót jarða þessarra, sem ekki er teljandi. Þessar jarðir eru $97\frac{1}{2}$ hundrað að dírleíka með 5 hundraða landskuld og 13 kúgildum, enn 7 búendum, og urðu að þeím 7 kaupendur firir 2591 dal. Það þætti nú gott verð á jörðum þessum, ef hundraðið feíngist til jafnaðar firir 20 spesíur, eða 3900 dali allar. Aptur er landaura eptirgjaldið nú hjer um 33 dölum meíra að gángverði, enn firir 10 árum, og aungum þætti of hart að greíða landskuldir eptir harðasta verðlagsskrár meðalverði, eða með 18 dölum liðugum firir hundrað, og irði þá afgjöldin að með töldum leígunum hjer um 142 dalir. Það er líka viðunanlegur ávögstur af nefndu kaupverði; því menn meíga því heldur teljast skaðlausir af kaupinu, þó dírra sje keípt enn so, að menn taki 4 af hundraði í ávögst, þegar kon-úngsfjárhirslan greíðir nú ekki leígur so mikla leígu af fje því, sem henni er feíngið til að ávagsla. Á 10 árum tekur þá kaupandinn jarðanna í verðhækkun og eptirgaldi (1300 + 1420 =) 2720 dali, eða 272 dali á ári, þar sem hann hefði

orðið að láta sjer linda með 1010 dali, eða 101 dali á ári, ef hann hefði lánað sömu peningana mót veði í jörðunum; og þarf þá ekki að fara fleirum orðum um, hvur aðferðin sje hagnaðarmeiri, enda þó reikníngar þessir irði felldir til helmínga, því heldur sem sá, er peningana lánar, á í hættu að meiga sitja með þá arðlausa, so árum skiptir, ef hann á jafnan að taka við láninu hvað eptir og skuldunauturinn gjetur við það losast. Hinn fátæki gjetur hvurki (meðan slíku fer fram), komist að jarðakaupunum firir hinum efnaðra, enda má hann ekki vera að sæta hagsmununum af því, sem jarðirnar fara hækkandi í verði, því hann verður að meta mest að gjeta lifað og komist frá útgjöldum sínum, enn gjetur ekki hugsað til að safna. Aptur stendur hinum ríka á sama, á hvurju hann græðir. Ef jarðir hans fara hækkandi í verði, kjemur honum firir lítið, þó hann hafi ekki laga arð eptir þær á meðan, því ávegstinum ætlar hann hvurt sem er ekki að eiða, heldur bæta við höfuðstólinn, og stendur þá á sama hvurnig höfuðstóllinn eikst, ef hann að eins eikst so mikið, eins og þó laga ávögstur höfuðstólsins og vagstarvögstur hans væri til hans lagður. Það er því skildara að vekja hjer eptirtekt á því, hvað jarðirnar fara hækkandi í verði, sem höfundurinn hefir gjörsamlega leitt það hjá sjer, þó ótrúlegt sje, þar sem þessi eini atburður kollvarpar öllu, sem hann lætur rætt um hagnað veðsetninganna fram ifir jarðakaupin nú sem stendur, og um hagnað þjóðjarðasölunnar firir hinn opinbera fjárhag landsins og konúngsfjárhirslunn — það er að skilja meir enn helmíngi af öllu efninu í bók hans.

Jeg má búast við, höfundurinn beri firir sig þá ufbötun í máli hans (það sem hún nær), sem hann er að fræða mig á aptur og aptur (bls 91, 108, 210, 256), að það gjefi landsdrottni eíngan rjett til að færa fram eptirgjald, þegar hann biggir jörð, þó hann hafi keipt hana dírt; enn jeg gjet frætt hann á því í staðinn, ef hann ekki veit það, að rjettinn hafa þeir, hvurt sem dírt er keipt eða ekki, til að færa eptirgjaldið um það fram, sem nú tíðkast á flestum jörðum; því það tel jeg rjett manna, sem þeim verður ekki meinað að lögum; enn þegar dírt er keipt, er meiri átilla til þess og meiri nauðsin enn ella. Hann liggst að birta mönnum um þetta nía uppgötvan, er hann leiðir í ljós tilskipaninn af 15. maí 1705; enn auk þess, sem ekki allfáir lagamenn munu álíta þessa rjettarbót áhræra konúngsjarðir einar, hvað sem

hann lætur þar um mælt, þá er það sannast, að leigulíðar þekkja þessa rjettarbót; þeir þekkja, að hún kjemur þeim ekki að haldi, þegar þeir ætla að skjótast undan bíggíngarskilmálum, sem þeir með frjálsum vilja hafa undir geíngist, enn þeím eptir á þikja of hnrðir; því þegar þeir eíga að fara að leiða rök til þess, hvað goldist hafi "frá alda öðli", þá stranda þeir sem von er, því Árni Magnússon tók með sjer úr landi flestöll skjölin, sem hefði gjetað gjefið úrlausn um þessháttar, og ljet þau brenna á eptir; enn ekki tjáir að flía í jarðabók hans, sem er íngri enn rjettarbótin, nje nðrar enn íngri jarðabækur — það því síður, sem fáar jarðir eru so hátt leigðar sem í henni er gjört ráð firir; og eadirinn verður, að hlaupið er í Jónsbók, þegar mönnum var látið frjálst að koma sjer saman um eptirgjald, eða í hin eldri lögin, Grágás, þegar líkindi eru til að 12 álnir hafi verið greíddar í landskuld af hvurju hundraði jarðar, eða hálfu meira enn nú tíðkast. Það er að teigja einfalda út á ís, sem þeim er ekki stætt á firir hálku, að vísa þeím á rjettarbótina af 1705, meðan löguaum er svoa háttað, og þeir hafa sannað það með helst of miklum skaða sínum ekki so fáir, er jeg veit slíks hafa freístað. Lögin gjeta ekki heldur hæglega takmarkað so eignarrjettinn, að gjöra mönnum nú á tíma að skildu, að taka spesiu upp í 30 eða 40 álnir landskuldar, enda þó so hefði tíðkast um margar aldir, enn undir eins og af slíku er brugðið, er vikið frá orðum rjettarbótarinnar, sem hjer er þó lifakkjerið.

Ætti, í stuttu máli, þjóðjarðasalan að vera til hagnaðar firir landsmenn, þá irði það að vera með þeím hætti, að hjer væri peningar firir liggjandi, sem minni ávögst færði enn jarðir, sem með þeim irði keiptar, so að **tekjur landsmanna** færi **vagsandi** með þjóðjarðasölunni. Enn það er nú nokkuð sint, að peningar liggja ekki firir hjá almenningi, allra síst brúkunarlausir, so að minsta kosti verðar það við þá fáu eina, sem kallaðir eru efnamenn, að ávinníngurinn verður að koma fram. Enn þó að þeim nú að vísu græðist það, sem landssjóðurinn missir, þá er hvurki með því sannað, að ekki meígi hafa meiri arð fjár sins hjer, enn með því að verja því til slíkra jarðakaupa, þó aptur reínist þau, nú sem stendur, miklu arðmeíri enn veðsetníngarnar, — og enn síður að tekjur landsmanna vagsi, þó þeir verði eigendur að þjóðjörðunum, því það er meðal annars undir því skilirði komið, að **ekki verði**

lagður annar eins skattur á jarðeigendurna aptur, eptir það þjóðjarðirnar eru seldar, eins og afgjöldum þeirra (og andvirði með) samband meðan þær voru óseldar. Það liggur þó öllum í augum uppi, sem horfa dálitið fram á leiðina, að hvurki verði slíkur skattur lagður á, meðan þjóðjarðirnar eru óseldar og verið er að selja þær (því ef ótt er selt, gjæti staðist á með það kostnaður og ábati) — og nð ekki verði hjá slíku komist, þegar búið er að selja; því ef stjórn landsins verður ekki hagað öðruvís núna, enn að eiða fjármununum þess, ávegsti og höfuðstól, hvurt ætli þá verði flúið, þegar þeim er lokið, nema til þess að leggja skatt á landsmenn so miklu erviðara enn nú, sem þá er ekki annað nð stiðjast við honum til ljettis, og hann verður því nð vera eins miklu meiri enn nú, sem því svarar er afgjöld opinberu jarðanna, og það sem eitt er af andvirði þeirra, skarða í útgjöldin árlega. Af þvi gjefur þá lika að skilja, að útgjöldin, sem með þessu bættist á landið, bæði irði miklu meiri enn tekjurnar af opinberu jörðunum, sem landsmenn færi að taka inn eptir það þær eru seldar (því þær ætti að jafnast við það líka, sem eitt er af andvirði þeirra), — og að þúngian kjemur fram við miklu fleiri, enn þá sem hafa not af þjóðjarðasölunni, þar sem hann irði að bera allir jarðeigendur landsins; enn þegar nú sona er á statt firir oss, er landið með jarðasölunni að firirfara frelsi sínu og smíða á sig hlekki, sem það gjetur aldrei úr losnst, er það er að jeta út eignir sínar; og er nú að líta á það atriðið, sem eptir er, hvað þjóðjarðasalan hafi að merkja, þegar litið er á hin opinberu efni og fjárhag landsins.

Höfundinum verður það hjer eins og víða, að hann lítur ekki nema á aðra hlið hlutanna, og sjer þá þessvegna ekki nema að hálfu. Þegar hann er að skignast um, hvað landinu sje hollt, lítur hann eingaungu á efni einstakra manna, eins og þau verða first firir honum, enn gjetur ekki snúið huganum til hinna opinberu efna landsins, eins og nð það sem þeim er óhollt, hljóti ekki aptur nð koma fram við einstaka menn. Þegar um jarðasölunotin er að ræða, heldir hann augnm einúngis á afgjaldinu eða ávegstinum og verður því ekki var við, hvað höfuðstólnum eða verði þeirra líður á meðan. Þegar hann er nð tala um veðsetníngarnar, lendir hann í þjóðjarðasölunni, eins og veðsetníngarnar gjeti ekki leitt í ljós þessa blessunarríku

ávegsti, sem hann bíst við af þeím, þó þetta litilræði af þjóðjörðum, sem eptir er, sje látið óselt, sem að vitni hans er ekki nema $\frac{1}{6}$ partur fasteígna landsins. — Það hefir aungan veíginn verið tilgángur minn hjer að framan að mæla á móti veðsetníngunum; jeg vildi þær gjæti gjört sem flesta að eígineígnarbændum, og komið sem mestu góðu til leíðar. Að veðsetníngarnar hafa ekki tekist meír enn komið er, skilst mjer aungan veíginn þurfa að kjenna eintómri fávisku, heldur öllu fremur efnaleísi nokkra og rjettri þekkíngu annarra á hagsmunum sjálfra sín; enn mig gildir einu, þó jeg hafi farið villt í þessu, því jeg unn löndum mínum dável, að þeir aukist að auði og og hygindum. Enn látum veðsetníngarnar núna first leíða í ljós á bændaeígnunum alla þá góðu ávögstu, sem þær gjeta. Hjer er nóg svið handa þeím first um sinn. Enn ef þær koma þar aungu til leíðar, þá er eingin ástæða til að losa sig við þjóðeígnirnar firir þessa sök; og þó veðsetníngarnar reíndist góðar, gjetur verið ástæða til að halda í þjóðeígnirnar samt; því þær gjeta þó aldreí eflt heillir landsbúanna nema að einum sjetta parti við hinar jarðirnar, og má vera, að það sje af fleírum rökum betra að sjá af þessum hagsmunum, eíns og nú er á statt, enn að sleppa jörðunum. Það á illa við, að láta djúgt af hagnaði þjóðjarðasölunnar firir landið, ef hún undir eíns undirbír því þíngri birði, og gjörir þann nauðugan einn kost að leggja hana á það. Þetta efni er oss so umvarðanda, að menn eru lítið bættir með fánítt hjal; hjer varðar mestu af öllu að komast að sannleíkanum og seígja hann hispurslaust; því að sannleíkinn einn verði ofan á, er stjórninni eíns þekkt og hvurjum einstökum manni.

Þjóðjarðasalan hjernu hlítur að vera mikið umhugsunarefni firir alla, sem nokkuð hugsa um landsins hag. Ef verið er að selja jarðirnar **til þess andvirðinu verði aptur varið til að láta í útgjöld landsins**, þá er landið reíndar að safna skuldum ifir höfuð sjer, er tekjur þess nægja ekki til útgjaldanna, og slíkt ráðlag hlítur hjer að hafa sömu endalok eíns og annarstaðar, að leggja mönnum óbærilegar birðar á bak á endanum, sem því heldur er varúðarvert, sem vjer eígum minna við að stiðjast. Hjer er þá ekki annað úrræðið, enn aðfara þegar að koma viturlegri skipun á þetta og mæla útgjöldin við tekjurnar, so fjárhagur landsins versni ekki. Enn sje nú **andvirðinu ekki varið til landsins** þarfa í bráð,

þá er ekki tiltökumál, þó menn fari að litast um, hvað um það verður. Oss er að vísu kjeant á bls. 245, að konúngurinn eigi þessar jarðir, ag honum leifist að gjöra af sínu, hvað sem hann vill, sa að ekki sje leifilegt framar um þetta að ræða. Þeir meiga láta sjer þetta skiljast, sem gjeta; enn sje lagarjettur landsins ekki skílaus til þessarra so kölluðu kanúngsjarða, þá leiðir þó bæði af því, hvursu þær eru arðnar að konúngseign, sem og af rjetti náttúrnnnar, að þær heira ekki Danmörku nje Danakanúngi til, nema að því leiti, sem hann er konúngur Íslands, með öðrum orðum: að þær eru opinber eign, þjóðeign landsins. Enn Danakanúngar hafa aldrei haft það álit á valdi sínu, að þeir mætti fara með slíkar eignir landa sinna án alls tillits til þegnanna, sa að þeir t. a. m. mætti brenna þær eða varpa þeim í sjóinn, enn síðar að þeir hafi leift sjer það. Ísland á, eins ag önnur lönd, að njóta þess sem það lætur í tje; það gjetur ekki haft skildu til að tolla Danmörku, ef Danmörk hefir unngar skildur við það að rækja; ag þegar jeg heiri slíkar kjenníngar af embættismönnum Íslands, sem vera eiga skjöldur þess, að landið eigi að þeigja ag hlíða og taka því, sem á það er lagt, það hafi einlægar skildur, sem það gjeti aldrei fullnægt, enn eíngin rjettindi, — þá verð jeg viðlíka til hugar eins og jeg sæi upp kominn son í geíngi hamíngjunnar vera að fóttroða aðstoðarlausa móður sína. Eins ag Danmörk hefir sinn rjett, so hefir Ísland líka sinn, og hvurt landið hefir skildum að fullnægja við annað; rjettur hvurugs nær leíngra enn skildur þess (bls. 248).

Ef farið er að grenslast um, hvursu haga eigi tekjum og útgjöldum Íslands, þá er tvennt til: annaðhvurt að láta tekjurnar ráða útgjöldunum, láta landið bera sig sjálft ag vera út af firir sig með fjárhag sinn; eða láta Danmörk taka við öllum ágóða landsins móti því, að hún annist allar þarfir þess eins og annarra skattlanda konúngsins, hvað sem tekjunum líður. Hvurugt hefir híngað til verið gjört; Danmörk hefir híngað til tekið við tekjunum og leitast við að hafa aat landsins með margvíslegum hætti, enn skamtað útgjöldin eins og henni hefir litist í hvurt sinn; enn aldrei hefir Ísland verið gjört jafnt hinum skattlöndunum. Vorum opinberu stiptunum, sem að öðru leiti er hægt að koma tölu á, er miklu verr á fót komið, enn samkinja stiptunum í Danmörku, ag öll vor opinberu efni fara miklu óskipulegar enn

annarstaðar í ríkinu. Þetta mætti sanna með ótal dæmum í smáu og stóru, ef þess þætti við þurfa. Verslunarkúganin hefir, sa öldum skiptir, svipt þjóðina öllum kjark, framtaksemi og efnum. Á öllu Íslandi, sem er miklu stærra enn Danmörk, eru enn ekki nema 8 læknisembætti, og gjeta allir gjetið sjer til, hvað af slíku meígi leíða; enda væri hægt að gánga úr skugga um það, þó ekki væri t. a. m. nema talið saman, hvað margar konur hafa dáið af barnsförum í þeírra minni, sem nú lifa, af því ekki varð náð til læknis. Í landinu er enn ekki nema einn almúgaskóli, og eini lærði skólinn, sem til er, gjetur ekki tekið mót nærri öllum, sem beíðast inntöku, þó full meðgjöf sje í boði, so það er mörgum ómögulegt að fá barni sínu kjennslustað innanlands; enda er þar enn ekki kjennd þiska, ekki íslenska að heita meigi, því síður saungur eða aðrar íþróttir, og andlega stjettin landsins á þó mestöll að búa að þeirri mentun, sem þar er á boðstólum. Það er því heldur skilt að líta hjer á skólaefnin, sem höfundurinn með þeím hætti, sem honum er tamt, hleípur so opt í þetta dæmi til stuðnings lærdómnum sínum um hina blessunarríku ávögstu þjóðjarðasölunnar og örlæti stjórnarinnar við oss.

Hvað nú afleíðingum stólsjarðasölunnar til framfara jarðirkjunni við víkur, þá er á þetta litið hjer að framan; enn þar sem einstöku menn, sem jarðir lendu hjá, urðu af því stórríkir, þá álítur höfundurinn landinu slíkt aungan bag; og hjer er þá að líta á ávögstu sölunnar firir stiptanina sjálfa og hin opinberu efnin. Jeg hefi sagt, að landið biði aldreí bætur slíkrar sölu, og er ekki erviðara að sanna enn seígja það (bls. 237); því hvarki tel jeg so miklu til kostanda að auðga einstaka mann, að landinu firir þá sök sje til vinnanda að sjá af so mikils umvarðandi stiptun, eíns og góður skóli er, — enda skilst mjer ekki betur, enn kaupöndunum á þeim dögum væri eíns ervitt að greíða þrefalt eða fjórfalt minna kaupverð, þegar peningar voru í so háu verði, eíns og nú margfalt meira, ef salan hefði verið látin bíða til þessarra tíma, so að hagur þeírra, sem kaupa, var ekki meíri þá enn nú, það því síður, sem af sömu rökum hefði nú eflaust orðið miklu fleíri kaupendur að ábilisjörðum sinum, enn þá urðu Enn hafi nú kaupendurnir ekki tekið meira í ávinníng, enn þó nú væri first farið að selja, þá hefir að hinu leítinu stiptanin eður hið opinbera orðið firir so miklu tjóni, sem jeg veít ekki með hvurju ætti

að bætast, og að því leíti hefi jeg sagt, að landið biði aldreí bætur sölunnar; því jeg held landinu sje varla annað auðsinlegra, enn góð meatastiptan; enn það fær hann aldreí hjeðan af eíns og kostur hefði verið á, ef öðruvís hefði verið að þessu farið*). Höfundurinn sínist rauuar á eínum stað vera samdóma því, að skólina hafi haft tjón af sölunni (bls. 237), þó ervitt sje að komast að meíníngu hans, þar sem hvað er í mót öðru: "að reínslan sje búin að sanna, að stiptanin gjeti staðist með penníngatekjum" (bls. 238) — og þá aptur (bls. 247) "að konúngur verði að leggja henni", (af því hún gjetur ekki staðist af penníngatekjum sínum eíns og áður af landaurunum), "að konúngur hafi fullkomna lagaskildu til að annast stiptanina" (bls. 237), "og gjöri það þó af eíntómri náð" (bls 247), "að stiptanin hafi liðið tjón við söluna" (bls. 237), þar sem af næstu blaðsíðunni virðist ráða meiga, að stiptaninni hafi verið breitíng þessi eínber hagur, þegar litið er til þeírra heíllaríku

*) Hvurt skólaeígnirnar sjeu vel eða illa seldar, "þegar kríngumstæðurnar eru teknar til greína" (bls. 239), kjemur mjer ekki við, því mjer þikir allt komið undir hinu, þá eíns og nú, að tíminn til jarðasölunnar sje hentuglega valinn. Höfundurinn gjerir sjer að öðru leíti hægt firir með að sanna þetta (sb. skíríngargr.). Af hvurju ræður hann, að 5 rdd. og 60 skk. hafi verið gángverð (og það á jörðum), þó það væri lagaverð á landaurum, eíns og það er að nokkru leíti enn í dag? Af brjefi biskups F. Jónssonar af 2. jan. 1778 til fjárhaldsmanna og verndarmanna allra kirkna í Skálholtsstipti, að jeg taki að eíns eítt dæmi, má skilja, að hann hefir ekki verið meir enn so ánægður með 4½ sk. firir alin hvurja, sem kirkjurnar áttu að taka. Hvað þíðir það, að stólsjarðirnar hafi náð gángverði — sem þá var — sjálfar sín? Hvunær hættu þær að haldast í við lausafjárverðið, sem trautt mun hafa við borið, so öldum skipti, firr nje síðar? Þegar farið var að selja? og hvurju ætli það hafi verið að kjenna? — Enn hvað allt er honum líka til marks um þessa ógrinnandi penninga uppsprettu hjá oss (bls. 71)! Er það ekki furða, þó landið allt hafi enst til að greíða konúngssjóðnum firir jarðir so sem 185,000 dala, eða hvað það kann að verða, í meír enn 50 ár, ekki 4000 dala á ári, þegar vjer þikjum orðnir færir um, að bera so sem 20,000 dala skatta viðbót á ári! Jeg held Danir hætti að mæla oss undan slíku, þegar þeír fá þetta að vita; enn reíndar hefði átt að fræða þá um það um leíð, frá hvað mörgum árum á undan þessir penníngar kinni að vera, og hvað mikið af þeím vjer sjeum enn í skuld um. Firir nærfellt 200 árum reíknaðist kaupmönnum þeírra, að hjer væri firirliggjandi 1,418,000 dala í krónum (*Islands Opkomst* 381), og *Wulff* kaupmaður eína telst núna eíga hjá oss 95,000 dala (sjá *Khposten* 1840 *Nr.* 138).

framfara til líkama og sálar, sem hún hefir átt að gleðjast við síðan! þess gjerist ekki þörf, að mótmæla þessu að sinni; því það er so fullkomlega viðurkjennt bæði af stiptsifirvöldum landsins og helstu embættismönnum þess, og sjálfum stjórnarráðunum nú í so mörg ár, að stiptaninni sje ábótavant í flestu, sem stjórnin á til að leggja, þó lagfæríngunum, sem við þarf, gángi ekkjert að heldur. Enn líklegt er, honum takist ekki að leiða aðra, enn sáreinfalda í villu með tölum sínum, eins og skólinn sje nú betur úr garði gjerður og hafi meiri tekjur enn áður; því auk þess, sem hann verður að játa, að ölmusurnar eru næstum helmíngi færri, þar sem 16 vantar af 40, sem þannig bakar landinu, eða þeim sem skólann brúka, 970 dala útgjöld á ári, fram ifir það sem áður var, — þá voru 18 (spesíu)dalir, meðan hundrað á landsvísu almennt gilti 4 og 5 dali, annað eins og 60 dalir nú, þegar hundraðið er orðið meir enn 18 dali; og hvað sem því líður, þá komust piltarnir miklu betur af á eiutómri ölmusunni þá enn nú, eins og skólakjennendurnir munu þá og ekki hafa verið öllu verr haldnir enn nú af launum sínum; því að undan teknu efsta kjennara embættinu, sem lífvænlegt er einkum af því, að því nú sem stendur, hefir lagst til haganlegt jarðnæði, þá eiga hinir fullervitt uppdráttar, sem von er, eins og tímarnir eru nú orðnir, og mundi það gjefa að líta betur, ef það ekki vildi til sem stendur, að þeir hefði fleira að stiðjast við enn laun sín. Hafi líka skólunum ekki veitt af tekjum sínum áður, þegar þær, eptir verðlagi þessarra tíma, að því sem biskup vor í brjefi sínu 31. jan. 1833 til skólastjórnarráðsins hefir metið afgjöld jarðanna, ef þær væri nú óseldar, voru 15,180 dalir, — þá er von stiptanin eigi nú ervitt að komast af, þegar tekjurnar eru ekki orðnar nema 5180 dalir; enn þar af má þá líka ráða, hvað heillarikt það var, að eignunum var sona kastað burt, þar sem tekjurnar hefði enn orðið þriðjúngi hærri, eins og jarðir seljast nú, og höfuðstóllinn að því skapi, sem settur hefði orðið á vögstu í konúngsfjárhirsluna eða annarstaðar. Enn þegar stiptanin var nú sona út búin og ráðstafanir stjórnarinnar, að selja eignirnar, hafa gjefist þannig, þá er það því eptirtektaverðara, að búið er að eiða 12 árum til að semja reikníngana um fjárhöld skólans, sem aldrei hefði þurft, ef stjórnin hefði álitið skildu sína að fara með landið, án tillits til kostnaðarins, eins og önnur skattlönd sín — að sona líður eitt árið að öðru, að eingri lag-

færing enn er komið í verk, þó allir sjeu samdóma í, að hennar sje mestn þörf — að landsifirvöldin í sinn, í mörgu tilliti ágjæta, frumvarpi um skólaefnin, til sparnaðar kostnaðinum, hafa gjetað stúngið upp á, að gjöra Bessastaðakirkju að skólahúsi, so hjer er því farið á flot, sem menn í skopi hafa talið til einkjennis vantrúarárunnm seinast á 18. öldinni, að menn rifu niður kirkjur og bjuggu til úr þeim skóla, so að uppfræðíngin gjæti eflst, hvað sem guðhræðslunni liði — að konúngsfulltrúinn hefir á þínginu í Hróarskjeldu talið líkindi til, að landsmenn leggji fje til eflíngar kjennslunni (Frjettir bls. 52). Hvað ætti allt þetta, ef stjórnin hefði tekið að sjer að gjöra Ísland, þegar til útgjaldanna kjemur, jafnt öðrum skattlöndum sínum. Eptirtektavert verður líka að sjá, hvurjir reikníngarnir gjerast á endanum, og hvursu þetta mál liktar; enn þó er það eptirtektaverðast af öllu, að herra assessornum hefir litist að telja þetta dæmi ljósastan vott þess, sem hann lætur so drjúgt ifir, að það sje öðru nær, enn stjórnin mæli við oss útgjöldin eptir tekjunum; og hvað verður? útgjöldin, 5740 dalir, verða — að hann seígir — 510 dölum meíri, enn tekjurnar, það er að skilja árin þau, sem útgjöldin hafa orðið mest; því haan má ekki, heldur enn vant er, horfa lángt frá sjer, því þá kjinni hann að hafa rekið sig á, að kjennendurnir voru færri framan af, og laun þeírra leingst af miklu lægri enn 2300 dalir. Enn það eru ekki miklar öfgur, þó so sem 510 silfurdalir væri á ári af stjórninni lagðir fram ifir tekjurnar, þegar að gjætt er, að bæði höfuðstóll og rentur skólans voru upprunalega í kúranti; enda er so að eins hlaupnnda í þettu dæmi, að það sje ekki talið skólásjóðnum til útgjalda á eptir til rírnunar höfuðstól hans, sem ársútgjöldin verða meíri enn tekjurnar, og að þessum reikníngum sje trúanda; enn hjer er brestur á hvurutveggju. Skólasjóðnum mun vera reiknað allt, sem látið er af hendi rakna við skólann; enda eru tekjurnar meíri og útgjöldin minni enn hjer seígir. Biskupinum teljast í áðurnefndu brjefi 1833 tekjur skólans 5480 dalir, og eptir því, sem (á bls. 63—64) seígir um það, sem borgað sje af eignum skólans, má sjá, að úr tekjum hans sje of lítið gjört (á bls. 217). Reikníngsárið 1833—4 voru aðrar tekjur skólans eptir jarðabókar reikníngum, sem jeg hefi, 100 dalir í silfri og 450 dalir nefndarverðs; þar á meðal eru tíundirnar af Skagafjarðarsíslu og Vaðlasíslu meir enn 200 dalir; af tíundinni af Vaðlasíslu eru

þó árið það ekki innkomnir nema 42 dalir, þar sem hún þó er hjer um 230 dalir árlega. Á móti því eru hin föstu útgjöld skólasjóðsins þetta sama ár 5086 dalir, og hjer um 1000 dala auka útgjöld, sem að mestu leiti snerta ekki nema það árið, sn sem 500 dalir liðugir firir keiptar bækur og landnuppdráttu; hjer um 200 dalir til ímsra lagfæringa; 133 dala flutníngskostnaður til *Occonomus Thomsens* síðan 1817 og 1818, o. s. fr. Höfundurinn hefði átt að leita nð hentugra dæmi til stuðníngs máli sínu, enn þetta er; og er það stjórninni skaði, þegar sn illa tekst að tala máli hennar; því hvað ætti menn að hugsa um örlæti hennar, ef þessi er "ljósastur votturinn"? Það má ekki heldur gleímast, áður þessu máli er sleppt, að lagarjettur landsins til aðstoðar af stjórninni er hvurgi eíns skílaus, eíns og eínmitt í þessu efni.

Af þessu má nokkuð ráða, að oss sje lítill slægur í að eíga fjelagsbú við Danmörk. Henni væri líka vorkunn, þó henni leíddist að tolla oss ár eptir ár firir alls ekkjert; og vjer gjetum reíndar ekki ætlast til, að meíra sje látið af hendi rakna við oss, enn vjer leggjum sjálfir til; enda irði oss það skaðlaust, ef haganlega er með það farið. Enn ef sú irði raun á, að vjer sjeum Danmörku ekki mikið skuldugir enn, þá hefir hún því minni átillu til að skamta oss so úr hnefa. — Höfundurinn telur það eítt til marks um rúnga ímindun mína, ef jeg gjöri ráð firir, að landið sje látið lifa og deia við efni þess. Mjer hefir hið firra ekki til hugar komið, því mjer hefir leíngi verið auðsært, að ef landið hefði feíngið að lifa við efni sín, þá hefði það lifað góðu lífi; enn hvað hinu síðara víð víkur, þá verður að so komnu ekki um það dæmt, því Danmörk hefir enn aldreí komist úr skuldum við Ísland. Þetta er atburður, sem ekki verður skafinn út úr sögu vorri, eins og hitt, að landsfólkið hjer hefir dáið hrönnum saman í húngri, og skil jeg þá ekki, á hvurju sú von ætti að vera biggð, að Danmörku tækist betur að ráða úr vandræðunum, þegar hún ætti að fara að halda í oss lífinu firir ekki neítt, ef á það reíndi hjer eptir. Höfundurinn lísir ótrúlegri vanþekkíng á sögu vorri, ef hana heldur, að það sjeu allt gjafir, sem stjórnin hefir í tje látið við oss, þó jeg ekki fremur gjeti talið mjer trú um hitt, að hann í slíkum greinum ætli sjer gjegn betri vitund að bera á borð firir lesendur sína ríntómt smjaður, sem væri eíns óverðuglegt eíns og það hliðir illa, því það er

"háð enn ekki lof, að telja nokkrum til gildis þau verk, sem allir, er heira, vita að hjegómi eru og skrök". Það er sögunnar, að halda uppi því sem satt er, enda er einstökum mönnum ekki gjefandi sök á því, sem tímunum er að kjenna; og þó stjórnarráðunum hafi opt farist heldur lítilmannlega við Ísland, þá er ekki heldur að draga dulur á hitt, að það hefir allt af meðfram átt göfuglinda vini í Danmörku, sem talað hafa sköruglega máli þess; og jeg veit ekki eitt dæmi til, nú su að öldum skiptir, að það sem til gagnsmuna landsins væri upp á stúngið, hafi fundið mótspirnu af hálfu konúnganna, eða að það hafi verið þeirra vilji, að gjöra nokkurn mun Íslendínga og annarra þegna sinna. Enn að hrotið hafi töluvert að Danmörku frá Íslandi, má ráða af því, að verslun vor hefir í meir enn 200 ár verið bundin við Danmörk leíngst af, so að ávögstur landsins var borgaður eptir því verðlagi, sem Dönum þóknaðist að lögbjóða, og að þeir hafi sjeð sjer það skaðlaust, má ráða af því, að Hamborgarar buðu einu sinni Kristjáni konúngi 4. hálfa milíón dala, til þess hann sleppti við þá versluninni; enda er í viðbætinum við verslunarrjettarbótina, sem gjefin er út að opinberri tilhlutan, ágóði verslunarinnar á síðustu 20 árum hennar metinn til jafnaðar 50,000 dala kúrants á ári. Enn auk þess tók stjórnin árlega í sinn sjóð leigu af verslunarfjelögunum, sem stundum var ekkjert lítilræði, eða meir enn 20,000 dala, so það taldist til 1785 — þegar farið var að ifirfara reikníngana — að konúngssjóðurinn hefði í 183 árin næstu á undan frá 1602—1784 tekið í leigu eptir verslunina 1,315,377 dali, eða hjer um 7000 kúrantsdala á ári (*Reventlovs Levnet* II, 201). Afgjöldin af þjóðjörðunum, skattar og skildur rann þá og inn í konúngssjóðinn. Það eru líkindi til, að tekjur konúngs af landinu (að með töldu verslunar eptirgjaldinu) hafi t. a. m. árið 1699 verið ifir 50,000 dala (*Islands Opkomst* bls. 106), og hefir með því skjótt dreigist saman nokkuð fjo; enn útgjöldin vegna landsins voru ekki teljandi á þeim öldum, er biskupar og skólar lifðu af stólaeignunum, lögmenn af tulli sínum, enn læknar og amtmenn voru aungvir. Það eru ekki hundrað ár síðan, að farið var að kosta nokkru til landsins, og þó konúngar vorir síðustu hafi verið ósparir við oss stundum, þá ná þó ekki útlát þeirra lángt móti áður nefndum tekjum; og þó tekjurnar, eins og nú er komið, hrökkvi ekki firir útgjöldunum, þá teljumst vjer ekki í skuld

að heldur meðan verslunarfjötrarnir eru so ríkir, að t. a. m. þeir sem búa kríngum Faxaflóa, eptir áreiðanlegum reikníngum kaupmanna, missa þeirra vegna í fiskiverslan sinni einni so sem 100,000 dala á ári; því með slíkum tekjum, þó ekki sje litið víðar, irði landinu vinníngur að launa embættismönnum sínum.

Danir hafa nú líka líst því ifir, að þeir ætli ekki að tolla oss; þjóðfulltrúarnir hafa heimtað, að vjer bærim oss sjálfir; konúngsfulltrúinn hefir goldið við því jákvæði sitt; fulltrúinn sjálfra vor hefir í því skini heimtað, að skattur væri lagður á oss. Náðurdirnar eru þannig undir það lokaðar, og oss er með því gjefin mesta uppörvan til að fara að líta eptir efnum vorum. Hjer riður þá á öðru meira, enn að riðja öllu sem vjer eigum til Danmerkur. Oss riður á að sjá fjárefnum vorum betur borgið og forsjállegar út tært, enn að undanförnu, ef vjer eigum að bera kostnað vorn sjálfir. Þetta skilst best með nokkrum dæmum. Á skólaefnin er þegar litið. Það var ekki of hátt birjað að ánafna landinu 2500 kúrantsdala (4000 dala silfurverðs) í árs leigu firir allar Skálholtseignirnar; þegar frá leið, var þetta aptur með penníngabreitíngunni gjört að jafnmörgum silfurdölum, eða sleigið af ⅜ pörtum, meir enn þriðjúngnum. Þá var aptur, þegar tekjurnar — þó búið væri að riðja út Hólaeignunum líka — hrukku ekki til útgjaldanna, geíngið á höfuðstólinn, so helmíngur hans mun þegar teljast farinn; og þegar búið er að lagfæra skólann, er ekki við öðru búið, enn stiptunin teljist hartnær fjelaus, eptir liðug 50 ár. Hvað verði um andvirði þjóðjarðanna, sem verið er að selja, mun flestum hulið; enn hvar mundi so trúarsterkur, að halda það muni ekki síga saman og verða álitið eins og eiðslufje, sem Íslendíngar hefði ekki meira af, ef til þess irði farið að kalla, meðan tekjurnar eru taldar minni enn útgjöldin, og er þá landinu lítil huggun, þó "það irði talið með í reikníngunum", ef ekki er leingur að gjegna höfuðstól eða vögstum (bls. 248), einkum ef Íslendíngum teldist, að hjá hefði mátt komast miklu af útgjöldum; enn þó eitthvað irði eptir óeitt, þá er samt höfuðstóllinn farinn og leigurnar koma ekki leingur, þegar best ljeti, enn fjárhagur Danaríkis lætur því kost á að grinna á skuldum sínum. Snuprurnar, sem Íslendíngar feingu undir lok 18. aldar firir bænarskrá sína til konúngsins, hafa hrifið so vel, að embættismennirnir, sem Ísland hefir átt síðan, hafa ekki — so á hafi borið — dirfst að nefna samskotssjóðinn

mikla, sem Íslendíngar hafa átt á vögstum í Danmörku síðan 1785. Firir 40 árum var hann orðinn fram undir 50,000 dala, og ætti síðan að hafa meir enn tvöfaldast, því landsmenn hafa ekki tímt að grípa til hans síðan, meðan ekki hefir harðnað meira. Í mæli er samt, að búið sje að sjá firir honum á aðra lund enn til þess, að forða oss hallærunum eins og honum var ætlað í firstu. — Vjer heirum nú, að jarðir barnaskólans sjeu komnar í penínga, enn fár veit hvurju fagna skal; umfjatlan forstöðumannanna hefir gjefist so híngað til, að það er einmitt jörðunum að þakka, að ekki hefir tekist að fara með fje þetta gjörsamlega. Það varð firir óhappi utanlands þegar á firstu árum sínum, so höfuðstóllinn, sem í öndverðu (árið 1759) var 4000 dalir, var 1783 ekki orðinn nema 5700 dalir, þó ávegstinum ætti að heita við bætt (sjá Eptirmæli 18. aldar bls. 555). Enn þó kastaði tólfunum, þegar af 4096 dölum, sem til voru 1806, voru að ávegstinum með töldum ekki eptir nema 2683 árið 1837 (sjá *Khposten* 11. júlí 1838); andvirði jarðanna kom sjer því ekki illa til að bæta höfuðstólnum missinn; enn mönnum er því heldur spurn, hvur rjettur sje til að selja, þegar eíngin vissa er gjefin firir því, að ekki takist til hjer eptir eins og híngað til. Á sama stað er gjetið hinna íslensku penínga, sem á sama tíma voru úr 1945 dölum orðnir að 16 dölum, so þessir hinir íslensku peningar meiga heita máðir af lífsins bók. Reinslan sínir og, að fjár áhaldið hjer verður stjórninni mæðulegt og útdráttarsamt. Margt er í frásögum haft um kostnað strandamælíngarinnar hjerna, og mun það ekki um skör fram, allra helst ef það er borið saman við það, sem hra. Björn Gunnlaugsson eptir tilhlutan innlendra hefir afkastað með so litlum efnum. 30,000 dala er varið til að koma biskupinum niður í Laugarnesi, og öðru eins eða meira til viðrjettíngar dómkirkjunni. Nesið með stofunni er aptur selt firir 3000 dala. Til Vestmanneíakirkju er kostað nokkrum þúsundum dala að óþörfu; og uppboði Kirkjubæarklausturs er hagað so, að það sem boðið er í jörðina, hrekkur ekki firir álagi kirkjunnar. Enn þegar nú slík dæmi finnast, þá er líklegt eínginn, sem hirðir nokkuð um hvurnig Íslandi vegnar, láti framar telja sjer trú um, að það sje eina lífsmeðalið firir oss, að koma því litlu, sem eptir er af þjóðeignunum, sem first í penínga, að menn gjeti falið það varðveislu Dana. Slíkar kjenníngar eru viðlíka á lopti eins og andvirði jarðanna, þegar

so er komið. Oss stoðar lítið, þó látið sje drjúgt um ávögstinn, ef vagstur fjenu er eítt, áður enn hans verður notið, so vjer höfum ekki annað eptir af gjæðum vorum, enn tölurnar í jarðabókar reíkníngunum, þegar vel lætur. Og furðanlegt er það, að maður, sem tekur saman heíla bók um veðsetníngar, skuli ekki gjeta þeírra veðsetnínganna, sem landinu eru ómissanlegastar af öllum, enn það er: að Danmörk fái oss veð firir þjóðpeníngum vorum, sem henni eru í hendur feíngnir; þángað til þessi veður er feínginn og fjárhag vorum er komið á annan fót, er nóg selt; því jeg vil ekki ætla nokkur haldi so mikið til vinnanda að losast við þjóðeígnirnar, sem eptir eru, að haldandi sje áfram að selja, til þess jarðirnar gjeti heítið bændaeígnir, þó oss verði ekkjert úr andvirðinu. Og var þá heldur ráð að fara hinu á flot, er samsvarar hvurutveggja tilgánginum í eínu, sem gjörir miklu fleíri að sjálfseígnarbændum, enn þó selt sje, enn lætur þó fjárhirslu landsins vísan ávögst þjóðeígnanna eíns eptir og áður; enn það er að hafa sömu aðferðina og höfð var í Danmörku til að auka sjálfseígnina, að gjefa ábúendunum algjörlega bíli sín til eígnarumráða fullkominna (nema ef tekin væri handfesta nokkur), enn áskilja landsfjárhirslunni afgjöldin eíns og þau bæri að meta til landaura eínu sinni á sjerhvurri jörðu; enn til peaínga eptir verðlagsskrá hvurs árs. Eígandi niti þá sömu hlunninda eíns og þó jörð hans væri veðsett, nema hann mætti ekki losa sig við slíka kvöð með því að greíða andvirði jarðarinnar, þó hann gjæti; enn það er líkn að skilja á veðsetníngabókinni, að honum sje hagurinn mestur að brjótast ekki í því; enn þó hið opinbera gjæti orðið firir tjóni eígi að síður, so sem t. a. m. þegar so ber undir, að bíli fara so versnandi, að einginn vill eíga þau með sömu afgjaldskvöð, og hana irði að lækka meðan so er á statt, — þá drægi það ekki miklu hjá þeím hagsmununum, að eíga tekjurnar vísar í landinu; enda er í von, að það kjæmi ekki opt að, því meðan ekki er farið að hreifa við jarðirkju, er líklegt jarðir eígi heldur firir sjer framför enn hnignun. Það virðist líka heldur óþarfir snúníngar, að selja **fasteígnir** opinberra stiptana, til þess aptur eins á eptir, eíns og kjennt er í 8. þætti, að fara að berjast við að koma andvirðinu á vögstu mót veði í **fasteígnum**.

Íslendíngum er á því mestu nauðsin, að koma sem first góðri skipan á fjárhag sinn; því ef það er látið dragast þángað

til búið er að eiða öllum þjóðjörðunum, þá bíður landið þess aldrei bætur, heldur enn stólsjarðasölunnar. Þeir sem núna eiga mestan þátt í þjóðjarðasölunni, verða firir sama dómi eptir einn mannsaldur, sem þeir eru dæmdir með núna, er ruddu út stólseignunum, þegar verst gjegndi, so þessar miklu eignir eru farnar á víð og dreif, so að eingin bót liggur við framar. Ímindum oss, að þeir kjæmi því áleiðis, að konúngseigairnar irði eigi að eins allar seldar, heldur ng allar eignir andlegu stjettarinnar líka (því þessir menn kuana sjer eingi takmörk), og so geingi með höfuðstólana, sem sendir eru til Danmerkur, eins og geingið hefir híngað til, ng ekki irði komist hjá á endanum að láta Ísland annast allar þarfir sinar, so það irði þaðan í frá með eintómum sköttum að fá í öll útgjöld, sem upp á kinni að koma, halda við öllum npinberum stiptunum, launa öllum embættismönaum; — þá má gjeta nærri, hvursu ástand vort hliti að verða, og jeg er kvíðandi firir, að lítið irði afgángs í minnisvarða handa *Reventlov* eða slíkum (bls. 76). Reinslan er búin að sanna það í þeim löndum, sem meira hafa að stiðjast við heldur enn vjer, að þar sem ekki eru afgjöld af þjóðeignum (*Domainer*) *) fjárhagnum til stirktar, þar verður ekki komist frá útgjöldunum nema með því að leggja á þegnana óhærilega skatta. Oss er gjefið í skin (á bls. 244), að penníngabrúkun Dana sje so góð, að því sje borgið, sem komið er í gullhús þeirra. Jeg er ekki fær að dæma um hana nema af ávögstunum, og vona jeg fleiri enn jeg verði á því, að þeir sjeu hriggileigir. Það gjörir venjan, ef Dönum er nú eins rótt, þó ríkið sje í 120 milíóna skuldum, eins og í rúmrar milíóaar skuld á firri öldunum. Ean þegar nú slíkum feikaum hefir verið hrúgað saman á jafnstuttum tíma, og ríkið hefir ekki komist af með tekjur sínar heldur, síðan friðurinn komst á, því síður gjetað borgað nokkuð af lánsfjenu, þá vari mean sig á að halda hættuna úti, eins og fjárhagur ríkisins sje góður, þó menn hafi eitthvurt lítilræði afgángs útgjöldunum í 2 eða 3 ár. Helstu vinir landsins hafa látið á sjer heira, að ríkið mundi ekki gjeta komist hjá (bánkaroti) að fara á höfuðið; og

*) Þjóðeigair Danaríkis teljast ena 20 milíóna virði (*Handelens Theorie og Politik, oversat af Nathanson* II, 225). Hvað kjemur til, að þetta er ekki selt first til að láta í skuldirnar, heldur enn að hlaupa í að selja lítilræðið, sem hjer er eptir?

þjóðfulltrúarnir fóru sama fram, er þeír stúngu first upp á því til viðrjettíngar fjárhaguum, nð fella verð skuldabrjefanna. Mannleígir reíkníngar um hið ókomna eru líka so á reíki, að þær skuldakröfur eru heldur stopular, sem ekki verður lokið á skjemmri tíma enn 100 árum, þegar best lætur; enn irði nú ríkið firir eínhvurju óhappi innan þess tíma, þó ekki væri nema að Eírarsundstollurinn — sem allar þjóðir amast við — irði frá því tekinn, hvað þá ef stríð kjæmi upp á, þá má gjeta nærri, hvað góður sem viljinn er, hvursu skuldakröfunum hliti að farnast, ef þær gjerði ekki enda á ríkinu algjörlega. Reíkníngarnir eru þá vanir að gjerast þannig, að það má þikja vísast, sem í hendinni er. Hjer er því ekki ráð, nema í tíma sje tekið, og það er gleðilegt að vita, hvursu ifirvöldin i vesturumdæminu og norðurumdæminu láta sjer núna víti eldri tímanna að varnaði verða, hjá því sem í suðurumdæminu. Það þarf varla að kvíða því, að Danir hagaði fjárhag landsins gjegn ráði landsmanna, undir eíns og þeír skildu það til að bera sig sjálft. Að fara ógjætilega með efni þess, ætti líka þaðan af sammerkt við að leggja á skatta, sem Danakonúngar gjera ekki hjeðan af, nema þeir hafi áður heírt tillögur fulltrúaþíngn sinna. Stjórnarráðin sjálf munu og kannast við, að þeím veíti erviðara að sjá, hvað Íslands fjárhag er notalegast enn Danmerkur, og láti sjer þess vegna ekki þikja firir að bera undir þá, sem kunnugri eru, firirætlanir sínar, þegar um mikil útgjöld er að tefla, áður enn þau eru fastráðin.

Þetta veri nú sagt um þjóðjarðasölu vora og hinn opinbera fjárhag, þegar litið er til staðar og tíma. Í búnaðarritinu var heldur litið á þetta efni í sjálfu sjer, þar sem jeg drap á — eíns og af greíninni má sjá, sem hjer að framan er til færð — að stjórninni kinni vera hollt að eíga nokkuð af fasteígnum, ef til slíks þirfti að grípa; enda væri sala þjóðeignanna so að eíns ábatasömust, að þær irði fullu borgaðar og andvirði þeírra væri eíns óhætt í gullhúsinu á eptir eíns og áður í jörðinni. a) Ef þessu er nú vikið til Íslands, þá ligg jeg so fari jafnan best, að þjóðjarðir sjeu til handa þeím embættismönnum, er setjast verða að í sveitum. Það er mönnum t. a. m. minnilegt í Rángárvallasíslu, hvað erviðlega síslumönnunum tveímur seínustu hefir geíngið að koma sjer niður; og hinum firra *(Bonnesen)* varð það eína til úrræðis, að hann gat losað sjer bíli með

jörðinni, sem áuöfnuð var til ábúðar síslumanni. Hinn síðari, sem þótti hart aðgaungu að reka þann upp aptur, sem staðið hafði upp frá formanni hans nauðugur, varð að leggja mikið í sölurnar, áður hann næði inn á aðra jörð, og var farinn að hafa um orð að gánga frá sísluani aptur firir þessa sök. Þó eru menn enn so blindaðir, að vera að brjótast í að selja nú líka þessa seínustu þjóðjörð í síslunni. Það verða þó lokin, að stjórnin kjemst ekki hjá að kaupa jarðir aptur handa slíkum embættismönnum, og eíns og vant er, firir hálfu meira verð enn hinar voru seldar. Það eru líkindi til, að hvað af hvurju verði til settir læknar að minsta kosti í öllum stærri síslunum, og allir skilja þá, að þeír þurfi jarðnæðis við, því heldur sem laun þeírra eru minni. Oss er sena hvað líður so fram farið, að þeím sem efni hafa, þikir nokkru kostanda til uppeldis barna sinna, so að því má vísu gánga, að menn fari að hera sig að eíga so sem eínn almúgaskóla í síslu hvurri. Eínn merkasti bóndinn hjá oss hefir orðið firstur til að kveða upp úr með þetta, og er meíri von, að gjerður verði rómur að máli hans eínhvurstaðar. Enn varla kjemst stjórnin hjá að rjetta slíkum viðburðum hjálparhönd; og með aungu irði henni það hægra, enn með því að leggja jörð til að setja skólann á, eða þeím sem hafa ætti á hendi kjennsluna. Og sama gjetur það komið sjer vel með ótölulegum hætti, að eítthvað sje óselt af þjóðjörðum. Sama er að seígja um landauratekjurnar; first höfundurinn er mjer samdóma í, að þær sjeu uráttarstólpinn undir öllu voru bjargræði, þá er hæpið að svipta að minsta kosti presta stjettina þessum tekjum; því varla mun nokkur so rángeígður, að halda kjör þeírra of góð, þegar á allt er litið. Það sem höfundurinn seígir hjer að lútanda í greíninni (á bls. 230—35), er því ljettvægara, sem hann í eínu orðinu lætur það mæla fram með sölu kirknaeígnanna, að tekjur prestanna þá aukist (bls. 232—33), enn aptur í öðru (bls. 234) að jarðukaupendurnir hans auðgist, með öðrum orðum: að andlega stjettin missi (því annað gjetur ekki orðið þeím til auðgunar, enn það sem henni missist), so hvurt er í móti öðru Að það sje mín ósk, að eínstakir menn græði, enn hið opinbera verði firir hallanum, eíns og hann seígir hjer, fer fjarri sönnu. Það ætti eptir því að vera best, að sleppa opinberu eígnunum firir alls ekkjert; enn jeg hefi ekki gjetað ætlað höfundinum þessa meíníngu, því síður að jeg hafi hana sjálfur. Hið opinbera má að

minni ætlan ekkjert missa, og það sem því missist, hlítur á eptir að bætast því aptur með álögum á miklu fleiri enn þá, sem firir gróðanum urðu. Jeg ítreka það enn: allur þessi gróði af þjóðjarðasölunni, sem hann lítur so mikið á, kjemur fram við einstaka mann til birðarauka firir alla, og slíka sölu gjet jeg ekki talið holla landinu. Jeg er hvurgi nð heimta, að prestarnir sjeu einir fullir og feitir á ófriðar tímum og hallærisárum (sb. bls. 235), og held ekki þurfi heldur firir því að kvíða, þó þeim sje lofað að halda þeim tekjum, sem þeim nú einu sinni hafa verið til lagðar, því landauratekjur eru vanar að fara heldur mínkandi á hallæristímum; enn jeg held embættismenn, meðan þeir eru álitnir nauðsinleigir á annað borð — hvurt sem eru prestar eða aðrir — verði að gjeta tórt af embættishluanindum sínum, so bæði fáist menn til að gánga undir þau, og að til vinnanda sje að afla sjer þeirrar mentunar, sem við þarf til að gjeta farið með þau lítalaust. Enn þó jeg reíndar sje á því, að ávögstarinn af andvirði jarðanna irði meiri enn afgjöld þeirra, og mjer eða öðrum jikist í bráð tekjur við söluna, þá vil jeg ekki vinna það til að heldur, enda þó rjettur væri að selja, sem líka er tvísíni á. Jeg held nefnilega hvurki andvirðinu óhættara á eptir, enn því er nú í jörðunum, eíns og menn gjeta látið sjer skiljast af því, sem á undan er komið, — njo ávögstinn hollarn, þegar leíngdar leíkur við; og leifi jeg mjer um það að vísa til þess, sem sagt er í búnaðarritinu (á bls. 167—168) um landauratekjurnar í samanburði við peníngana, því höfundurinn hefir ekki rekið það. Eínginn gjetur móti borið, að þeir embættismenniruir, sem hafa fastar penníngatekjur, hafa flestir á seinni tímum verið illa farnir; og það gjetur ekki hjá því farið; því þegar landaurarnir, sem nægast á að lifa við (og þetta nær þó ekki síður til prestastjettarinnar enn æðri embættismannanna, sem hafi gjeta aðsetur í kaupstöðunum), fara hækkandi ár frá ári, verða allar penínga tekjur að sama skapi að verða ónógar. Og þegar nú ávögsturinn af andvirði jarðanna, þó það væri aldrei nema á vísum stað, gjetur ekki farið vagsandi eptir því sem þarfirnar fjölga, enn landauragjaldið nð hinu leitinu bætir allt af úr aðalþörfum þess, er í sveítinni bír, — þá fara penníngarnir nð verða ónotalegri enn afgjöld jarðanna, og að síðustu alls ónógir. Enn jeg vil ekki vita so illa búið í hagina firir embættisbræður mína, enda þó jeg ætti að komast hjá því sjálfur í lifanda lífi,

sem eigi má firir sjá, — að þeir þirfti að taka upp á öðru eíns jarmi út af kjörum sínum, eíns og þeir sem núna eiga að búa við penníngatekjurnar. Mig uggir, að so mörgum ölmusumúnkum gjæti ekki orðið veitt áheírn, enda mundi þá og sá grænstur, að ífærast mórauðum kufli og gánga hús úr húsi berfættur til að beíðast ölmusu. Enn að þeir verði að koma tímarnir, að penníngatekjur, sem nú mætti sæma við, verði seínna ónógar, liggur í augum uppi; því bæði mun þetta almenna reínsla víðast, að penníngatekjurnar sömu verði því ónógnri, sem eínhvurri þjóð fer meir fram, enda hlítur sú nú að verða raunin á hjá oss að minsta kosti, og er þá helst að gjöra ráð firir því, sem verður að vera (það er tómur óþarfi að gjöra ráð firir, kríngumstæðurnar verði hinar sömu, þegar þess er eíngin von — bls. 232); og er nú að víkja til hins næsta:

b) Að hinu opinbera er so ábatamest að riðja út jörðum sínum, að þær eígi ekki firir sjer að taka meíra verði seínna. Enn af hvurju veit höfundurinn, að jarðir gjeti ekki komist hjer hærra enn nú? með hvurju sannar hann, að hið aptranda dæmi af stólsjarðasölunni eígi hjer illa við (bls. 234)? Hann ber mig firir því, að jarðir gjeti ekki komist hærra enn nú, þar sem af orðum mínum mætti eínmitt ráða hið gagnstæða*) (sb. búnadnrritið bls. 162). Ætli landaurarnir hliti ekki að taka meira verði, ef verslan vor irði látin laus, sem varla verður leíngi við spornað hjer eptir, og mundi þá ekki verð jarðanna hljóta að hækka að sama skapi, eíns og penníngatekjurnar irði þá með ári hvurju ónógari. (Þetta mundi þó meíga ráða af dæminu af saltfisksversluninni, sem áður er til fært). Eða gjetur nokkur með fullu ráði ímindað sjer, að verð fasteígna gjeti verið komið sem hæst, þegar varla er farið að snerta hendi við jarðirkjunni, eíngin tök eru á að gjera landaurana útgeíngilega, bjargræðisveígirnir liggja í dái, verslunin í fjötrum, landið níður sokkið í skuldir og vesæld. Ef þjóðjörðunum í Skaptafellssíslu irði rutt út núna, enn eptir á

*) Jeg á annars opt firir slíku að verða. Á bls. 230 seígir hann óvild mína gjegn jarðasölunni rísa af leígumála jarðanna. Jeg veit ekki, hvurnig honum fer að koma slíkt í hug af orðum mínum, sem mjer að minsta kosti hefir aldreí til hugar komið. Á næstu blaðsíðu dregur hann undan aðalorðin: "ef þeir kjæmi tímarnir" og s. fr., sem var röksemdin firir því, að stjórnin væri ófrjálsari með öllu jarðalaus. Á bls. 263, nð jarðirkjunni standi á sama, hvurt búendur eígi sjálfir ábúðarjarðir sínar eða ekki og s. fr.

roístur verslunarstaður undir Dirhólaeí, þá mundi jarðir þessar og afgjöld þeírra innan 20 ára verða orðnar allt að helmíngi dírari; so þó ekki væri til annars litið enn þessa, væri full ástæða til að banda ekki leíngur móti slíku, sem Skaptafells- og Rángarvalla-síslubúum er so um varðanda.

c) Sona gjetur ríkissjóð Danakonúngs, ef hann ætti að meta mest af öllu — eíns og höfundurinn gjerir — enn orðið tjón að því, að hrapað sje að sölunni. Þó andvirðið gjefi meíra ávögst, þegar fljótt er á litið, enn jarðirnar óseldar (með afgjöld þeírra vita að öðru leíti allir að geíngið hefir upp og niður; sb. bls. 230): þá gjetur halli orðið að sölunni samt, ef jarðirnar eíga innan skamms firir sjer að taka miklu meíra verði sjálfar. Enn vera má að Danir gjeti ekki beðið þess, og verði að meta mest bráðu þörfina, viðlíka og þegar menn í vandræðum selja dírgripi sína firir hálfvirði eða taka lán með okurleígu. Mjer skilst nefnilega, að höfundurinn — hvað vís geímslustaður sem gullhúsið er — ætli þó í þetta sinn ekki að láta það hafa leíngi ábirgð þess, sem kjemur firir jarðirnar. Þegar hann talar í Danmerkur nafni hvurt sem er, þá er von að hann verði að gjera ráð firir því sem er, að ríkið sje í botnlausum skuldum, og verði að meta mest það málið, sem næst er, og hjálpa sjer á fram eíns og geíngið gjetur; eptir þessarri hugmind er allt afmælt hjá honum. Enn hvað kjemur slíkt Íslandi við að so komnu? Danir ætla, að þeír tolli oss eígi að síður, og heímta ekki meíra enn vjer berum oss sjálfir, og vjer eígum first að sína þeím með rjettri meðferð efna vorra, að oss takist það. Þeír eru ekki mótfallnir því, að vjer metum oss mest. Enn þegar vjer first erum búnir að sjá oss borgið, skal oss öllum eíns og maklegt er, verða það sönn gleði, að verða þeím eíns og bræðrum vorum til allrar þeírrar stirktar, sem vjer gjetum í tje látið. Jarðasölu ríkjanna er allteína háttað og jarðasölu eínstakra manna; hún gjetur bæði orðið nauðsinleg og betri til að grípa enn annað verra, þegar menn eru í skuldavafsi, eða þeím liggur á að eíða peníngum; enn sjaldnast mun hún stuðla til að fá peníngum öruggari geímslu. Það er á seínustu tímunum, að ríkin hafa sökkt sjer í þessar skuldir; meðan so er á statt, verða þau úrræðin best, að selja allt sem í hendi er, til að borga með; enn öðru máli irði að gjegna, þar sem ríkin færi að eíga nokkuð afgángs skuldunum. Ætli menn ljeti sjer þá ekki hægra með að

draga ríkiseígaírnar inn í gullhúsin? Að minsta kosti leítst ekki ríkisstjóraiani í Danmörku að láta lausar fasteignir sínar, nema með því móti, að halda mestöllum afgjöldunum eíns eptir og áður, meðan hún hafði von um að komast frá skuldum sínum með öðrum hætti (*Reventlovs Levnet* I, 66, 308). Enn þegar fjárhagur ríkisins versnaði enn meír vegna stríðsins, varð til þess að grípa, að selja algjörlega; enda voru það úr því orðin líklegustu úrræðin. First að nú Ísland á að nunast sjálft þarfir sínar og það er í aungum skuldum, þá er líkara, að ekki hlíði síður að áskilja sjer first um sinn afgjöldin, þó jörðunum irði sleppt, enn að selja þær algjörlega í þeírri stopulu von, að andvirði þeírra verði betur geímt á eptir. Látum oss first um sina huggast við, að það verði nógur tími til að sjá firir eígnum landsins, þó það sje látið dragast þángað til eítthvað er í tilbúníngi, sem Ísland þarfnast og ekki verður komið í verk með öðrum hætti.

Jeg hefi nú leítt firir sjónir, hvað jeg hafði firir mjer í framanskrifaðri greín úr búnaðarritinu, og um leíð svarað aðfindni höfundarins nokkuð; og vil jeg nú að so mæltu skjóta máli okkar undir dóm almenníngs. Jeg ætla ekki að þreíta hjer lesendurna með fleíra, þó það sje enn í mörgu, að mjer kjemur ekki saman við hann. Mjer er sjálfum firir laungu farið að leíðast að tefja so leíngi við þessa bók; því það er ætíð óskjemtilegt starf að lesa, þó ekki sje nema lítinn kafla úr bókum, ekki til að fræðast af, heldur til að hrekja. Jeg gjet ekki látið mjer þikja firir við höfundinn, þó hann í þessum seínasta kafla bókar sinnar renni til mín heldur óblíðu hornauga, þegar hann er að sína "vaasmíðin á hugleíðíngum mínum", því hann var níbúinn með rit sitt, þegar þær bárust honum, og hið forna:

*Jamqve opus exegi — — —*

hefir, ef til vill, meír enn hann sjálfur veít af, stírt penna hans, þegar hann nú að vörmu spori var óaáðaður af kjennúngum, sem hans voru gagnstæðar. Jeg hlít að virða tilgáng hans eíns þar, sem við erum sinn á hvurju máli, og hafa umburðarlindi með honum, þó hann hugsi og dæmi eíns og útlendur um hagi Íslands; því hann fór hjeðan úngur, dvaldi (eíns og hann seígir) 11 ár í Danmörku, enn hefir síðan híngað kom, varla stigið fæti út firir Reíkjavík. Jeg ætla að vona, þegar hann kinnist betur við, að hann hugsi sig um, áður hann

tekur sjer á hendur so mikinn ábirgðarhluta, að flitja jafnhættulegar kjenníngar eins og þær um þjóðjarðasöluna, sem auðveldlega finna áheirn hjá Dönum, er það þikir álitlegast, sem líkast er tilhögun sjálfra þeirra — og að hann hjer eptir láti reinsluna jafnan stiðja mál sitt, þegar hann hefir ekki mig einan, heldur flesta merkustu menn landsins móti sjer.

Ritað í janúar-mánuði 1841.

**Tómas Sæmundsson.**

